# Annalar.

Þess
froma og velvitra
Sáluga
# Biørns Jonssonar
á
## Skardsá
Fordum Logrettumanns í Hegranes-Sýslu.



---

Prentader ad Hrappsey,
í því nýa Konúngl. privilegerada Bókþrykkerie ár 1774.



# Haattvirdande Landsmeñ!



Þótt færstum her i lande þyke miked koma til þeß Prentverks er sett var ad Hrappsey 1773. þá er þad ecke ad undra, því flestar Þióder hafa vered med sama marke brenndar ad ei hafa þóttz þurfa upplýsingar, þá er þeim hefur hvad mest áleiged. Eg vil ecke her um dæma, því blindur er hver i siálfs síns sok, enn hitt veit eg ad annadhvert fara útlender vitrer og lærder menn villt er þótte full þorf á Prentverks innleidslune, edur þeir af mínum londum, er meina slíkt vastur og fáþorf eina.

 Bere



Bere hiner sídare sigur úr bítum med þeirra meíníngu, því skort-
er oß þá so mikedl á vidl adrar þióder í flestollu er mannleg
konst hefur átt til ad leggia? Hví blómstra ecke vorar Fabríkur,
Akuryrkia, Hondlun med framande og æfíng í siókonstenne?
já þad er minstu varda þyker; Hví eru-nytia lønd vor so hrap-
arlega til reyka, eins og ver og forfedur vorer hefdum sofed
alla æfe edur ættum ver ei ne vorer epterkomendur ad lifa leing-
ur enn til morguns? j einu orde: því erum vær so agndofa
ordner ad ver látum siálfa náttúruna, þad er ad segia vinda og
votn troda oß under fótum, þar þó vída hvar mætte loku fyrer
skióta? Uppá þetta munu mer þegar svor búenn ad slíkt gete
Prentverked ómogulega endurbætt. Eg játa þad er satt ad því
leite, sem penínga útlag snerter, enn þad gefur þó med lærdra
manna tilstyrk, útgefed þær bækur er sýna oß voru ófullkomleg-
leika og leida under, eins til þeckíngar á þeim hlutum sem nú
eru hullder fyrer margra augum. Munu þá hiner vitru kalla
mikln afloked og hægra úr ad ráda enn ádur. Eda munde
Hr. Landfógete Skúle (til dæmes ad taka) hafa so ordugt átt
uppdráttar, ef fiollde landa vorra, hefdu lited um hæl og bored
þessa lands ásigkomulag saman vid annara, því ecke þurfte nú
meira til ad siá voru egenn vanmátt, og ad umbreitíngenn var
harla naudsynleg: Vissulega hefde þá betur fared og fleire mundu
viliugre orded hafa ad skióta af þeim hiálpræðes boga er kóng-

ur

   

ur og hann hofdu spentann. Var ecke Reykiavík ordenn mind af kaupstad og athvarf morgum ydiulausum hamhleypum? Voru þar ecke Fabríkur hvar vid marger tóku þann ábata sem enn ser merke til? Var þar ecke Siglíng, Æfíngarskóle fyrer úngmeñenn? jú þetta var þar allt saman; því verr nú ad mestu kollkastad. Mætte því uhya pressann segia Stórmenne þessu nockud í vil og være viß uppá ad einge reiddez þá munde hún láta þad vera þetta, Herculeus fuit iste labor. Enn so eg ginne ydur ei ofleinge góder Landsmeñ sem anstigd hafed á nýum innrettíngum og máske líka vel á þessum tolum, þá vil eg víkia til efnesens sem er ad greina nockud frá útgáfu þessara Annala hvar af fátt eitt hefur prentad vered á íslendsku alleina þeim til gamans er slík fræde girnaz mættu. Fyrer lán á Exemplarenusem epter var prentad og án efa var gott ad audruleite enn ritreglunum þó samanbera þyrfte med tveimur ødrum er eg um þacker skylldugur prófastenum Síra Vigfúse Jónssyne í Hítardal, enn serílage skulldbundenn velæruverdugum og hálærdum prófastenum Síra Gunnare Paulssyne í Hiardarhollte er med rád og dád hefur gefed sína ei sídur lærdómsríka enn einlæga meiníng til kynna um oll í brád siáanlega fyrerfallande dubia, og er því vel maklegt hanns hróse her med se á lofte halldeð. Á medal annars vil eg geta þeß er hann talar um epterfylgiande póst í Sagnaskrifarañs formála. **Enn þar skulu liggia**

**vid**



vid XII merkur vadmæla ef menn kaupa dyrar enn lag er ælagt. Hanns meining þar um er þesse: XII merkur vadmála líta hellst út fyrer mer (seger hann) ad vera ege edur vered mune hafa 4 hundrud 96 álner epter því sem þeir gømlu hafa taled 6 aura í mørk bæde silfurs og verdaura hvert á sinn máta, og líka sem nefnaz hundrud vadmála ei sídur (jafnvel þótt sialldnar) enn silfurs og verdaura, þá *Svaderar Analogia* ad þad vered hafe 2½ mørk. ɔ: 20 aurar, *Mulcta* má ad sønnu synaz mikel enn þad hefur ei þótt litels verdt ad koma framande kaupmønnum á ad útsiúga landed, og þótt nockur villde, til ad minka sektena skilia her 8 álner vadmáls fyrer mørk vadmáls, þá finn eg ei þad hinu audru talenu *Analogum* ad giøra mørk af sóddan *Simplicibus* edur *elementis* helldur *exinde Compositis* nefnl. aurum. En þá være 12 merkur 96 áln. Auk þessa er adgætande þó litlu var de, á hvoriu áre Biorn hefur skrifad formálañ, þar exemplaria sem prentad er epter bera þad ei med ser, og meina menn liklegt þad hafe skied þá Biorn hætter ad skrifa edur færande biskupe nockurn hluta af Annálunum, enn þó epter ad hann hafde samanteked Tyrkiaráns Historiuna í Vestmanneyum, fyrer ádur greindan biskup Þórlák. Af frásøgn þeirre er ritud finz vid áred 1518 um biarndýrsfángarann Ketil í Kiotu er annars audsært hvenær Biorn var fæddur sem var 1574 enn hann deyde 1655. 81 árs gamall, hvar fyrer liklegt mætte synaz ad hann Annálana skrifad hefde millum 50 og 60 edur þar um

bil



bil. Nú vil eg hlaupa yfer og bidia lesareñ adgiæte árstaled, 1425 og siáe hvad þar stendur innsett af Magnúse Jónssyne [í Vigur]. Prófasturenn Síra Jón sáluge Halldórsson hefur ad soñu skrifad í sínum Hólabiskupa-æfum um þetta efne so greinelega, ad sú villa er orded hefur um biskupana Jón Jónsson og Jón Vilhiálmsson er þar vid útkliád ad mestuleite. Enn þó til frekare upplýsingar má maklega yfervegaz þad er Síra Eiólfur á Vollum í hanns so kallada **Biskupatale** hefur ritad her um og ei finz innfært í ádur greinda VITAM Jóns Jónssonar biskups edur hans SUCCESSORIS sem er þetta: 17de (ɔ: biskup) Jón 4de Jónsson kom til stólsens 1421. siglde aftur sama sumar kom hingad aptur 1423, enn hvad lenge hann var biskup uppfrá þadan og hvenær hann deyde finn eg ecke, hann er sá sem kalladur er Jón Enske af því hann kom seirna sinn frá Englande. 18de Jón 5te Vilhiálmsson (rángt kalladur Enske) var biskup á Hólum 1432. ꝛc. Dauda ár Gottskalks biskups hinns fyrra setur ádurgreindur Síra Eiólfur 1456 enn seger Olaf Rögvaldsson til stólsens komed hafa 1457 frá hveriu árstale nefnel. um dauda Gottskalks þesse Annáll víkur og hannum fylgiande Síra Jón sem siá má her sídar 1457 og í siálfum biskupa æfunum; og so eg minnez fremur under eins þeß háttar efnes, þá vil eg innfæra fleira er Síra Eiólfur ritad hefur um biskupana ef ske mætte yrde lesaranum til leidarvísers. Sveinn hinn Spake [seg-

er



er hann] 24de [ɔ: biskup] var biskup í Skálhollte 1468 og 1472. ☞ Magnús 3die Ejólfsson er ovíst hvert ár kom til stólsens var biskup nær 20 ár og deyde 1489.] Item setur hann sama vígslu ár Gottskalks og dauda ár Olafs Rognvalldssonar nefnel. 1497 enn nefner ei útkomu, sem og dauda Stephans biskups 1518, enn útkomu Ogmundar 1522 hver sídustu Loca samanberaz vid þessarar árbókar 1500 og 1520. Vid árstaled 1467 er med Notula bendt til 1477 eins og misnmnade í siálfum exemplaribus ad á því áre hafe Biorn ríke og 7 hanns menn vered í helfleigner í Rike af Engelskum, enn þad fyrsta mun vera rettara, því hann erfde Einar Þorleifsson Junkæra bródur sín barnlausann og þar farder er hann átt hafde í Bolúngarvík, hvar um Skiftabrefed siálft ber vitne og Arillds Hvitfelds Danska Cronica, enn Einar deyde fyrre enn 1473. Fyrer utan þad ádur er umgeted mætte enn nú þetta epterfylgiande sýnaz athuggvert þar so stendur, 1517 andadez ábóte Einar á Þverá og 1518 í Not. ** vígdez ábóte Fimboge til Þverár, því vel mætte ske ad annadhvert være missett dauda ár Einars edur vígslu ár Fimboga, þó hefde so mátt ástanda hverutveggiu árenu ad vel gæte samankomez, enn annadhvert er þó samt missett dauda ár Eiriks [vid. Not. ad Annum 1518] edur vígslu ár Helga og mun án efa Eiríkur fyrr dáed hafa og rettara þad er framar stendur [vid. Not. ad Annum 1516.]

Nú



Nú kemur til ársens 1556, þar so stendur: Lagde biskup Marteinn af Skálhollt, enn Síra Gísle Jónsson sigldе og vard biskup. An efa er þetta vangæst ártal; Þar sem Exemplaria seigia, þetta skede 1557 enn ønnur 1558. J Registre bak vid Schedas Ara nefnez Marteinn sem biskup 1557, hvert ed samkvæmt er fleirum sagnaskrifurum. Enn so ey verde oflángordt, þá vísast Lesaranum til þess er oftgreindur Síra Ejólfur hefur skrifad her um, og þad er umgetur Húngurvaka. Skal so her med búed ad sinne, jafnvel þó meira mætte uppreikna um fyrerfallande fleire tvímæle í Annálunum. Ad lyktum óska eg fødurlandenu til lucku med þá nýu pressu, og þá góda ávexte er því þar af kynne spretta, vonande ad einge af minum kæru løndum seu eins sinnader og Plato skrifar um eiñ Kóng í Egyptalande er spurde nockurn vísenda mann er het Theuth, hvar til bókstafer og skrift være manneskiunne nytsamleg? Hann þá skylde hafa svarad: til ad hiálpa minnenu. Ney, sagde Kóngur, því væru ei bókstafer til, þá giordu menn ser meira ómak fyrer ad muna enn ádur. Hvort ad nockru leite var rímelegt; enn víst er þetta, ad hefde pressann fyrr innkomed her í landed, þá er líklegt ad fleira munde af fornaldar gullvægum skrifum vorum óbriálad í minne vera, sem nú eru ad mestu under lok liden, hvar á herefter, ef Gud gefur lucku til, verdur bót ráden. Eg finz

Hættvyrdande Landsmenn Ydar

Hrappsey þañ 25ta Aug. 1774. þ. r. b. þenare

Olaus Olavius.

Þesser Annálar recommenderaz gódfúsum lesara og laundsúm vorum; hvörier ef í þeim sinieck finna og þá kaupa, hafa menn í ásetnínge ad láta fleira þvílikt þryckia almúga til fródleiks, sem ad saunnu er sæmelega fródur í fornsaugum, enn miog ófródur úr því þær hætta; er í þessum Annálum ad saunnu margt fródlegt, enn þar erú marger Annálar sem hafa meira, og so þeir sem þar byria, sem þesser hætta, og verda þryckter, ef þesser gánga vel út.

Bókbindaranum þenar til undervísunar, ad það avda blad, sem fylger epter pag. 158, á út ad skeraz, so það stande ei í midre bókinne til lita.

## Sagnaskrifarans
# Formale.

Hvad vorer Landsmenn og Forfedur í fyrre aulldum hafa ydner vered og ástundunarsamer saman ad henda tídende og tilburde, sem skied hafa ei alleinasta innanlands medal þeirra, helldur og utanlands um alla nordur-álfu heimsins, edur so langt um heiminn sem þeir hafa fared, edur fregnad fenged; þad votta þær bækur og skrædur, sem þeir skrád hafa, sem þó nú telur ad siáz lítell ormull af á medal vor; þvíad þessar bækur inar gaumlu eru nú allar feigdar og fordiarfadar, so á þessum fám skrædum, sem epter eru, finnz hvorke upphaf ne ender*) og þetta samtak og skrif Islendínga um historiur og Annála smíde hefur halldiz allt til þeirrar miklu plágu, sem geck um aull Nordur-laund, og eirneg her á Islande Anno 1350; og þad sez í skrife þeirra hinna Norsku, ad uppfrá því siáiz ecke hiá þeim neitt serlegt samanteked, enn þó sez her á Islande nockud til annála-smídis nær til þess ártals. 1400 kemur her á landid furdanleg plága og miked mann-hrun, so úr því siáz hverke sagnadiktaner ne setníngur Annála, so fyrer mig hafe bored, og hafa þá fráfalled þeir fródu menn er slíkt hafa fyrer sig lagt, enn adrer þadan í frá eige uppteked. Þessa frædemenn kunnum ver nockra ad nefna, er samantóku tídende og tilburde her í lande og annarstadar; fyrst þeir er í aundverdu landnámin samanskrifudu, sem voru Kolskeggur hinn vitre um avstur-og sudur-



*) Endíng.

landid, enn Are prestur Þorgillsson hinn fróde fyrer nordan-og vestan landid, og hvad greinelega þeir þad giort hafa, má lesa í landnáma-bókunum.

Þessu jafnframt er og sá vellærde mann Sæmundur prestur Sigfusson hinn fróde, er miked dictade historiur og Annála-skrif, og hanns Ættmenn Oddveriar heldu því og lenge, og kaullum ver þad Odda Annál, er Sæmundur byriade, og epter hann adrer vidjuku. Are hinn frode hafde og Annála skrif og hanns epterkomendur, og þad kaullum ver Flateýar Annál, enn þesser hverutveggiu endaz sem ádur sagde. Seinna á tímunum komu þeir miklu frædemenn, Snorre logmadur Sturluson og Styrmer prestur hinn frode, þeir skrifa sídan tídende og tilburde, so utanlands sem innan, og um þann tíma og nockru sídar er sá vitre madur Sturla logmadur Þordarson, er þá miklu Íslendínga sauguna framsette um Sturlunga, Oddveria, og Haukdælinga. Þesser menn hafa og diktad saugur um þá Norsku og Daunsku Kónga, sem nóglega sez. Her hafa og vered þeir vellærdu Múnkar, sem þessum diktunum hafa og framhalldid, serdeiles þeir tveir á Nordur landinu, sem voru á Þíngeýrum, Gunnlaugur og Oddur, sem maurgum bókum hafa snúed úr ýmsum túngumálum á Norrænu, og so saugurnar diktad; Her á lande hafa og adrer fræde menn vered sem voru Þoroddur Rúna-meistare og Stiaurnu Odde, einneg Hr. Haukur logmadur, sem Haukbokina let skrifa. Þessum fræde maunnum jafnframt hafa og frodleikinn stundad biskuparner her á Íslande, bæde diktad og láted dikta saugurnar, og snúed á vort mál audrum bókum. Í Skáhollte þeir fedgar Ísleifur og Gyssur og so adrer fleire, sem þá sídar Jon biskup Holldorsson, einneg á Hólum finz helldstur af þeim Brandur biskup hinn fyrre Sæmundsson, hvor saman let skrifa margt

margt og miked þad sem her á lande hafde til tídenda falled, og þessa sagnamenn vil eg nú ei fleire greina, þó nefna kunne.

Nú fyrer þad sem ádur áveik, ad þær frædebækur sem þess-er menn hafa samanteked um Island og tilburde her, eru nú forrotnadar ad mesta parte, þá hefur þeim heidarlega Hr. bisk-upe **Þorlake Skulasyne** ósæmelegt sýnz sem og óviturlegt, ad affelle so ad eingenn sæe edur visse epter oß, hvonneg í landinu tilgenged hefur, hvorier því hafe ſtiórnad, hvonær þad kom under útlenda herra, Staderner under kennevalldid, og ann-ad fleira slíkt, og hefur því látid uppteikna og samanskrifa, þad sem nádz hefur, fyrst þann fróda landnám og sídan þá miklu Islendínga saugu, í hvorre margt má um slíkt greinelegá siá. Því hvor skal segia vorum epterkomendum frá slíku, ef eingenn helldur því uppe?

Einneg hefur sá loflege biskup **Þorlakur** gyrnz ad siá og vita hvad finnaz edur fáz mætte samanteked ad í landinu hef-de vidbored, sídan Annála skrif þeirra fyrre manna þravt og endade frá Anno Christi 1400, og hefur óskad af mer, þad líted eg kynne hafa og vita herum samantaka, hvad mín skylda fullkomenn var, þeim virduglega herra herum gegna, og hefe sýnt vilia minn, þó þetta se fátt og enn midur af stad komed, kys hauns Umbót og Umlíding vid mig herum. Hefur sú mikla pláge sem eg nefnde fleira fyrer oß Islendíngum ofgad enn Annála skrifid, sem er skipa gáng frá landinu af lands-mannnum her sem allshendis hafa framfared af landinu á sin-um skipum, utan þad sem vered hafa nockrer nidiar Vatnsfiard-ar **Biarnar Iorsalafara Einarssonar**, og **Torfe Ar-rason** so lenge hann var hyrdstíore her á lande, edur þad sem



biskup.

biskupsstólarner hvor um sig hafa hafskip átt, því þesser marg-
er hvorier biskupar hafa útlendsker vered, og af þessum tilfellum
hefur landinu allt apturfared, þó nú um stund yfertake, og
hvönneg nú er þrehngst þiakad ad þessu lande má drottinn vor
náda, hvad mer er vandt um ad skrifa, og þeir meiga giora
sem betur kynna, ad hvorra ordum meir rídur; veldur og í
maurgu hveriu her innanlands vanfylge vort siálfra og sam-
helldisleyse, enn þad siáum ver Íslendíngar ad samhellde hafa
þeir útlendsku menn (um kaupskapinn ad tala) í móte oß, so all-
drei ser. hvar þad vill lenda fyrer oß er slíkt á adra sídu adsæk-
er, enn á adra ó-ára-hrun. Genged er nú þad sem sez í
Annálum her, þá Íslendíngar laugdu siálfer verd á varníng
kaupmanna; so sem giorde **Sæmundur Jonson** í Odda,
og **Þorvalldur Gissurarson**, einneg sem stendur í gaum-
lum laugum her í lande, ad menn skyldu ei kaupa dýrar aust-
rænaun varníng ad skipum ad kaupmaunnum, enn þeir menn
rádleggia þrír, er til væru tekner í hvoriu herads takmarke;
Takmark er frá Lánganese og til Lónsheidar, frá Lónsheide til
Arnarstacksheidar [aull þesse takmaurk voru nidurskaumtud í
kríngum Ísland] þeir skyldu leggia lag á Miol og lereft, vid
og vax og tiauru, enn þar skulu liggia vid XII merkur vad-
mála, ef menn kaupa dýrar enn lag er álagt.

Hvad er nú um slíkt ad ræda? ráda nú ei adrer alen,
vigt, mæler, vauru sinne og vorre? enn ver erum innebyrgder
so sem fé í siáfar hólmum, og eige so mikell skipagángur af
landinu, ad gete kannad ehar þær til matfánga er kríngum
landid liggia, þeß sidur komi; til annara þiódlanda, ser næríng-
ar leita.

Þetta

Þetta mitt epterfylgiande Annála-skrif bid eg Minn fróma herra biskupinn ad lagfæra og leidretta, enn virdiz maunnum sem siá kunna, eg ofhermt hafe um nockra hlute her inne, vilde eg ei af tilsettu ráde giort hafa, og þigg þá þad ad vita, so eg skyne eda sege hvad eg fyrer mer hefe, á medan tilendiz. Befalande nú minn herra biskupinn ehrugøfugann yfermann Hr. Þorlak Skulason eylífum Gude til allrar Umhyggiu.

á Skardsá
þañ 29 Aprilis.

[underskrifad Nafn]
Biorn Jousson.

Anno Domini 1400 var Eyrikur af Pomeren kóngur yfer Noregs ríke, og hafde þó drottning Margret Valldemarsdótter nærsta yferráð sem sat þá í Danmaurk; því hún hafde erft Norvegs vellde epter son siñ Olaf, er dó 17 vetra enn hann erfde epter fauður siñ, mann Margretar Hákon kóng. Hún hafde þá og unned Svía ríke, og stiórnade því þá; enn 1397 tók hún hann fyrst til ríkesstiórnar med ser. Anno 1400 var Petur biskup á Hólum, fimtánde þar; enn Vilchin edur Vilhiálmur hinn danske að Skálhollte nítiánde þar.

Anno 1401 *) hófz mikel plága á Islande og stód yfer til 1402, so þó 15 fære med einum til graftar, komu ei heim nema fióret, þá var heited maurgum faustum, og psaltara, talna saungum, Mariu gaungum, og að gefa hálvætt silfurs til Hóla, til að búa Gudmundar skrín hins góða.

Anno 1403 tók Askell erkebiskups tign í Nidarósi tuttugaste þar, enn Winolt deyde áre fyrre erkebiskup.

Anno

*] Annað exemplar tilskrifar þessa plágu árinu 1402 og mun vera eiga Svarti dauðe er geck þetta ár og tvö epterfylgiande her á lande.

Anno 1404 dó Bonifacius hinn nýunde med því nafne; ríkte 15 ár.

Anno 1405 kom út Norskur ad ætt Vígfús hyrdstióre og Gudrídur kona hans, bæde 15 vetra.

Anno 1406 dó Innocentius Páve 7de; ríkte 2 ár.

Anno 1407 vard Gregorius tólfte páve 2 ár 7 mánude.

Anno 1409 þegar Margret dótter Valdemars kóngs, enn eckia Hákonar kóngs miste sinn son Olaf, þá gaf hún Slesvík hertugadóm til Gerhardum af Holsten, enn dótter Gerhardi færde þad til Theodoricum af Oldenborg á þessu áre 1408, enn hanns sonur Christian eignadiz þad sem átte eckiu Christophori kóngs af Danmaurk, því hann eignadiz þad epter sinn faudur Theodoricum, og so er Danmaurk komenn under greifann af Oldenborg; enn þesse kóng Christian samblandade ríkiunum Danmaurk og Norege; af hanns ætt eru vorer losleger danskir kóngar komner.

Anno 1409.

Anno 1410 Ruphertus phalsgreife til Rýn, 34de Þýdskur keisare, stiórnade 10 ár; Alexander páve 5te var 10 mánude.

Anno 1411 Johannes páve 23ie 5 ár.

Anno 1412 dó drottning Margret, 27da Octobris á skipe; rede Danmaurk og Norege 37 ár, enn Svía=rike 24 ár.

Anno 1413 sátu ad Vatnsfyrde *) Þorleifur hinn ríke Arnason og hustrú Christín Biornsdótter; þeirra son var Biorn

*] þenna vetur.

Biorn er átte Olufu Loptsdóttur hins ríka. Þeirra baurn Þorleifur, Arne, Einar, Solveig. Arne fell í stríde fyrer Búnkaberge í Svíaríke og átte einginn baurn var med Dana kónge. Biorn Þorleifsson andadiz 1467, því þá kallar hustrú Oluf menn til ad skipta gótsinu medal sín og sona sinna og dóttur, hún tók helmíng móts vid baurn sín, sosem þad skipta bref tilvísar, ad skipt hafe vered í Vatnsfyrde mánudaginn fyrstann í Vetre. Stórmiked jardagóts og fríder peníngar voru þar epter látner. Þesse Biorn var vegenn í Rife af engelskum; hefnde Oluf hustrú sídar og let drepa marga engelska.

[Anno 1415 voru í Róm 3 pávar under eins, Gregorius, Johannes og Benedictus, þeir aller affetter. Ehríkur kóngur gaf út eitt bref sem styrkia skylde fríheit og myndugleika Hóla dómkyrkiu. M. J. S.]

Anno 1416 in concilio Constantiensi var sú misbrúkun ásamt audrum svívirdelegum lærdóme pávadómsins logtekenn, ad gefa leykmaunnum ei nema adra myndina, sem er braudid í kvoldmáltídinne.

Anno 1417 ríker Arne *) biskup hinn 3ie þeß nafns í Skálhollte, og er umbodsmadur Hóla kyrkiu stigtes; sat hann ad Hólum. Gudrun Jorundardótter gefur haunum Vallhollt í próventu ásamt audru fe.

Anno 1418 Martinus hinn 5te er páve í Róm ríkte 13 ár.

Anno 1419.

Anno 1420 andadiz biskup Arne Olafsson hinn milde svikenn í Norege af hofmaunnum kóngsins fyrer ofundarsaker, hefur þad vered Ehríkur af Pomeren. Arne biskup rede Skál=

*) Arne hinn millde 20 biskup í Skálhollte.

Skálholte, var Umbodsmadur og Visitator Hólakyrkiu, og hyrdstióre yfer allt Island. Hann reid á dege frá Skálholte epter formessu enn kom til Hóla þá hrängt var til Salve um kvollded.

Anno 1421 Rupertus 34 þýdskur keisare deyde til Heidelberg, hanns son eirn var Christophorus kóngur í Danmaurk. [Grímur Jónsson logmadur O. E. S.]

Anno 1422 selde Þorleifur Arnason med samþykke sinnar kvinnu Christínar Biornsdóttur Asgeire Arnasyne Hvamm í Hvamms-Sveit, og fleire jarder þar nærverande fyrer *) Hóla, Audkúlu í Svínadal, og fleire jarder þar í nánd. Samþykte Gudfinna Þorgrímsdótter kona Asgeirs saulu bónda síns.

Anno 1423 Baltazar hyrdstióre á Islande: brann kyrkiann og klaustrid á Múnkaþverá og þar inne 2 prestar.

Anno 1424 Syster Þórun Ormsdótter **) Priorissa var á Stad í Reynenese, bygde Hof á Skagastraund fyrer 16 vætter skreidar.

[Anno 1425 var Jón Vilhiálmsson engelskur ad ætt biskup ad Hólum. M. J. S.]

Anno 1426.

Anno 1427 Rafn Gudmundsson logmadur fyrer Nordan, bió á Skridu í Reykiadal.

[Anno 1428 Einar Þórleifsson hyrdstióre á Islande. M. J. S.]

*) Hálfa Audkúlu.

**) Abbadis.

Anno 1429 riker biskup Jón Vilhiálmsson ad Hólum. Asbiorn ábóte ad Þíngeyrum. Veiter biskup Jón Lopte b. Gutthormssyne stadinn *) Saudnes um 3 ár. hann veiter og Lavsás Helga Biarnasyne fyrer bón Lopts bónda og hans hústrúr. item gefur biskup Jón qvíttunarbref Sr. Jóne Pálssyne, er rádsmadur hafde vered kyrkiunnar ad Hólum, um alla peníngameðferd í fauslu og lavsu, hvor innann skams verdur hans óvin. Þennan Jón biskup skrifa sumer engelskann vered hafa. Þá var Vigfús Ivarson hyrdstióre. Hanns hustrú het Gudrídur.

Anno 1430 geck bólann mikla. Lýser Jón biskup Vilhiálmsson því í kyrkiunne á Hólum, ad Sr. Jón Pálsson vilie ei koma á sinn fund epter sinne bodan, og hlýdnaz vid sig fyrer þad brot og hugmód er hann hafe í falled ad hann hafde komed á prestastefnu til biskupsins med sitt fólk XXX manna med alvæpne pannsurum, járn hauttum, forstálum, armbrýstum og sverdum, uppdregnum hardneskium, sem einn strídsmann hannum til mótþróa, og gefur biskup hannum þá viku frest til fundar vid sig, enn kome hann þá ei, skule hann bannfæraz óefanlega. Sídar á sama áre skipar biskup Jón Sr. Þorkele Gudbiartssyne (sem hann hafde þá veitt stadinn Greniastad enn tók af Sr. Jóne Pálssyne) ad ser ad taka 3 jarder áuefndar nordur þar, og adra peníngа Sr. Jóns, þartil stadurinn hefde fullt, epter því sem Sr. Þorkell klagade ad Greniastad vantade; þarad auke takiz adrar egner Sr. Jóns hvar sem þær nædiz, því hann være nú bannfærdur; sídan borgar nú Sr. Jón nockru biskupe Jóne. Item gefur biskup Jón Benedict Jóns-

*) Savdanes.

Jónsson qvíttaň fyrer IX marka sekt, og þad brot, er hann hafde ófyrersyniu í þad mannslag ratad, vorded ad skada Þórde Gíslasyne, epter því sem gamall rettur skipar um þvílíkt mál. Item veiter Jón biskup Sr. Jóne Biarnasyne stadinn á Modruvaullum í Horgárdal med aullum eignum frídum og ófrídum, faustum og lausum um nærstu 3 ár. eiga alla ávexte og landskylder, einneg qvígilda leigur. Biskup Jón fær Jóne preste Biarnarsyne hálfann hvalreka, ef reka kynne; geima hinn helmíng kyrkiuñe ad Hólum til þarfa; enn vidarreke skylde falla stadnum Modruvaullum, kyrkiunne og jordunnum til *] uppbyggíngar; sækia og sekta hvorn um sig ef tilynne til fulls reikníngskapar, utan Sr. Jón Pálsson, hann skylde under siálfs biskups nád.

Skylde Jón Biarnason leggia í leigu árlega X kúgillde, fæda prest og diákna. Item fæda og klæda 2 brædur, klaustrinn vidhiálpa. A sama áre úrskurdar Are prestur Þorbiarnarson Officialis á mille þeirra Jóns biskups og Finnboga Jónssonar í Ase í Kelduhverfe um biskups reid og kostnad í Gistíngar þar í Ase. **] [Jón Gerechsson svenskur ad ætt settur til biskups í Skálholte, hann hafde 30 Irska sveina miog ómilda, so siálfur biskup rede litlu edur ongvu vid þá og giordu þeir maurgum óskunda].



*) Upphelldis.

**) Innfært af M. J. S. vid Annum 1422, enn af Sr. J. Halldórssyne vísad til 1430 epter N. Annál.

Anno 1431 giørde Gudne Oddsson sonur Odds Lepps testamentid í Øgre í Isafyrde fyrer Sál Þorbiargar Gudmundardóttur konu sinnar, gefande Øgur kyrkiu med líke hennar Smidiuvík, og Mýra kyrkiu Rekavík og Haufn og lausa góts audrum kyrkium um vestfiordu. Gudmunde biskupe góda IV Hundrud, fátækum VI Hundrud in conceptione beatæ Mariæ ANNO 1431. hafde kvinna hanns ádurnefnd fenged voveiflegann dauda med skiótum atburde, sem Gudne greinður getur um í sama brefe.

Þorsteinn Olafsson løgmann sunnan og austan á Islande átte Akra í Skagafyrde og bió þar lenge, átte og Þorleiksstade sem adrar egner nordanlands. Hanns dótter Akra Christin, er átte Torfe Arason hyrdstióre enn sídar Helge løgmadur á Aukrum fader Ingveldar. Biskup Jón sender miked þyckiu og fædar bref Rafne løgmanne Gudmundarsyne, þad hann hafe genged dóma og úrskurd um skipbrot og vogreks góts er reked hafde á hardbak á Slettu Hólástadar jørdu, og hótar bann-sauk Rafne løgmanne, og audrum þeim er í dóme vered hafe, nema þeir leidrette málid; hafde fyrst gotsid rekid ad lande, sídann skip brot og nockra menn med. Vilde biskup eignaz skip-brot og góts, og háfde skipad, þegar hann næde ei sínu mále, ad brenna skips-flakid.

Móte þessu geck þvert Rafn løgmadur med dóme og úrskurde sínum. Einneg færer Jón biskup stefnu yfer Þorkel prest Gudbiartsson um sagt skip og góts, ad hann hafe keýpt þess helst ser til handa, enn halded því ei under sig og

Hóla

Hólakyrkiu, med maurgum audrum saukum, enn hann hafe þó vered fyrr Hólakyrkiu rádsmadur. Item gefur Jón biskup Lopt bónda Gutthormsson qvíttann um allt rádsmannsdæme Hólastadar heima og annarstadar á búum um Fliót og Skaga, sem nordur undann um allar inntekter og útgiannlld, enn Loptur bónde leggur biskupe X Hundrud fyrer kostnad er menn hanns hausdu giordt, og ad auke þad hálft skipbrot sem um haustid reked hafde, hvad biskup tekur med góduild og virdíngu.

A þessu áre víger Jón biskup Vilhiálmsson á Stad í Reyneneſe VIII systur í klaustrid þar, og þær trúlofaz under reglnhalld med hreinlífe og hlýdne vid Abbadis: Jón biskup lætur Jón prest Einarsson, prófast í Skagafirde lesa þad bref upp vid Vallalaugar Þíngstad, ad hann lýser í gridum og fride h: Hólakyrkiu þá engelska menn alla er þá seu í Hólakyrkiu komner, og hallde þar um Kórstodina, og beidiz nádar og grida epter Guds logum og kyrkiunnar; hvad hann segiz þeim ei synia meiga, sem christenn rettur lióslega hlióde. einneg um þad skip sem nú ligge í Kolbeínsárióse, hafe hann hálft ser keypt og h: Hólakyrkiu; enn hálft hafe þeír lagt kyrkiunne og gefed til eignar, so þad hafskip se nú allt h: kyrkiu og hañs eign, þarmed allt þad góts er þar med fylge, fyrerbiódande hvorium manne, þá menn ad ónáda edur nockud mein giora skipe edur gótse; enn se so edur være, ad nockrer yfermenn kynne edur loglega vilie tiltala þessum maunnum kóngdómsinns vegna, þá býdur hann þeim nú innann nærstu tólf mánada fram fyrer sinn náduga kóng og ríkesins rád, og skule hann svara þeim þar log med þessum maunnum, og hvort þad se

 hyrd-

hyrdstióre edur logmadur fyrer nordan og sunnan á Íslande þetta vilie giora, þá sege hann þeim til reidu ad vore víst far á þessu skipe med ser og þessum mannnum, þó á þeirra egenn kostnad og penínga, enn þeim gódum mannnum, sem nockurn skada hefdu af saugdum skipmannnum*) fenged, vilde hann innanlands láta bæta, annadhvort med sáttmále edur med dóme, fyrerbiódande aullum mannnum dóma edur úrskurde nefna edur gánga yfer þessum mannnum, skipe edur gotse, under fullt forbod og bannsprínu; lýsande gardinn Hóla under Grid og Frid, sitt fólk og eign epter Guds logum og manna. Um þessa engelska menn er þad líkast til, ad þeir hafe komiz úr því slage og bardaga, er vard á Hofdastraund í Skagafyrde fyrer utan mannslagshól, sem merke er til og siáz dýstar af mannnum eru uppkastadar, og Magnús biskup Jónsson hefur sagt ad nær LXXX engelskra manna hafe þar vered til dauds slegner af Skagfyrdíngum, rádsmannnum Hólastadar, sem fyrermenn voru, fyrer þeirra óráðvendnis **] glettíngar, tiltauk á peníngum, diarftæke til kvenna og adra áleitne, ad þesser menn hafe mátt ná Hólakyrkiu ser til fridarbónar og frelsis. Evgenius páve 16 ár.

Anno 1432 er Jón Gerechsson svenske í Skálholte, enn Jón Vilhiálmsson ad Hólum biskupar.

Anno 1433 var Kyrkinbóls brennann sudur, er Júngkære Ivar Vigfússon var skoten í hel; var fyrer brennunne Magnús kæmeistare í Skálho'te, er sumer saugdu son biskups Jóns; bad hann fyrst systur Ivars þeirrar er Margret het, og feck ei, þeirra fader var Vigfús er hyrdstióre hafde vered. þar epter siglde Magnús biskups frænde, og kom aldrei út aptur, enn

*] Og sínum mannnum. **] Giørnínga.

enn Margret komz út úr eldinum um ónshúsid, hafde hún getad giort þar hol á med skærum sínum.

Margret vilde ongvann eiga nema þann sem hefnde bródur hennar, tók sig þar til Þorvardur Loptsson Gutthormssonar hinns ríka frá Modruvollum í Eyafyrde; hann dró saman menn og var med haunum fyrerlide bóndinn frá Dal í Eyafyrde Arne Magnússon, er Dalskeggur var kalladur, og ridu þeir sudur um sumarid fyrer Þorláksmessu í Skálhollt, *) því þá var í Skálhollte helgehald miked á Messudag Þorláks biskups.

Þeir komu þar um aptaninn fyrer messudaginn, og settu tiold sín utar audrum tiauldum; margt var fólks adkomed. Þorvardur og Dalskeggur gengu heim um messu med lid sitt alþyad og gengu **] so í kyrkiu. Dalskeggur geck fyrer og sagde: **nu er miked um dyrder.** Biskup Jón grunade mennina og geck ad altarinu og steypte yfer sig messuklædunum, tók kaleik med patínu í haund ser, þeir nordan menn gengu ad altarinu, tóku biskup Jón þó naudigur være, er so hermt, ad þá þeir med hann í stopulinn komu, ad biskup hafe dasaz nockud af tregdun gaunguunar, og þá hafe hann skipad smásvein sínum ad gánga í kiallara og sækia ser gódann miod-drick, hvad sveirninn giorde og kom snoggt aptur med stóra silfurskál, og bidu nordlendíngar um þetta, Biskup drack hradt af skálinne, og geck sídan med þeim til tialds þeirra. Þar epter hofdu þeir biskup til Brúarár, og drektu haunum þar í med tavg af snære og steine. Giftiz sídan Þorvardur Margrete og áttu þavg III dætur, Gudríde, Ingebiorgu og Ragnhilde. [Ivar Hólmur bróder

*) Því þá visse Dalskeggur ad biskup munde heima vera Jón. **] 50.

bróder hennar [Margretar] var hyrdstióre, og hafde átta Sophiu systur Þorvardar, Loptsdóttur. M. J. S].

Anno 1434 Solveig dótter Þorleifs Arnasonar og Vatnsfiardar Christínar giftiz Orme Loptssyne; var þá Þorleifur Arnason madur hennar látenn, enn Arne eignadiz Sophiu Loptsdóttur, silgde, dó í stríde med Dana kónge, fell fyrer Búnkaberge. Biorn Þorleifsson átte Olufu Loptsdóttur, Einar Þorleifsson giftiz ei, átte því ei skilgetin baurn, er sagt hann hafe keypt Hól í Bolúngarvík, og fleire jarder, þar til I Hundrad Hundrada fyrer Reyke í Skagafyrde, og jarder þar fleire af Bessa bónda Eyríkssyne med samþycke hanns qvinnu Sæunnar Gudnadóttur, sem átte Hól og jarder í Bolúngarvík fleire, datum þeß kaupbrefs skal vera *) 1436, adrer skrifa 42 **].

Anno 1435 ríker biskup Gottsvin í Skálholte.

Anno 1436 deyr Loptur ríke Gutthormsson og Ingebiorg hustrú hanns á Modruvaullum, miked, skáld, átte LXXX stórgarda enn dó í slæmu kote; hann átte epter IV baurn, Þorvard og Eyrík, Olufu og Sophiu; einneg IV sonu laungetna, Olaf, Orm, Skúla, Sumarlida, hvorium hann gaf IX Hundr. Hundrada í løg-giafer sínar. Christín Oddsdótter var þeirra móder, sem Loptur heldt miog frekt vid, ad sinne konu lifande Ingebiorgu Pálsdóttur. Loptur orte um Christínu háttalikel hinn dýra. Þá arfe var skipt epter Lopt, hlaut hvor hanns son hálft fimtanda hundrad hundrada, og tvær dætur jafnt vid annann þeirra. Ingebiorg kona hanns andadiz og á sama áre. Anno

*] 1449 adrer skrifa 42 edur 1422.

**) Ríker biskup Jón Wilhiálmsson samt ad Hólum.

Anno 1437. *)

Anno 1438 er Einar Þorleifsson hyrdstióre, hann var bróder Biorns bónda ríka, er átte hustrú Olufu Loptsdóttur.

[Anno 1439 vard hertoge Christophor af Beyeren kóngur í Danmaurk, Svíaríke og Norege, **) dó keisare Albertus. O. E. S.]

[Anno 1440 er biskup Gottsvin í Skálholte og under eins formadur og umbodsmadur Hólakyrkiu, hann gefur Sr. Jóne Pálssyne Officialis starf fyrer nordan land. Jón Gamlason ábóte á Þíngeyrum hann var ádur prestur. Prentverkid uppfunded †) í Þýskalande. O. E. S.] [Dó Jón biskup Vilhálmsson. M. J. S.]

[Anno 1441 Fridrik sá 3die 37de keisare í Þýskalande, stiórnade í 53 ár frómur og gódur herra, var krýndur til Róm af Nicolao páva; eignadiz dóttur Edvards kongs af Portugal. O. E. S.]

[Anno 1442 vard Christophorus Bavarus kóngur í Danmaurk, því Ericus Pomeranus lagde af ríkis stiórn. Vígdur Gottskalk biskup til Hóla, hanum gaf kóng Christophor af Beyern verndarbref, takande hann í vernd og forsvar, hanns þienara, góts fast og lavst, og ad skip hanns mege sigla til Noregs tollfrí. Datum þeß brefs ††) Ao. 1443. M. J. S.]

Anno 1443.



*] Gottsvin er biskup í Skálhollte. Albertus af Avsturríke keisare annar þess nafns tók stiórn og ríkte ei full 2 ár.

**) Stiórnade 9 ár.

†) J þeim stad í Þýskalande er Mens heiter.

††) Sr. Jón Haldórsson skrifar í Æfe Hóla Biskupa datum þeß verndarbrefs 1442.

[Anno 1444 var Ladislaus, kóngur í Húngarien, sleiginn af þeim tyrkneska keisara, so þar fellu á bádar síður 50000 manns í einu slage. O. E. S.]

[Anno 1445 ríker enn þá Gottsvin biskup í Skálholte. O. E. S.]

Anno 1446 Einar Þorleifsson samt hyrdstióre bróder Biorns ríka, er átte Olufu Loptsdóttur.

Anno 1447 ríker biskup Gottskalk á Hólum Jón ábóte Gamlason á Þíngeyrum. Þad ár gefur Christophor, Noregs, Svía, Danmerkur, Vendis og Gótha kóngur phalzgreife til Rín, hertoge til Beyeren bref út Petre Peturssyne Íslendíng hyrdmanne sínum uppá þá ákæru er hann seger hann hafe fyrer ser klagad, ad Þorvardur Loptsson hafe fyrer haunum halded, medan hann lifde, med magt og ofríke IX jordum í Eyafyrde, er nú hallde med samre magt og ofríke hustrú Margret epter bónda sinn Þorvard, og fyrrnefndur Petur hafe heimsókt hanns kóngl. nád til styrktar og adstodar. Þá skipar kóng Christophor nefndum Petre ad ser ad taka sagdar jarder, nema hustrú Margret sýnde loglega sinna barna eign vera, og legge þad under VI manna dóm innan hálfs mánadar ad brefunum heyrdum, skipande hyrdstióra, logmannnum og aullum audrum hann her til ad styrkia, enn vilie saugd hustrú Margret Vigfúsdótter ecke þessu gegna, þá skule sem þýngstum saukum mæta epter logum. Á þessu áre afhender Sr. Þorkell Gudbiartsson Sr. Jóne Pálssyne stadinn Greniastad. Hann hellt stadinn 24 ár. Hann var fader Finnboga logmanns.

Anno

*] Anno 1448 kóng Christian fyrste kóronadur í Þrándheime, hann stiórnade 34 ár. Niculas páve fimte 8 ár. Torfe Arason hyrdstióre á Íslande. Hannum gaf hver sýslumadur 1 Hundrad fyrer hvørt þíng í hvørre sýslu, so lenge Torfe Arason var hyrdstióre, í navtum og savdum og gódum hestum. Biskup Gottskalk gefur Sr. Jón Pálsson frí og qvíttann, sem vered hafde Officialis og rádsmadur Hólakyrkiu, og prófastur í Hegraneß þínge og fyrer nordan í Þíngeyar þínge um aull þesse staurf, af því hann hafe ser og fyrrverande formaunnum h. Hólakyrkiu rettann og allann reikníngskap giort af officialis dóm, Hólastadar gótse, biskups tíundum, Romaskauttum, og biskup Gottskalk og Hólakyrkia hafe her fyrer fulla og ánægelega peninga uppbored. Einneg á sama áre samþycker biskup Gottskalk þad Collationis bref, er Askell erkebiskup, sem vered hafde í Nidarócse, hafde veitt Sr. Jóne Pálssyne fyrer Greniadarstad, enn Hólakyrkia hefde vered um þann tíma biskupslavs, er þad bref var útgefed af erkebiskupinum, og tekur hann her med í fullann kærleika og vinskap. Sr. Jón Pálsson heldt þriú ár Greniadarstad.

Anno 1449 tekur Asláku erkebiskupsdóm og er 21 ár erkebiskup í Nidarócse; hann gefur þá bref út Gottskalk biskupe á Hólum og setur hann yfer Skálholts stifte, epter því sem Íslendíngar hafe sig umbeded, þar med skule hann vera Visitator yfer allt Ísland, siá um klavstur og hvad til hafe falled í síns forveriara tíd, erkebiskups Askels og þad allt útretta. Einneg

 ann-

*) [Her stód í Exscripto utá Spatziunne. Kóng Christian 1te útvalen í Danmaurk og Norege enn krýndur til kóngs í Þrándheime áre sídar. Enn Sviar tóku ser fyrer kóng Carl Knutsson einn sinn hxramann. M. J. S.] Þetta er og satt þó getur ei um í Danmerkur Rikes Hístoriu ad hann hafe krýndur vered í Þrándheime.

annad bref Askells erkebiskups gefed biskupe Gottskalk, ad hann mege ráda og veita lífsbref fyrer þeim staudum í Skálholts biskupsdæme Oddastad og Hítardal, enn fyrer nordan Greniadarstad og Breidabólsstad. Biskup Gottskalk lætur alla presta í nordlendínga fiórdúnge samantaka Rómaskatt, nagla fyrer mann, vard þad miked fe.

Anno 1450 Christiern fyrste, Noregs, Danmerkur, Vindlands og Gotha kóngur, greife í Oldenborg og Delmenorst gefur út híngad til Íslands rettarbót hina laungu, sem innehelldur fyrerbodníng óloglegra yferreida, ráns og gripdeilda, ósida, ofurvalds, reifaraskápar, leggiande her vid stórar sekter med maurgu audru sem landinu var gagnlegt í þann tíma. Item fyrerboded ad inntaka nockurn biskup á Íslande, edur nockurn í biskups stól innsetia, fyrr enn hann hefur fenged kóngsins bref og innsigle og ríkesins ráds, og samþycke erkebiskups í Nidaróse. Þá giora Norsker eitt bref um kóngs útvalníng þeirra, ad sá sem valenn er í Danmaurk hann skule yfer Norege ríkia, og samanbinda so ríkinn æfenlega, epter því sem þeir nú giort hafa vid kóng Christiern, fyrer þad skrifade Marcellus med Guds nád biskup í Skálhollte, archipostulatus í Nidaróse, og pávalegs sætes legate, Torlaf í Viborg og postulatus í Biorgvin; Gunnar í Stafangre med samre nád biskupar, med fleirum audrum; greiner þetta bref ríkin skírlega samanbundenn, og same kóngur skule beggia ad eylífu. Þesse Marcellus biskup ad Skálholte gefur biskupe Gottskalk ad Hólum bref út, og býdur hannum ad hafa Umbod sinna vegna yfer Skálhollts stigte, og ei skule vera teked vid biskup Mattheum her. Kóng Christiern sender bref annad biskupe Gottskalk um sama efne, hann mege

biskup

biskup Marcellum, ei missa, sem se ser gagnlegur í ríkiunum þar; erkebiskup sender og þridia bref her um. Christiern kónur gefur Torfa Arasyne fríheita bref. Lýser biskup Gottskalk ad Hólum umbodsmadur Skálholtskyrkiu og Visitator yfer allt Island banne og forbode yfer bródur Pále Olafssyne ad Helgafelle fyrer barneigner er hann hafe ífalled epter því sem ábóte *] Páll hafde ádur giort, og tekur aptur þavg vilmæle sem hann segiz ádur hafa ágiort fyrer dauda Biorns bónda Þorleifssonar, og býdur bródur Sveinbyrne sama klavsturs Helgafells conventu bródur ad lesa sitt bref yfer bródur Pále, og senda sér aptur innsiglad af tveimur maunnum til stadfestu þess.

Anno 1451.

Anno 1452 Helge á Ankrum lögmadur fader Ingvelldar átte Christínu Þorsteinsdóttur lögmanns, er fyrre átte Torfe Arason hyrdstióre. Kóng Christiarn giorde þá riddara Torfa og **) Biorn Þorleifsson. [Utvegar Biorn Þorleifsson aflátsbref af Gottskalk biskupe Vatnsfiardar kyrkiu til handa, er þad útgefed í Visitatiu biskups ad Vatnsfyrde sunnudaginn nærstann epter Bartholomæi messu, kallar Gottskalk sig í því Hóla biskup og administratorem h. Skálholtskyrkiu. Sýniz þetta vígslubref Vatnsfiardar-kyrkiu, því þad hliódar vidlíkt ad mestu so sem þavg plaugudu í pávadóminum].

Anno 1453 var Abbadís Þóra á Stad í Reynenese. voru þá fángader XVIII þiófar edur ránsmenn fyrer vestan Stadaroxl í einum heller sem sídan er kalladur þiófaheller haufdu

 þeir

*) Niáll mun rettara.

**) Þorleif Biörnsson.

þeir rænt konum og píkum,' thum og vopnum og audru fe og báru í hellerinn, enn einn smalamadur á Reinestad komz í hellerinn sem þeir svásu, og bar frá þeim aull vopn og sagde til þeirra, tóku sig saman sveitarmenn margt lid og faungudu þá og haufdu þá heim til stadar, og geimdu þá í III nætur medan þíngad var, og sídan voru þeir hengder XVII þar sudur á vellinum, er sídan heiter gálgagardur, enn dysiader fyrer sunnan á í gilinu, heiter þar af dysiagil; enn hinn átiánde feck líf, hann var átián vetra gammall og haufdu þeir hrædt hann til med þeim ad vera ad ránum og þiófnade. [Byrne Þorleifssyne útgefed Kóngsbref ad veita mótstaudu engelskum og skottskum, sem lágu her vid landid. M. J. S.]

[Komu út bref kóngs Cyristians 1ta, Marcelli Skálholts biskups og Henriks erkebiskups í Nidaróse, og gáfu biskupe Gottskalk magt til ad reka í burtu Biorn Þorleifsson af Skálholte og innkresia af haunum allra kyrkna eigna reikníngskapa, frá því biskup Gottsvin dó í Skálholte, enn se Biorn her um mótstandugur, þá dæmer erkebiskup haunum bannfæring. O. E. S.]

Anno 1454 flýdu lærder menn med frædebækur híngad í laund, því Tyrkiar haufdu árinu fyrre innteked Constantinopel, og unned allt keisaraveldid.

Anno 1455 er kóng Hans fæddur son kóngs Christians 1ta. [Steinmódur ábóte í Videy. Calixtus 3ie páve í Róm, 3 ár 3 mánude, og 6 daga. O. E. S.]

Anno 1456 strider Mahomet á Ungariam. [Kóng Carl rýmde af Svíaríke og fór til Danzig, enn 1464 kom hann

hann aptur í Svíaríke og rýmde strax aptur; enn þá kom hañ aptur 1468 og dó í Svíaríke sama ár. O. E. S.]

Anno 1457 andadiz biskup Gottskalk hinn fyrre.

Anno 1458 kiørenn til biskups Sr. Olafur Rogvaldsson frá Breidabólstad, bródurson Gottskalks og siglde, báder voru úr Norege. Er samfundur ad Ase í Hegranese í Skagafyrde fyrer jólafaustu um veturinn med Sr. Jóne Pálssyne Officiali Hólakyrkiu, og biskupe Mattheo er kallar til biskupsstólsins, enn Jón prestur vill ei láta því Sr. Olafur Rogvaldsson var þá kiørenn og sigldur, og lofudu þeir báder ad halda þann giørníng, sem Biørn Þorleifsson (ríke) giørde med þeim, sem þar þá var, og so hliódade, ad h. Hólakyrkia og Hóla biskupsdæme skylde standa med frí og seligheit fyrer biskupe Mattheo og aullum hanns rádum, sem biskup Mattheus þá lofade, þar til reyndiz sídar, hvør vera skylde biskup þar, enn Sr. Jón lofade med dándemanna ráde þar samankominna, ad ef so være ad Olafur Rogvaldsson kæme aptur med biskupslegu valde edur annar biskup nockur til Islands og til Hóla, þá skylde hann strax senda mann med skíru brefe til Biørns, so þá mætte verda samfundur í Skagafyrde, hvør biskupanna sterkara bref hefde, enn ef so kynne vera ad biskupe Olafe edur þeim audrum er koma kynne kæme ei saman á þeim funde, og vilde biskup Mattheus ei yfergefa sín bref, og boda fram edur stefna biskupe Olafe edur þeim audrum af landinu, og vill sá biskup ei fara, enn biskup Mattheus framsigla, þá skylde biskup Olafur sitia ad stadnum á Hólum sem rettum biskupe bære, og visitera biskupsdæmed: enn hefde biskup Olafur ómøgulegra kostnad enn tilbære, þá lofade Eyríkur bónde Loptsson betala þad stadnum med sinum peníngum um nærstu XII

mánude

mánude upp frá þeirre dags þíngan, só framt sem biskup Mattheus kynne til ad koma, og yrde hanns biskupsstóll med rettum løgum. Kynne ogso vera, ad Sr. Olafur fenge ongvann framgang um kyrkiuna, enn biskup Mattheus fenge enn ný bref uppá Hóla biskupsdæme af þeirra helga faudur pávanum, erkebiskupe í Nídaróse, og sambycke herra kóngsins, þá lofade Sr. Jón Pálsson med audrum dándemannnum þar í ad veita biskupe Mattheo ongva mótstaudu, so hann mætte ná sínum biskupsstól fyrer þeim.

[Dó Vatnsfiardar Christín móder Biorns Þorleifssonar, því þá finnaz fiárskipte giord epter hana.]

Anno 1459 útkoma Sr. Olafs Rogvaldssonar til Hóla med biskuplegt vald. Páve Pius II. Silvius 6 ár.

Anno 1460 hellt hustrú Margret Vigfúsdótter hyrdstióra á Modruvaullum brúdkaup III dætra sinna í einu. giftiz Gudrídur Þorvardsdótter Erlende Erlendssyne frá Kolbeinsstaudum, enn Ingebiorg Pále frá Hofe; Ragnhildur Biarna Marteinssyne frá Ketilstaudum, funduz aller hiá Miklagarde lavgardaginn fyrer, var þad mektugt hóf og fiolmenne miked.

Anno 1461 lætur biskup Andreas, hvor sig skrifar biskup í Gaurdum á Grænlande, umbodsmadur í Skálholte, XII prestadóm gánga her á Íslande yfer Jón prest í Hruna Jónsson, hvor sig átte ad setia óloglega fyrer Officialem í Skálholte móte erkebiskupsins skipan og sínu forbode, og her fyrer misser hann stad og embætte, og hanns allt góts í kyrkiunnar vald og biskupsins, þar til hann bætte fullu. Einneg á sama áre veiter

And=

Andreas Gardabiſkup júngherra Þorleife Biornsſyne ſtadinn í Hruna, og gefur haunum alla peníngá þá, ſem þeſſe Sr. Jón átt hafde.

[Anno 1462 geck mikel bóla og vard miked mannfall. O. E. S.]

[Anno 1463 Paulus annar páve 6 ár 10 mánude. Jón Pálsſon ábóte á Helgafelle. O. E. S.]

Anno 1464 Mahomet ſtrider á Albanien og borgina Croiam.

Anno 1465.

Anno 1466 dó ſá loflege herra og hetia Scanderberg er het rettu nafne Gregorius Caſtriótus, hafde ríkt 24 ár, ſem Tyrkium ſtód af ógn og ótte, og margann herlegann ſigur hafde unned.

Anno 1467 *) ſlegenn í hel Biorn ríke af engelſkum í Rife og 7 hanns menn. hafdenn Þorleifur ſonur hans þar til huſtrú Oluf leyſte hann med peníngum. Are ſídar hefnde Þorleifur og Oluf; og voru marger engelſker drepner her fyrer. Af þeſſu hlaut 5 ára ſtríd millum Danmerkur og Englands, fyrer hvoria ſauk kóng Chriſtiern innſende þad bref og rettarbót med Torfa Araſyne í landid, ad Engelſker og Irſker ſkyldu aller fridlaüſer, ſem hingad ſigldu, utann þeir hefdu kóngſins bref.

Einar Þorleifsſon ſat fyrer nordan land ad Kúlu í Svínadal. Þeſſe júngkær Einar ſegia menn vered hafe ádur hyrd-

D ſtiore

*) 1477.

stióre; hann var bróder Biorns, ætlade vestur ad ríða við XIII menn, hann varð úte og hanns menn velflester á Sölvamanna gotu, kom á stórsiúk. Riðu tveir dauder fredner í sodlunum til Staðar í Hrútafiord á Andres-dag, og er so sagt einn hanns sveinn hafe hiálpað haunum til Staðar, hvorium hann gaf LX Hundrada jörð; var hann þá miog kalenn. Flester dóu úr kuldanum sem ecke urdu úte. enn Einar siálfann leyste sundur í lidum. hann átte tvo laun baurn, gaf þeim í loggiof X Hundrud Hundrada sem gamler menn segia sig heyrt hafa epter gaumlum maunnum, og so dó hann af kulda, var fluttur nordur, liggur á Þingeyrum; Eitt epterdæme ad vera ei ofdiarfur við siúk, vedur edur sió. Artal er ecke víst, enn Biorn ríke erfde Einar bródur sinn.

Anno 1468

[Anno 1469 Loptur Ormsson Islendingur gaf kvinnu sinne frú Gunnhilde XX merkur gulls á brúdkaupsdege, og átta gángande kýr fyrer hvoria mork gulls edur þeirra virde. Þetta giordiz á Hálogalande í Norege. O. E. S.]

Anno 1470 sló elding nidur á borgina Mecha, þá stóru kyrkiu sem í ræfrinu *] heck af segulsteina náttúru, sú kiza er bein hinns bölvada Mahomets í voru

Anno 1471 epter Sr. Jón Pálsson afgengenn medtekur Sr. Einar Benedictsson Greniastad. var **) Sveinn hinn víse

biskup

*] Hángde.

**] Sveinn hinn víse var biskup í Skálholte 1467. 69. 71.

biskup í Skálhollte. Sextus páve 4de 13 ár. Fæddiz kóng Fridrik fyrre son Christians fyrsta.

Anno 1472 geck bóla mikel og manna davde. Prestafundur settur í Skálhollte af biskupe Sveine hinum vísa, og þær skynsamlegar greiner er hann þar samankók sambycktar á Alþinges presta stefnu hanns.

Anno 1473 vígde biskup Sveirn hinn spake kyrkiu ad Raudamel*]**). Lætur biskup Olafur döm gánga med XII prestum í Vidvík um teig millum Hóla og Reykiahóls, og dæma þeir Hólum tegiun, og lætur biskup Olafur Rogvalldsson uppá þad mál sveria XVI eida, enn ónýta dæma þá þriggia manna eida og prófaleidslur er Brandur Jónsson logmadur hafde tekid um sagt mál. Þeir dæma Hólakyrkiu LX merkur í fullrette á hvoriu áre ef hálfrar merkur skade være gior á tegnum.

Anno 1474 reiser kóng Christian fyrste til Róms pílagríms ferd. Gavte vard erkebiskup í Nidaróse, er sídar gefur bref út Jóne Sigmundarsyne logmanne.

Anno 1475.

Anno 1476 strider Mahomet á Tartariam.

Anno 1477.

Anno 1478 Brandur logmadur nordan og vestan á Íslande. Magnus Eyolfsson biskup í Skálholte III. þess nafns.

Anno 1479 var Kaupenhafnar Universitet fyrst stiftad af kóng Christian fyrsta og páva Sixto 4da. [Því hainum mis-



*] Í Vestur-reid.

**] Her innsetur O. E. S. um dauda Einars Þorleifssonar júnkæra.

misþóknadiz vid kóng Christian, þá hann kom á hans fund því hvorke kóngurinn ne hanns herramenn kunnu latínu, og skickade því ad latínu skóle skylde stiftaz í Danmerkur ríke. O. E. S.]

Anno 1480 Henrik Kajel hyrdstióre. Brandur Jónsson logmadur fyrer nordan og vestan. Oddur Asmundsson fyrer sunnan og austan.

Anno 1481 þann 22 Maji deyde kóng Christian fyrste og var Hans kóngur epter hann sonur hanns. Þad ár fæddur Christian annar, er sídar vard kóngur, sá hardráde kalladur. var Magnus bónde Jónsson slegen til dauds á Krosse í Landeyum, heimile sínu, sem átte Ragneidur Eyriksdótter Loptssonar hinns ríka. Komu heim þángad á nóttu Þorvardur Eyríksson bróder hennar, og Narfe Teitsson med thad lid, tóku Magnús í sængiñe og slitu hann frá konu sinne og drápu, enn hún feck ákomur nockrar. Narfe Teitsson lýste víge á sig, enn Þorvardur hefde skipad ad veita adgongu, og fullkomna til ad hoggva, hann skylde med peníngum borga. Sídan tóku þeir bref og thye frá Krosse og geck dómur á mál þesse yfer þá af Erlende Erlendssyne, er Rángár Þíng þá hafde, og voru þeir dæmder óbótamenn, Þorvardur og Narfe, og hálft fe þeirra under Kóng enn hálft under erfíngia, og anngra þeirra fylgiara sem sig gæte ei med logum affsakad, ad þeir mættu halda lífe og limum.

Ragneide er dæmdur tvofaldur rettur á aullum atvikum, á hvorre ákomu tvofalt, einneg X merkur í tvofaldt fullrette. Item í sínu gilde tvofaldt á gripe brefanna og thanna. Hustrú

rú Oluf Loptsdótter fauðursyster Þorvarðar var við dóm þenn, ann, og voru henne dæmder til aðtekta, medferðar og umsión, ar hálfer peníngar Þorvarðar, þar til Ehríkur Loptsson fader hanns kæme til, hvor þá var af lande sigldur. Henrik*] Kerker hyrðstióre var og við þennann dóm og Jón bónde Olafsson sýslumaðdur í Arneß Þínge, fyrer þetta mál gengu Skóga eigner avstur under kóngenn.

Anno 1482 Kóng Christian 1te grafenn; sonur hanns Hans sem kóngdóm tók, hafde ríkia og gótsa umsión síns bróðurs Fridriks sem þá var á úngdóms árum, því hann var XVI vetrum ýngre enn kóng Hans var, og þá skipt með þeim bræðrum hertugadóminum til Slesvík, Stormaren, Holsten. Fridrich þesse varð kóngur epter Christian annann son kóngs Hans sinn bróður son.

Anno 1483 fæddur sá loflege Doctor M. Lutherus þann 10da Decembris.

Anno 1484 deýde hustrú Oluf Loptsdótter úr sótt, þá kom það mikla veður, sem kallað er Olufarbilur, hrundu kyrkiur og aunnur hús víða, þá brotnuðu 50 skip við England, Hún var grafenn í kór að Skarde á Skarðstraund. [J Olufsarbil hrundu maurg hús og kyrkiur hér í lande og Norege, Kom mikel drepsótt í Danmaurk og Þýskalande, so að þriðie partur af maunnum deýde. O. E. S.]

Anno 1485 haufðu krákur og krummar og aðrer fuglar ógnarlegann rifrildesgáng í loftinu, epter það kom mikeð stríd mille engelskra og franskra.**)



*) Reschen. **] Spanskra.

Anno 1486 dó Hustrú Margret á Medruvaullum 80 ára gammul, og liggur hún hiá Þorvarde bónda sinum í kór þar.

*] Anno 1487 slegenn til davds Biarne Þórarensson vestur á Læk á Bardastraund af maunnum Einars Biornssonar júngkæra, sem sat ad Kúlu nordanlands, og er sagt hanns lavnsonur, sem úngur var þá Einar dó, hafe vered foringe þessa flocks.

Anno 1488 hefur kóng Hans, Danmerkur og Noregs kóngur giort Eggert Eggertsson logmann í Víkinne í Norege ad riddara og gefed haunum út fríheita bref, med soddan atqvæde, ad hann gefur haunum og hanns afkvæme og rettum erfíngium fríheit og frelse, sem adrer riddarar og sveinar hafa í Noregs ríke til æfenlegrar tídar med skiold og hiálm og þar úti merktur og máladur hálfur hvítur einhyrníngur í bláum fellde, annar hálfur ofan í skioldenn sem málad er í brefinu. Sonur þessa Eggerts var Hannes haufudsmadur Íslands nockur ár. Hanns son Eggert Hannesson hyrdstióre og logmadur sídan nockur ár. Hann silgde med fyrrnest fríheita bref fyrer kóng Christian þridia þess nafns og útvegade hanns stadfestíngar bref þar uppá. Datum þess brefs 1551. fyrerbýdur kóngurinn nefndann Eggert Hennesson edur hanns egta baurn og afqvæme ad hindra her á móte, útgefed í Flensborg fimtudaginn næstann epter Qvasimodo geniti sunnudag 1551. enn hid fyrra bref Eggerts Eggertssonar útgefid í Nýborg feria qvinta proxima ante festum beati Laurentii Martyris, anno ut supra 1488. Fri-

*) Her stód vid in margine exscripti; eg meina rettara Anno 1482, sem sýnt verdur med audrum giorníngum.

Fríheita bref Biorns Þorleifssonar rkka er daterad 1457 af kóng Christian 1ta, útgefid hvítt biarndýr í bláum felde, í haunum skialdarmerke.

*) Hannes Eggertsson Eggertssonar logmanns í Víkinne í Norege var hyrdstiore hér á lande um hríd, og giftiz, Gudrúnu Biornsdóttur, dóttur Biorns Gudnasonar sýslumanns yfer Isafiardar sýslu, hún var eckia, átte ádur Biarna Andresson; Solveig het dótter þeirra; enn vid Hannese átte hún Eggert og Biorn, dótter Eggerts Ragneidur sem átte Magnús Jónsson nordlenskur ad ætt, sat fyrst ad Ögre, enn er Eggert silgde, sat hann ad Bæ á Raudasande; af haunum er mikel ætt á vestfiaurdum og vídar útdreifd um landid; enn af Byrne Hannessyne Hannes gamle í Snóksdal, hanns kvinna Gudrún Olafsdótter. Biorn átte Þórunne Dadadóttur Gudmundssonar, er sat ad Snóksdal og Saudafelle; dætur Hannesar og Gudrúnar voru Gudrún, Margret og Katrín; Katrín átte herra Gissur Einarsson fyrstann Evangeliskann biskup í Skálholte epter biskup Ögmund. Gudrúnu átte hanns bródur Þorlákur Einarsson, sat ad Núpe í Dýrafyrde á Vestfiordum; hanns son Gissur sem átte Ragneide Pálsdóttur Jónssonar frá Reykhólum, þeirra syner Jón og Magnús Gissurarsyner, sonur Jóns Sr. Torfe nú kyrkiuprestur í Skálholte. Epter Gissur andadann átte Ragneidur Sr. Svein Simonarson, og vid haunum Sr. Gissur og Magister Brinjólf Sveinsson nú biskup í Skálholte.

Margretu átte annar bróder Hr. Gissurar Haldór Einarsson, þeirra son Sr. Biarne er heldt Selárdal vestan fram í

Arn-

*) [Vidbætt af Jóne Gissurarsyne á Núpe í Dýrafyrde ad þessu merke.]

Arnarfyrde; hann var gofugur kennemadur. [Andadiz Jón Gamlason á Þíngeyrum, enn kiorenn til ábóta aptur þar bróder Asgrímur Jónsson. Var kóng Jacob í Skotlande slegenn í hel af sínum undersátum. O. E. S.]

Anno 1489 var Magnús Eiólfsson hiñ þridie þeß nafns biskup í Skálhollte; helldur þar presteslefun, hann var ádur ábóte á Helgafelle. Lætur kong Hans hylla son sinn Christian annann í Danmaurk, og í Norege samþycktur, var hann þá 7 ára gamall. So er mælt, ad þá Brandur Jónsson logmadur bió ad Hofe á Hofdastraund, ad nágranne hanns nockur var riktadur mieg um íllmæle eitt, og var þar í grend sá madur er rikted hafde af kviknad; Þesse madur er fyrer vard, hafde nockrum sinnum funded Brand logmann herum; hann var halldenn heilrádur madur og mieg vitur í logmále, enn logmadur hafde frá ser viked um þeirra mál ad giora, hafde og ei sýslu umdæme í Skagafyrde um þann tíma. Manne þeim þókte miked ad hann fenge eingenn rád edur tilhlutan af logmanninum; og fór eitt kvold til Hofs í húme og beid vid kyrkiu þar, því hann visse ad Brandur munde til kyrkiu gánga ad giora bæn sína sem hann átte vana til, og þá munde hann í þeim þaunkum ad leggia ser heil ráð. Brandur geck til kyrkiu, enn madur þesse var beint á hanns leid so ad hann náde ei greidlega kyrkiunne epter því sem hann vilde, og spurde madurinn hvad hann skylde tilgiora vid þann mann er slíku vondu rikte hefde um sig uppkomed, var þá Brande logmanne óþægd ad tálman kyrkiugaungunnar, og hafde ei annad hugfest ad ræda enn lesa bæner sínar, enn mælte þó: hvad viltu giora? skerdu úr haunum túnguna. Þegar hann hafde

þetta

þetta mælt, geck madurinn í burt, enn Brandur til kyrkin. Madurinn heldt slíkt heillarád vera, feck ser adstod, fór til óvinar síns, tók hann og skar burt hanns túngu.

Þetta þókte Brande logmanne fádæme miked, ad so hefde tiltekiz, og var so rided til Alþínges, og þar málid framhaft, vildu marger giora Brand logmann síknsaka fyrer þetta, enn Brandur vilde þad ei og sagde af ser med aullu logmannsdæmid, þar so hefde tilfalled, enn aller hofdíngiar vildu þó Brandur være samt, ei fekz þad af hannum; spurdu þá fyrermenn landsins hvorn Brandur vilde í sinn stad kiósa? þá mælte Brandur: Finnboga bródur minn veit eg logvitrastann í mínu umdæme, enn þer skulud ábyrgiaz hvad rettdæmur se. Hofdíngiar kvádu þad ad skaupudu skeika mundu, og var Finnboge kiorenn og kosenn; enn Brandur logmadur heldt svare fyrer manninn sem í málid ratade, so hann kom bótum fyrer sig, og styrkte hann allvel bæde til máls og sebóta.

Anno 1490 Didrik Piníng hyrdstióre á Islande og Þorleifur Biornsson, Eyólfur Einarsson logmadur fyrer sunnan og austan, Fimboge Jónsson frá Ase í Kelduhverfe logmadur fyrer nordan og vestan: gaf Innocentius páve 8de prestum í Norege leife ad messa án víns med miod og annann dryck.

Anno 1491 fundur í Spialdhaga, varde Páll Brandsson frá Modruvaullum Hvassafells mál Biarna Olafssonar, enn hyrdstiórinn Ambrosius Illiqvod sókte á, enn náde ei í þann tíma fyrer Pále bónda hafde hann 110 menn tiada, þókte maurgum epter háfu rikte og líkendum miklum þege gott mál ad

E veria;

veria; hafde dótter Biarna sez ber í sænginne hiá haunum, med fleirum audrum *] atviksháttum ófaugrum frá úngdóms árum þeirrar hanns dóttur.

**) Anno 1492 vegenn Asgrímur Sigmundarson í kyrkiugardinum á Vídedalstúngu af Smid Jónssyne í brúdkavpe Jóns Sigmundarsonar brodur síns. Alexander páve 6te 10 ár. [Var Vestindien fundenn af Christophoro Colmnbo, sem var útsendur af Ferdinando kónge af Spanien. Sídan var þad aptur uppsiglt Anno 1496 af Vesputio Americo. O. E. S.]

Anno 1493 andadiz Einar júngkære Biornsson utanlands, nær so giftur borgmeistara dóttur. Abóte Haldór Ormsson á Helgafelle.

***) Anno 1494 útkom biskup Stephan til Skálholts, hann var mikell lítelætis madur, hann sette priors clavstur í Skridu.

Anno 1495 sótt og plága mikel á Íslande nema um Vestfyrde, frá Holte í Savrbæ; eyddust vída hreppar.

Anno 1496 andadiz Asgrímur ábóte og aller kennemenn fyrer nordan nema alls 20 med biskupinum, vard hvor eirn prestur ad hafa 7 kyrkiur, sú plága er saugd og mælt ad hafe komed úr klæde í Hvalfyrde. Kom þá fátækt alþýdu fólk af vest-

*] Líkendum.

**) Noterad in margine: Anno 1483 var Asgrímur Sigmundsson vegenn, epter skrife Hr. Gudbrands, 9 árum fyrr enn her seger; het sá Smidur Jónsson er haun vog út af kyrkiugardinum í Vídedalstúnga, þá Asgrímur átte í hogge vid þá brædur Herman, Gisla og Olaf Philippussonu í brúdkavpe Jóns Sigmundssonar og hanns fyrre konu.

***] In margine stod: Stephan biskup vard biskup í Skálholte, og kom út híngad med biskups embættid Anno 1491. og þad er víst.

vestfiordum gifter menn med konur og baurn, því fólkid vise þar avdn bæa fyrer nordan land, voldu þeir um jarder ser til ábýles, og er so frá þeim komed márgt manna nordanlands; eru þeir nú fiórda og fimta manne frá þeim ofan ad telia er nú lifa ár 1639.

Anno 1497 andadiz biskup Olafur um vorid epter krossmessu, var þá kiorenn heim á Hólum og í logrettu um sumarid Gottskalk Niculásson til biskups, bródurson hins davda. Fanníz sá fiórde heimspartur, um hvorn heilog ritníng ecke getur, sem nefniz America, og hefur sú heimsálfa nafn af þeim er fann, sem het Americus Vesputius. Plato vottar þesse heimspartur hafe í fyrndinne, ádur fordum kallaz edur kalladur verid Atlantia. Philippus Melanchton fæddur til Brettav í Pfälzeit. A því áre vann kóng Hans og inntók Svíaríke og krýndur í Stockhólm til kóngs þar. O. E. S.]

Anno 1498 veginn Páll bónde Jónsson á Ondverdarehre af *] Ehríke Haldórssyne og hanns fylginrum, um þad mannsläg og fylgdarmenn Ehríks dæmer Finnboge logmadur á Alþínge sama sumar.

Anno 1499 Benedict**) Hesten hyrdstióre. Þorvardur Erlendsson logmadur fyrer sunnan og avstan. Christian sá annar hylltur í Svíaríke þá 17 ára; lætur þetta giora fader hans kóng Hans.

Anno 1500 útkoma Gottskalks Niculássonar med biskupsvald, og kom heim til Hóla Jónsmessu Baptistæ fyrer messu;



*) Halldóre Ehrekssyne.

**] Horsten edur Hersten.

messu; þad ár fell mikell grúe af fátæku fólke á Islande.

Anno 1501 veiter hyrdstiórinn Byrne Gudnasyne út bref fyrer Isafiardar sýsslu mille *] Geyrhólms og Langaneß uppá Pergment í Hafnarfyrde, mánudaginn fyrer Þorláksmessu, skylde Biorn eignaz aull VI marka-mál og þar fyrer innan. Ebey von Anefeld hyrdstióre.

Anno 1502 vígdur Sr. Jón Þorvaldsson til ábóta á Þíngeyrum, heldt ádur Hoskuldsstade. Lutherus halden Meistare í skriftinne. **] Prinz Christiern sendur til Noregs med her af faudur sínum kóng Hans ad koma Norskum til hlýdne og hollustu. [Torfe Jónsson í Klofa drap Lienhard fógetann frá Bessastaudum sem hafdiz margt illt ad. Helga Gudnadótter kvinna hanns gaf fyrer kyrkiuleg Torfa Vindás, Hradur, og Akbraytarholt. O. E. S.]

Anno 1503 †] fæddur kóng Christian þridie. Martinus verdur múnkur til Erpharth; Pius páve 3ie.

Anno 1504 voru virdtar fleſtallar Þíngeyra klausturs jarder. Julius annar páve 10 ár.

Anno 1505 vígde biskup Stephan Ogurs kyrkiu í Isafyrde. Slegenn í hel eirn þýskur madur frá Bessastaudum epter-

*) Lánganes er ecke til í Isafiardar Sýsslu því má þesse takmørkun vera tekenn af Geirhólm sydra og Lánganese fyrer nordan, og sýsla líklega meint millum beggia ádur greindra takmarka.

**] Herfór Prinz Christians til Noregs segia sum Exemplaria skeed hafa 1501. †] 1502.

epterliggiande um veturinn Hans Ethen af*] Arna Erlendssyne; hafdiz Arne ecke handa fyrr enn hann hafde ákomur fenged; reiddiz þá og sló hann í hel, urdu því bætur hægar ad Arne átte sig ad veria, enn hinn var ei úr vors kóngs ríke, þó var bætt nockru, því hann var hyrdstiórans madur; um þetta mál dæm- er Þorvardur Erlendsson løgmadur, enn um útlegd Arna til Alþinges fyrer Finnboga løgmanne.

Anno 1506 dæmer Finnboge løgmann á Alþinge fiórdúngs útlegd um eitt ár Arna Erlendssyne er í hel hafde sleged þann þýska mann Hans Ethen.

Anno 1507 deyde Abbadís Agnes á Stad í Reynenese.

Anno 1508 vígd syster Solveig til abbadíssar á áttadag jóla heim á Hólum. Nicolas Þormódsson prior á Modru-



*) Þetta er Arne Eyríksson brædrúngur Teits Þorleifssonar í Glaumbæ, og hanns erfinge, þá Teitur sell í útlegdar mál anno 1527, feck þó eckert af hanns gótse því hann var underþrycktur af danska valdinu, og þorde ei ad gefa sig fram fyrer ríke Jóns biskups og Rafns løgmanns; haunum var ad saunnu dæmt anno 1509 (skrifa sumer), ad borga fyrer mannslagid 15 Hundrud †) og 9 merkur kónge í þegngilde, og fiórdúngs útlegd um eitt ár, samt var hann af hyrdstiórannum útrekenn frá jørd sinne Sudurreykium, og var á hrakninge til þess anno 1523, þá Teitur Þorleifsson frænde hanns vard løgmadur, og jørdin var dæmd haunum aptur. Hann mæddur af lángvarande mótgánge, let heldur Teits arf átaululavsann fara enn siga í soddan málavastre optar.

†] Erfingiunum án efa.

vaullum. Martinus Lutherus kallaz aptur til Vittenberg.

Anno 1509 Vigfús Erlendsson hyrdstióre yfer allt Island, enn Þorvardur bróder hauns er þá logmadur sunnan og avstan á Islande. Gudrídur var móder þeirra Þorvardsdótter og Margretar frá Modrúvaullum. Jón Sigmundarson kemur út híngad med bref Gavta Erkebiskups af Nidaróse og pávalegs sætes legata, er hann sender og heilsar biskup Stephane í Skálhollte, herra Haldóre ábóta á Helgafelle, og herra Narfa ábóta, kunngiorande, ad Jón Sigmundarson hefde klagad og kvartad um fyrer ser sem til forna í Oslo fyrer þeim únga Christiarn, ad herra biskup Gottskalk á Hólum hefde frá haunum teked penínga og miked góts med órette, kúgad og bannfært hann og skiled frá sinne egtakvinnu, bidiande biskup Stephan og fulla magt gefande ad samankalla ábóta, kyrkiunnar prælata, og fleire adra vitrustu menn, og stefna fyrer sig biskupe Gottskalk og Jóne Sigmundarsyne í loglegann stad og tíma, og skilia þá ad med rettum dóme, og láta Jón fá aptur sína hustrú, ef þad findiz meinbugalavst.

Þetta var seinasta ár biskups Gavta; haufdu þá um stunder sem mest geisad og yfergengid mál þeirra Jóns Sigmundarsonar og biskups Gottskalks.

Anno 1510 láta Þorvardur Erlendsson og Finnboge Jónsson logmenn dóm gánga á Alþínge um hnífaskurd þann er marger menn haufdu þá um tíma med skemdir vered, ad þeir sem slíkt giorde være seker sem sá er legde med huíse.

Brúd-

Brúdkaup Þorvards Erlendssonar logmanns á Hólum, hann fekk til egta Christínar dóttur Gottskalks biskups, var þar margt vildarfólk, nær 300 manna. Lætur biskup Stephan gánga dóm um heýtolla. Sama ár verdur Johannes Krabbe erkebiskup í Nidaróse.

Anno 1511 geck bóla mikel, það ár lagde Grímur bónde af Modruvelle, enn logmadur Þorvardur tók vid og bió þar.

Anno 1512 hellt ábóte Narfe Helgafell, gódur Klerkur. Sveirn Kleifsson hyrdstióre. Ferdaz Mart. Lutherus til Róm, kemur aptur haldinn Doctor h. skriftar og er hann þá þrítugur ad aldre.

Anno 1513 *] deyde kong Hans, hann stiórnade Danmaurk og Norege 32 ár, þá var printz Christiern sonur hans 30 ára gamall, enn hertoge Fridrik af Holsten bróder kóngs Hans 34 ára; Sama ár var kóng Christian hylltur í Holsten og Slesvík. Leo páve 10de úr Polen. [Dó Þorvardur logmadur í Norege. O. E.]

Anno 1514 kóng Christiern annar tekur stiórn í Danmaurk og Norege. stiórnade 9 ár epter faudur sinn Hans, vard sídan fangadur og í vardhalld settur fyrer ofmikenn yfergang og ólog, og miste so sín ríke. Jón Sigmundarson er þá logmadur fyrer nordan og vestan.

Anno 1515 Sofren Nordby hyrstióre á Islande, Vigfús Erlendsson vard logmadur; Grímur bónde tók aptur vid Modruvoll-

*) Kom út Hans Rantzau med Hyrdstiórn.

ruvollum. Christiern kónge þeim audrum gefur hver bónde á Islande, epter því sem beidiz, XX fiska einusinne, skylde þesse tollur lúkaz medan þesse vor kóngur lifde; þann toll kaulludu menn gingiald. Þad ár sende kóng Christiern annar til kóngs Henriks VIIIda í Englande, klagande ad þad samband være eige haldid sem var á millum hanns herra faudurs, sem og fleire Danmerkur kónga vid England giort. 1ta klaugun var ad kóngsins undersátar af Englande í nockur ár á Islande hefde giort undersátunum þar stórann skada, og rænt þar frá þeim, navtum, savdum, laumbum, og bygt á Islande eina festíng, uppá þad þeir vildu festa þar fót í lande, og koma under sig landinu, so ad bændur á Islande vildu ei fyrer þann skuld gefa til kóngsins í Danmaurk, þeirra toll og rettugheit. 2do ad nockrer af Engelskum Jorn Beer, Richert Thomason af Lundun, Thomas af Nordvík, Mester Chasins, Jorgen King og þeirra medfylgiarar skyldu hafa í hel sleged kóngsins skrifara á Islande, Svein Þorleifsson og adra XI menn. 3o. Sommuleides þeir engelsku sem hondlun hafe á landinu, hafe teked eitt kóngsins skip þar í haufn med þad góts og landskylder þar var innlagt. 4to item þeir Islendsku klaugudu árlega þad ófurvald og skada sem þeir engelsku giordu her á lande, gæfe þeim stundum nockud fyrer sitt, stundum eckert. Her vilde kóng Christiarn hafa ákvedid giald, og so fyrer skipid sitt verd. 5to framveges vill kóng Christiarn ad þeir engesku sem her sigla under Island, mætte taka og fá bevísingar hvadan þeir være. Item ad engelsker siglde ei fyrr af Islande, enn árlega borge og betale kóngsins lensmanne her þeirra toll og rettugheit, og fá þar bevísing á. [Sofren Nordby hyrdstióre fann fyrst ad sigla upp Seiluna og hafa þar Haufn. O. E. S.]

Anno

Anno 1516 brúdkaup Jóns Einarssonar á Hólum, hann giftiz Christínu dóttur biskups Gottskalks, er fyrr átte Þorvaldur Erlendsson logmadur, vígdur under eins til ábóta á Þíngeyrum Helge Sigurdsson. *) Ogmundur er ábóte í Videy er sídar vard biskup.

Anno 1517 andadiz ábóte Einar á Þverá, Þann 31ta Octobris hóf sá sæle Guds madur D. Mart. Lutherus í Wittenberg ad predika þad hreina og klára Guds ord mót pávadómsins villu. Hans Eggertsson var umbodsmadur á Islande. Biskup Stephan rídur á vestfiordu í Ognr til Biorns Gudnasonar med III Hundrud manna. Biorn frette til ferda hans, safnade lide, og vard fiolmennare. Biskup tialdade fyrer innan Ogurs-á, enn reid heim vid XIIta mann. Biorn geck út med XII menn til fundar vid biskup, er þá var gengenn til kyrkiu. Biorn bónde og hanns menn voru hardneskiader under stauckum sínum; enn er biskup og Biorn haufdu heilsaz í kyrkiunne, tók biskup á herdum Biorns og mælte; og so eru þer **] hárdstackader Biorn bónde. Biorn svarade: hvor á med þad, hvonneg eg klæde mig og menn mína? þer, herra, erud mer velkomner med so marga sveina sem ydur heyrer ad hafa med ydur epter kyrkiulogum rettum, gengu menn þá brátt millum þeirra og samdu med þeim, so þeir urdu góder viner; enn ecke taladiz út um Vatnsfiord í þad sinn, því epter Biorn and-



*] Helge Sigurdarson (vígdur) til ábóta á Þíngeyrum, því Eyríkur ábóte var þá davdur, sosem herra Gudbrandur bevísar med Annál Sr. Gottskalks í Glaumbæ, í hanns Apologia móte mordsbrefunum uppá módurfaudur sinn Jón Sigmundarson.

**) Hardneskiader.

andadann sigldi sonur hanns Torfe 18 edur 19 vetra uppá Vatnsfiardar klaugun, náde kóngsbrefe ad þad skylde koma til rettra laga, hann andadiz litlu sídar og vard ecke úttalad um Vatnsfiord fyrrenn Hannes tapade því mále vid biskup Ogmund; hann átte Gudrúnu dóttur Biorns, segia sumer þad hafe giort magt biskups Ogmundar. Hefiaz þrætur um aflátsbrefin epter spádóme Johann Húß. Leo páve 10de. Legate a latere Angelus Arcemboldus kom til Danmerkur og selde aflát. Johann Thessalius selur aflátsbref í Þýskalande. Lútherus setur upp 95 greiner móte hannum. Biorn Gudnason var sýsslumadur yfer Isafiardar sýsslu. Stríd millum kóng Christians annars og svenskra, fyrer þad þeir fellu frá hannum. So bar til á Laundum í Stodvarfyrde í Avstfiordum á Islande, þar bió sá madur er Steingrímur het, hanns kona het Anna; hún tók barnssótt um *] Michaelsmessu, og sídann lá hún med þeirre sótt fram á faustu, enn þá gróf hol á hennar kvid fyrer ofann Naflann og kom þar út handleggsbein barnsins holdlavst, og skamt þar epter gróf þar nærre annad gat, og kom þar út havs-skeliar beined, og urdu þar úttekin aull líkamleg bein barnsins, enn sídan grere konan innann lítels tíma.

Anno 1518 **] þá kom biarn-dýr eitt miked ravdkynnúngur á land á Skaga í Skagafyrde vid Asbúdartánga og sá

*) Niculasmessu.

**] Dó ábóte Eyrkur á Þíngeyrum vígdiz ábóte Fimboge til Þverár gódur klerkur.

sá hvørge til kß af slettlende, enn þó af há-fiaullum, þad dýr var solted miog mannskædt og grimt, þad deydde 7 edur 8 Manneskiur, sem voru fátækar konur med baurnum, er um fóru og ei vissu dýrsins von. Dýr þetta bravt nidur alla hialla á Skaga utann ad Kiotu, því þad fann í súmum matfavng handa ser, þetta var um sumar-mál. Ketill Ingemundarson bió þá í Kiotu þar á Skaganum, hann var aflamadur mikell, og voru í þann tíma aflafaung gód á þeim Skagatánga, tók þesse Ketill 80, stundum 90 hákalla á einu vore á sitt skip, er hann lá úte, enn let annad skip sitt í land flytia, og giora til aflann, og flytia fram til sín kost og dryck, voldux menn til hanns únger og hravster til aflatektar.

Ber þá so vid einn morgun árdegis; Ketill geck til sióar og inn í hiall einn mikinn, er þar stód med hákall, og vilde sækia morgun-verd hiúum sínum, sá hann þá dýrid koma ad utan, greip Ketill þá eitt miked hákalls bærl, og snarade vel lángt út á svig vid dýrid og dyrnar. Biorninn greip vid og bar á bak vid hiallinn, tók til snædíngs, epter þad snaradiz Ketill út med skynde heim til bæarinns; Ketill sende þá tvo menn med skynde annann út á Skaga, enn annann inn, ad menn skyldu strax samankoma, og só komu menn saman ad stundu og urdu 14 menn þeir er vopn haufdu, því í þann tíma áttu flestaller vopn og veriur her á lande, gengu þeir þá fram ad sió og var bangse búenn med bærlid; ætlndu þeir þá strax ad ráda á dýrid, enn þad veik ser undan og inn med sió, þeir gengu epter og inn yfer biaurgin, og sem nockud lækkade biaurgin, vafde bangse sig saman í hríng eda hnipur og velte ser þar



ofan

ofan í fiøru, sídan á sund, og fram í þad sker er þar liggur, og menn nefna Þussasker. Ketill skipte þá mannnum, og let 7 epter, og skyldu þeir mæta byrninum, hvar á land kæme á Inn-skaga, enn hann med VI mannnum geck heim í Kiotu, hrundu fram VI æringe og reru inn til skersins. Biornin hlióp þá á sió og lagde fram á fiordin, reru þeir þá epter kappsamlega, mæddu þeir um sider dýrid og lagde þad þá í króka, og vard þad þá miúkara í vikum enn báturinn, og geck so lenge dags ad þeir komu ecke vopnalaugum vid, so biorninn sakade, enn um sider þrengde ad dýrinu, hýdde þad þá hramminum uppá bordid, og ætlade ad hvelfa skipinu, og drack þá skipid í sig sió, enn Ketill greip þá oxe og hió á fram-hramminn vid bordid so ad aftók, lagde þá dýrid frá lande og dagrade sundid, so þeir laugdu þad sídan og drápu, dróu þad uppá skipid og heldu sídan ad lande.

Ketill þesse fór sídan í elle sinne til Ingvoldarstada á Reýkiastraund, til dóttur sinnar Gudrúnar, sem átte Jón Jónsson er þar bió lenge og andadiz Ketill þar LXL ára ad aldre anno 1580, og var Biorn dóttursonur Ketils þá VI vetra.

Anno 1519 kom stórsiúk í áttundu viku sumars, fennte þá penínga og dóu. Vigfús Erlendsson var þá logmadur yfer allt Island. Dó Maximilianus keisare, Carolus qvintus útvalenn til keisara, hann var bródir Elizabetar drottníngar, sem kóng Christian sá annar í Danmaurk átte, og þar var í fángelse. A þessu áre slóuz fyrst í útlaundum Joachims daler, ádur voru Rínsk gyllene, Nobilgull og adrar mynter. Gustavus Ehriksson verdur kóngur í Svíaríke á móte sinne lofan; hann

hann var fángenn í Danmaurk, enn komst burt leinelega.

Anno 1520 *] dó biskup Stephan í Skálholte, kiorenn Ogmundur til biskups ábóte úr Videy, dó biskup Gottskalk á Hólum á sama áre. Biskupslaust á Íslande; var þann vetur mikell feller á peníngum. Erlendur Þorvardsson logmadur fyrer sunnan.

Kóng Christian annar lætur iñkoma í Danmaurk Lúthersskann prest M. Martein; hann predikade í Kaupenhávn. Lútherus skrifar Leo páva til sína affsaukun; þeir þar í Róm fordæma hanns skrif. Leo páve skrifar til kiorfúrstanum af Saxen og klagar Lútherum fyrer villumann og setur hann í bann; pávinn lætur brenna Lutheri skrif. Lutherus brenner og til Vittenberg pávans logbækur. Christian annar kóngur í Danmaurk vinnur Svíaríke. Hertoge Fridrik styrker til strídsins sinn bródurson kóng Christian annann. Kóng Christian kemur í Svíaríke og lætur hann þá giora þar færlegt mord, hvar fyrer Svensker epter rádum Gústavi fellu frá hanum.

Anno 1521 var kóng Christian sá annar med því nafne útrekenn af sínu ríke Danmaurk; var í stadnum Vorms í Þýskalande haldenn nafnfrægur herradagur, á hvorium Lútherus medkende openberlega sína trú og lærdóm fyrer keisaranum Carolo

 fimta

*] Dauda biskups Stephans setur Sr. Tjölfur 1518 enn utkomu Augmundsar 1522 eins og her seger sidar.

simta. Sigler Ögmundur biskupsefne. Nordlendíngar eru í umrádum ad kiósa til biskups Jón prest Arason, er þá helldt Hrafnagil í Eyafyrde, og biskup Gottskalk hafde vígt, og þá var prófastur í Eyafyrde. Hann var hofdínge mikell, vel gedþeckur maunnum, málfæresgódur madur og miked skáldmenne; ei siglde Jón prestur á því áre. Hann var ecke á látínu lærdur. Mart. Lútherus fordaz pávans legata, og vilde ecke á pávans fund. Adrianus páve VIte I. ár VIII. mánude og III. daga.

Anno 1522 útkoma Ögmundar med biskupsvalld, hann stód miog í móte Nordlendíngum um þad ad kiósa Jón prest Arason til biskups, helldur vilde kosen være Sr. Jón Einarsson þar sunnan ad og stód so þad ár. Tók af tvo bæe fyrer avstann undan snió-flódinu. A þessu áre siglde kóng Christian annar til Englands og bad kóng Henrik um styrk hinn ättunda; og bavd haunum Jsland til panta, enn kóng Henrich vilde ei, haunum være óvíst því ad hallda. Stríd millum Danskra og Svenskra. Lybsker brendu Helsíngiaeyre og eydelaugdu hana. Vikin í Norege var inntekenn af Svenskum.

Anno 1523 Sveinstada reid, og slaged á fundinum millum Sveinstada og Steinneß; kom af ósamþycke er var med þeim Sr. Jóne Arasyne, er þá sat á Hólum, og Teite bónda hinum ríka Þorleifssyne frá Glaumbæ; þeir deildu um arfa-fe, er til var falled í Vatnsnese, og skylde þad mál til greina koma á Sveinstaudum í Vatnsdal. Ridu þeir med stór-flock vestur báder Jón prestur Arason og Teitur, og hafde Jón biskups efne í samreid vid sig Grím Jónsson frá Aukrum, er þá var

løgmadur fyrer nordan og vestan á Íslande, og skylde hann segia løg yfer málinu. Reid Teitur med sinn flock undan, enn biskupsefne sídar. Teitur kom á Þíngstad heim til Sveinsstada enn biskupsefne bad Grím løgmann setia þíng þar nordur mille Steinneß og stigu þeir þar af bake. Þegar Teitur sá þad þeir mundu ei ætla heim á þann gamla Þíngstad fylltest hann reide; gripu þeir þá sína hesta og ridu ofan þar Síra Jón Arason var og Grímur løgmadur var þá Þínged sett, skipade Teitur þá sínum mannum ad slá og høggva; hann skyllde borga og betala, hvad þeir og giordu, enn hiner voru lítt vidbúner og urdu forvida, hrucku undann, fell þá einn madur davdur er het Arne Berjason. X menn adrer feingu áverka, af grióte og vopnum. Grímur løgmadur villde stilla og var hann sleigenn. Greip hann þá stálboga er hann hafde og let ør á streing og skaut í handleggenn á Teite, og med þad vard hle á slagenu; kom og ábóte Helge heiman frá Þíngeyrum med marga menn og geck á mille, og skildu þeir sídan.

Kiorn enn nordlendíngar Jón prest Arason til biskups er hofdu ádur ráded hann þar til, enn biskup Øgmundur let þá Jón Einarsson sigla um sumared, enn skip lá þann vetur í Kolbeinsárose og voru XX menn af því heima á Hólum um veturenn þad siglde út um vored ad páskum og þar á Síra Jón Arason biskupsefne, fell þann vetur mikell grúe fátækra manna. Edalmenn í Jótlande uppsegia Christian þeim odrum þeirra hollustu, útvelia hertog Friderich til kóngs af Holstein. Hertoge Friderich sender kóng Christian fædabref og þar inne óvinskap opennberann. Lybsker og einnig segia vinskap og samband af vid kóng Christian; binda samtok vid Frid-

erich. Christian annar dró samann skip; dró frá Kaupenhavn med XX skipum og siglde til Hollands hafde láted á þau fe, þad hann kunne medkomaz. Kaupenhafn umleggz af hertoga Friderich. Bardage millum Skáneyinga, og Málmehar borgara. Gústavus útvalenn til kóngs í Svíaríke. Kemur Clemens páve VIIde 10 ár.

Anno 1524 *) Thyl. hyrdstióre höggvenn á Bessastødum af donskum. Jón biskupsefne mætte mótfalle biskups Augmundar utanlands og var Jón prestur Einarsson þar og þótte betur lærdur. Jón prestur Einarsson andadez þar, enn Jón prestur Arason var vígdur til biskups, er svo mællt ad Olafur Hialltason, sem biskup vard epter hann hafe med honum vered og svarad til spurnínga erkebiskups því hann hafe vered í skóla um VI. ár í Biorgvin í Norege. So er enn talad þá biskup Jón var vígdur og hann geck frá erkebiskupenum ad af hanns höfde hefde falled mítred edur vígslu höfudklæded, hvert hanns Sveinar hafe med skynde griped og mællt; þad fór ílla misst herra ad svo tókst til! enn hann sagde svo munde med skynde falla og nidurdetta biskups tign sín, enn þeir óskudu ad þad skyllde ei verda. Ecke kom biskup Jón út híngad þad ár.

Krýndur kóng Friderich í Kaupenhafn. Þad ár funndust kóngarner Friderich og Gustavus í Málmey og somdu frid med

*) Líflát þessa hyrdstióra eigna nockrer Hannese Eggertssyne norskum manne er her var hyrdstióre næstur fyrer hann, og því hefur sá kvittur vel mátt uppkoma ad Thyle hafe apturgenged og dreped Hannes.

med ser hofdu: þeir þá gefed upp Kaupenhafn og Malmey fyrer kóng Friderich, hafde hanns her þá þar um leiged 8 mánude.

Anno 1525 útkoma biskups Jóns Arasonar til Hóla. Það ár dó ábóte Fiñboge á Múnkaþverá. Kóng Friderich tilsette ad Evangelium predikez um furstadæmenn. Lútherus gifter sig Chatrínu einne Nunnu af adal.

Anno 1526 mikell flockur manna til Þíngs rídande med biskupunum Jóne og Ögmunde, biskup Ögmundur med 1300 mañs enn biskup Jón med 1100. sættuz þeir þá. vígdur Sr. Petur til ábóta á Múnkaþverá.

[Mikel þíngreid af bádum biskupum Ögmunde og Jóne Arasyne hofdu þeir miked fiolmenne, því stór óvilld var med þeim, en hofdíngiar geingu í mille og sættu þá med því móte ad sinn mann skyllde hver þeirra tilvelia af sínu lide ad beriaz í Öxarárhólma. Biskup Ögmundur feck Eistein Brandsson sterka austan af lande, þann sem einn varde dyrnar í Hraune í Ölvese so Torfe í Klofa og hanns menn unnu ei á fyrr enn þeir rifu húsed, þá hann let drepa Lienhard og var Eisteinn þá XVIII vetra. Biskup Jón feck til Atla nockurn; þeir borduz leinge svo hverge vann á þar til Eisteinn tók það rád ad hann barde handskana af hondum himm og hió sig under hann og fellde til jardar, því Eisteinn var ramur af afle og endade med því. O. E. S.]

Anno 1527 Johan Petursson hyrdstióre. Erlendur Þorvardsson logmadur fyrer sunnan og austan. Rafn Brandsson

 fyrer

fyrer nordan og vestan. Hann var þá giftur Þórunne Jóns-dóttur, dóttur biskups Jóns.

J þesse fiogur fyrerfarande ár vardest Teítur hinn ríke, so ei geck mál á hann um Sveinsstada reid, hafde hann feinged logrettumanna dóm þann ad hann skyllde eingu sekur um þau málefne nema þad syndest med skilríke ad hann hefde þar giort nockur lagabrot med ord edur verk. Tók nú vid málasókn Rafn logmadur er sýsslu hafde í Skagafyrde og rídur hann vid marga menn til Glavmbæar og let stefna þar og stefner Teite til Seilu; sídan setur Rafn þar þíng og kemur Teitur ecke, er þá dómur nefndur og þad svared Teitur hafe heima vered og stefnan lesen þar loglega, er þá Teitur dæmdur rettelega fyrer-kalladur, kemur þá fram 12 skilríkra manna vitnesburdur og brefadur med innsiglum sem bera um ord Teits þá hann kom á þínged, og hafe hann fyrstur sleiged til manna þar þá Arne var drepenn og adrer hiner særder, og sóru þetta III logrettu-menn; dæma þeir þá dóm Teitz hinn fyrra eckert afl hafa, er þá Berse Þórláksjon þar fyrer dóme fader þeß hins veigna og beidest rettar síns og bóta fyrer nefnt mannslag. Dæma þeir þá Bersa LX Hundrud tvofalldar vígsbætur af veganda því hann være í Gridastad veigenn, epter þeirre grein, **Ef menn beriaz a þingum eykst Rettur þeirra ad helminge.** Þeir dæma og Bersa XXX Hundrud af fe Teits fyrer þau rád er hann skipade ad slá hoggva og leggia sem er hálfu minna eñ hinar bæturnar; sídan dæma þeir Teit útlægann, til slíkrar misk-unar sem kóngur vill giort hafa, enn Rafn logmann ad sier taka meiga alla hanns penínga fasta og lausa og gialldа þar af allar skullder, enn hallda peníngana þar til loglegur erfínge

kæme

kæme Teits sá vordslur hefde og tá homm þá ávaxtarlaust hálf gótzenn, enn være ei einn megnugur fyrer, þá hefde fleire, som vordslunnar hefde þar til kóngur gerde adra skipan á, med gedra manna ráde; enn hálf gótzen skyllde Rafn lögmadur ad sier taka meiga og hallda kóngdómsens vegna þar til kónguinn sette annann umbodsmann yfer og giallda þá ávaxtarlaust. Kóng Friderich gefur bref uppá þennann dóm og samþicker hann epter lögum dæmdann vera er hann seiger sinn fógete Johann Petursson hafe fyrer sig haft á sama áre. Kóng Friderich skipar ad prestar meige binda hiónaband. Pallinum epter þann dag kaupez af kóngenum. Kóng Gustavus í Svíaríke tekur vid lærdóme Lútherí um ríked enn afskipar pápiskann. Einninn upphófst í Þýskalande Lútherí lærdómur og þar epter dreifez út um landed.

Anno 1528. Skilur Sr. Fimboge Einarsson vid Greniadarstad, enn biskup Jón Arason, medtekur, afhender sídan syne sínum Magnúse Jónssyne Stadenn. Geck Teitur hinn ríke Þórleifsson af eignunum, fór til Hvamms í Hvammssveit, hellst þar vid á eignum kvinnu sinnar Ingu. Hún átte þar jarder. Rafn lögmadur hefur bú í Glavmbæ, enn situr á Hofe á Hofdastrond. Var guds ord kennt hreynt og klárt í Norege sierdeiles í Biörgvin. Samband med kóng Friderich og kóng Jacob í Skotlande sem var hans systurson. Let kóng Gústavus sig krýna til kóngs í Svíaríke þá aller biskupar voru afsetter.

Anno 1529 skrifade og let Lútherus útgánga sinn Catechismum þann stóra í þýdsku og þann litla í látinu. Veigen

 Rafn

Rafn Brandsson lögmadur í Glúmbæ af siálfs hanns manne þeim Philippus het, bar þad svo vid ad þeir urdu missátter vid Öl þar í Glúmbæ, og baud Rafn mannenum til útafgöngu, enn hann fór undan hvad hann kunne, þar til haunum hrock þad ei fyrer Frunarordum og ødrum tiltektum og hiuggu þeir þá saman fram undan kalldyrunum utar nockru og epter fárra höggva vidskifte veitte Philippus Rafne banasár. I þeim sama stad var stefna lesen yfer Teite og þar stie hann á bak þegar staden Glúmbæ rýmde og hafde hardmællt fyrer þeim sem efterkæme. Philippus sættez strax vid Rafn lögmann og kiende lögmadurenn ser völd her um; reid hann svo heim til Hofs og lifde III. nætur og vard madurenn litlu sekur sem hann hafde vared hendur sínar. Sá Philippus er fødurfader Odds Jónssonar sem nú býr og hefur búed um tíma á Skídastødum í Laxárdal anno 1639. Frá þessu og mørgu ødru kunne ad seigia frá Glúmbæ sú gamla kona Marín er heimilisføst hafde vered hiá Teite hinum ríka og þann Jón fødur Odds hafde átt vid nefndum Philippo sem hún hiá var þá nær 100 ára ad alldre á Hranne á Skaga er Biorn Jónsson þar rere til fiskeafla 15 vetra anno 1589. Teitur B. og þau Ingun hustrú hanns gáfu hvert ár bestu sína kú frá Glúmbæ Hofstada Marin og voru þá komnar 16 kýrnar er Teitur geck af egnunum, so leinge høfdu þau í Glúmbæ búed. Tók Málmey vid Evangelii lærdóme. Kóng Friderichs legatar sendaz í Svíaríke ad fá aptur Víkena í Noreg. Item sende kóng Friderich fyrste sinn son Christian hertoga til Holsten, med Danmerkur ríkesráde til Noregs (hanns hustrú var og med) ad hann skyllde hyllaz þar med eide sem einn erfínge til Noregs af hverin ecke vard, því norsker sögdu ríkenn bæde væru eitt. sá

sem valenn være til Danmerkur hann villdu þeir og velia til Noregs og komu norsker fram med þad bref er þeirra forveriar giordu vid kóng Christian fyrsta, Anno 1450. Fyrer þad bref er skrifadur Marcellus biskup í Skálhollte archipostulatus í Nidaróse og pávalegs sætes legate. Thorleifur í Víborg og postulatus í Biorgvin. Gunnar í Stavangre med fleirum odrum, greiner ríkenn skírlega sambundenn og same kóngur skule beggia ad eilífu.

Anno 1530 Are sonur biskups Jóns logmadur fyrer nordan og vestan. Skipadur Príor Jón til Modruvalla; var Ausburgiska játning þeirra Lúthersku skrifud og lesen fyrer Carolo keisara 5ta í þýsku og latínu.

So er mællt ad biskup Jón hafe keypt af kóng Friderich, þann hluta úr gótzum Teits Þórleifssonar er hann mætte eiga, og gefed kóngenum fyrer 300 gyllene Rínsk, og þeir hafe þad kaup vid kóngenn giort vegna biskupsins Sr. Sigurdur sonur hanns og Isleifur hanns mágsefne og þeir hafe framsiglt á Hólastadar skipe*] Því hinu sama sem biskup Jón á siglde þá hann vígdez og so híngad aftur kom 50 lesta fare: hvert skip gamler menn sagt hafa forgeinged hafe í storme í Laxárvík fyrer vestan Isleifsfiall [sem sumer menn kalla Tindastól] og þetta skip munu hid sídasta er Hólastadur átt hefur. Var einn í Danmork sem sagdez hafa vered biskup á Grønlande hann het Hr. Vincentius. Lutheranisker prestar og pápisker biskupar, stef-

 na

*) Því hinu sama. Þad er spursmál þá adgætt er áred 1523 her ad framan og Húngurvaka.

na samfund í Kaupenhafn. Þeim Lútheranisku gefenn fríheit ad predika Evangelium. Kóng Friderich bannar ad gefa fe til Róm fyrer vígslu, edur nockurt andlegt efne epter liene helldur skule þad veitaz af kóngenum. Brune í Odinsey og þar nálægt, feingu þar fyrer [timbur] tollfrí um nockur ár, þýdde innbyrdes stríd er sídar kom, vatnsflóded mikla í Róm af Tyberis flióte í 24 stunder, þýdde nockud nýtt munde uppkoma og yfergánga.

Anno 1531. Kóng Christian annar kemur í Osló í Noreg med nockur orlogskip frá Hollande villde inntaka Noreg aptur. Biskupar og adrer herrar í Noreg, hylla aptur kóng Christian og uppsegia þar í mót kóng Friderich þeirre trú og lofan sem þeir hofdu haunum svared. [Kóng Christian settez um Aggerhús og feck ei áunned. Gifter Jón biskup Arason dóttur sína Helgu Ejólfe Einarssyne, sunnudagenn næstann epter Michaelismessu. eru henne talenn III. Hundrud Hundrada eun hañ talde ser VI. Hundrud Hundrada, úr þeim gaf hann henne ef hún leingur lifde fiórdúngsgiof og þar adauke gaf Ejólfur henne LX Hundrud í tilgiof. Sr. Jón Einarsson beneficiatus í Odda var þar med. B. S.]

Anno 1532 brann Skálhollts kyrkia á Petursmessu, medan Ogmundur biskup var á alþinge og var smíond capella stór um Hausted. Var her á lande einn engelskur kaupmadur í Grindavík het Jóhann Breide, hann var missáttur vid kóngsens fógeta á Bessástodum, og villde ei giallda honum toll sem vera

vera átte, og einnen kom misgreiningur med þessum Jóhanne og Hamborgurum sem og lágu til kaupskapar á Sudurnesium og keypte og hellt hann skreid nockre er þeir áttu ad hafa og komu ord í med hverntveggium um þesse efne, giorde sagdur Jóhann ser þá vígе edur virkesgard skamt frá búdum á Járngerdarstodum [hver jord af summm gomlum frædemonnum nefnez Jardgiordarstader] sem enn ser merke og giorde ord med spotte þeim Handborgurum ad sækia til sin skreidena. Tóku sig þá til hiner þydsku menn og Bessastada fógete og komu óvart um nótt upp í Grindavík, komust upp í virked Johanns og slóu hann til davds og alla hanns menn, enn tóku skip og góz og allt hvad þeir áttu, þar sez kuml þeirra edur dysiar hiá virkesgardenum.

Þeir norsku biskupar sem hylltu kóng Christian straffaz til peninga af kóng Friderich. Var kóng Christian annar fángadur vid Aggerhús í Norege af monnum kóngs Friderichs og færdur til Synderborgar og þadan til Kalundarborgar og lifde epter þad 27 ár og deyde anno 1559 þann 20 Janúarii alldurs 78 ára. Amunde Olafsson valenn til biskups í Færeyum hann gaf kóng Friderich 1000 saude færiska fyrer lieneð, hann var Canúce í Biorgvin, Andres Guttormsson vár þar logmadur. Múnkar flýdu vída klaustur í Danmorku; Lutheransker prestar tóku vid kyrkium þar. Aunnur hús gefen af kónge þeim siúku.

Anno 1533 Reist um vored Skálhollts kyrkia giftest Ísleifur Sigurdsson frá Grund í Eyafyrde Þórunne hustrú dóttur biskups Jóns, er Rafn logmadur átt hafde, var brúdkaup þeirra á Hólum, var þar Helge ábóte frá Þíngeyrum og bróder Jón

af

af Modruvöllum og margt annad villdarmanna úr Nordleňdínga fiórdúnge; deyde kóng Friderich fyrste *) 19 Aprilis 56 ára til Gottorp, hann var ei kóngur nema eitt ár epter þad hann fángade kóng Christian edur Christjárn sem var hanns bródurson, hafde hann þá þau ríke forstaded, Danmork og Norege X ár frá því hann var útvaleñ, milldur, frómur og dygdaríkur herra. Hann kom því fyrst á í Danmork ad adallenn kendez vid slegted til vidurnefnes ádur var hver kendur vid faudurenn og nefndur hanns son og fyrer því ad sú vísa var, vita menn ei af hverre ætt madur var. Herradagur til Kaupenhafnar á Jónsmessu um kóngs kosníng og pápiskan lærdóm ad uppnýa, en Lúteranskann ad nidurleggia. [Reist Skálholltskyrkia um vored oll innre grinden og syllur med innre stólpum hiálpudu þar til bæde lærder og leiker til ad byggia kyrkiuna og leggia til hennar bord og tre einnen ad draga ad viduna og þá ad telgia. Mællt er ad Skálholltskyrkia hafe vered eitt hid stærsta trehús í nordurlondum, svo sem enn má siá merke til af þeim gamla grundvelle af hanns leingd og breidd. O. E. S.]

Anno 1534. Dó Síra Magnús sonur biskups Jóns á Greniadarstad, veitte biskup Jón þá þennann stad odrum sínum syne Sr. Sigurde. Hann var hofdínge hellt sig med rausn þar hann hellt VI sveina oftastnær, einnenn prest annann, þarmed IX edur X erfidesmenn og gillda karlmenn er þángad volldust, þar var og ríkra manna syner til kenslu alltídum. Sr. Sigurdur hafde oftast biór edur mumgát til síns bords hvert ár um kríng, voru aunnur mumgát heitt þá aunnur eyddust. Máldryckia var þar alltíd á helgum dogum og ad gest-

kvæmd

*) 3 Aprilis.

kvæmd lagarædur vid bord og dryckiur. Setzelia het hanns kvinna og var Petursdótter. Halldóra het dótter þeirra andvadez ei giftumál, deyde fyrr enn hennar fader. Biskup Ogmundur sigler út epter vidum og til annara erindagiorda, dreif hann stormur í híngad siglíngu frá Islande vestur í haf under Gronland og nordur med landenu þá þóttez hann og nockrer menn kenna Heriólfsnes á Grænlande, þad var síd dags og voru þeir svo nærre ad sáu fólk vid stecke og lambse, fengu þadan gódann byr og hagstædann kostudu atkere á Patrixfirde morgunenn epter um nialtatíma." [Hallda menn ad hafskip þetta sem Ogmundur var fyrer edur áſiglde hafe, átt Skálhollts kyrkia enn hvernenn þad hefur forgeinged edur fráfomed má Sunnlendíngum kunnugt vera: sagt er ad hafe fared vid Eyrarbacka]

Misgreiníngur í Danmork fyrer því biskuparner hofdu bannfært nockra kaupstade fyrer þad þeir hofdu teked vid Lútheri lærdóme. Greife Christophor kom til Siólands med 25 skipum inntók Kioge og Roskild. Kaupenhafn gefur sig upp fyrer greifanns monnum og þeir í Sælande, Skáney, Fýn, hylltu hann. Christian þridie er þá útvalenn til kóngs af þeim í Jótlande. Christian 3die leggz um Líflu. Fæddur Friderich annar fyrsta Júlii. Paulus páve 3die *] 18 ár. [Siglíngu Biorns ríka og hustrúr Olafar og þeirra hrakníng innsetur O. E. S. ad hunc Annum.]

Anno 1535 Claus von Mervitz hyrdstióre á Islande. Sigvardur ábóte í Vere. Brandur prior á Skridu. Christian

H

*] 15 ár.

ian 3die útvalenn til kóngs af mestum hluta manna í Norege kóng Christian fellde greifans stridsher á Fióne í hverium audrum bardaga greifenn fell. Kaupenhavn umleggst af kóng Christian þridia. Lybsker nádu af deuskum XVI þeirra bestu orlogs skipum.

Anno 1536 drucknade Þórleifur bónde frá*] Skóge í Breidafiardardolum í Rife med tveimur sínum sonum miog druckenn, enn móder þeirra nádest á flote þúngud. Islendíngar skrifa fram og vilia ei hafa edur lída þann hyrdstióra Claus von Mervitz fyrer rán og manndráp. Fridur í millum Danskra og Lybskra, miked húngur í Kaupenhafn. Borgenn Malmey gefur sig upp fyrer kóng Christian 3dia. Epter þad Kaupenhafn havde vered eitt ár umsetenn gáfust þeir upp fyrer kóng Christian 3dia Sio pápisker biskupar setiaz aller, á einum tíma í fángelse í Danmork. Kóngurenn og ráded samþycker Lútheri Lærdom, og allt biskuplegt góds kemur til ríkesens. Biskuparner gefaz lauser aptur og fengu nockud góds, sem þeir máttu lifa vid til aftekra, einum fráteknum. Þad stríd sem kóng Christian þridie átte her vid sína óvine kalla sumer greifa stríd, enn sumer þad lybska stríd.

Anno 1437 dó Teitur bónde Þorleifsson í kvessótt og margt fólk annad, einnen deyde þá ábóte Halldór Tirfíngsson á Helgafelle. Hvert Teitur hafe sigt nockurn tíma á þessum X árum sem hann lifde úr því dómurenn geck á hann ad Seilu af Rafne logmanne, edur hafe hann fyrer onnur medol landsvist feinged, vitum ei: þad er mællt Sr. Sigurdur sonur biskups Jóns og Isleifur mágur hanns hafe giort kaup vid kóng-

*] Skarde.

Kóngenn vegna biskups Jóns um Teitz gótz um helftena og greidt fyrer gyllenenn. Enn biskup Jón hafe samed vid erfíngia Teitz sem voru austur á lande hér um adra helftena, og þar í Danmork þá hafe þeir Síra Sigurdur og Isleifur teked vid Lútheri lærdóme, og undergeingest hollustu vid kóngenn því alldrei voru þeir í neinum rádum edur stórmeñsku med biskupe Jóne. Claus Mervitz er veitt klaustur á Islande, enn skickadur híngad Didrich von Mynden ei betre enn hinn [hefur þad vered Helgafells klaustur sem *) Halldór dó frá] Múnkarner útrekner úr Danmork; var kóng Christian þridie krýndur í Kaupenhafn. Lútherus skrifar til kóng Christian ad Canúca gótzenn mættu vera sem vered hafa. Kóngurenn umser kyrkiurnar og skólans inntekt og rentu. Kóngurenn sende skipaflota til Noregs móte erkebiskupe Olafe í Þrándheime.

Anno 1538 Sio evangelisker biskupar voru ordinerader í einu í Kaupenhafn af doctor Jóhanne Bugenhagen. Kóng Christian 3die giorde samband vid þá Evangelisku fursta í Þýdskalande. Bein Thómasar erkebiskups í Cantaraborg á Englande let kóng Henrich upptaka og brenna. Abbadís Halldóra Sigvalldadótter Lángalífs í Kyrkiubæ austur. Alexius ábóte í Videy.

Anno 1539 slegenn í hel Didrich van Mynden hyrdstióre í Skálhollte vid XI mann af landsetum kyrkiunnar; þá var og drepenn Petur Spons í Hruna. Þesser aller fyrer ógudlega breitne, rán og hardseinges vold, um þeirra aftoku villdu Dansker kenna biskup Ogmunde. So skrifar Arild Hvítfeld í kóngs Christians 3. Historiu:



*) Fimboge.

" Og epter því almúgenn á Íslande fyrer tveimur árum edur " þrimur, hafde klagad yfer einum fógeta kóngsens Claus van " Mervitz sem hafde í forlening eitt klaustur í landenu, so miste " hann nú þad klaustur og þá forlening. Einn annar fógete " Didrich von Mynden var skrifadur hedan af landenu og " geck dómur yfer þá bæde fyrer rán og manndráp til Rens- " borgar Þorsdagenn epter *Dominicam Oculi.*

Kyrkiunnar Ordinantia yferlýst í Odensëý 1. Júníi. Ein Cometa sást í Majo utanlands.

Anno 1540 biskup Ögmundur let útvelia Gissur prest Einarsson til biskups því hann tók þá miög ad hníga af alld- urdóme og augnaveike. Gissur prestur var vellærdur mádur hafde hann vered í skóla í Hamborg og medteked þar Lútherí lærdóm, en þorde ei sig þar um uppe ad hafa edur kenna á Íslande því hann var einfalldur madur og magtarlaus fyrr enn hann vard biskup, hann siglde nú aptur og tok nú fullkomlega vid- nýum sidum.

[A þessu hauste vel hálfum mánude fyrer vetur lætur Jón bónde Biornsson gánga dóm í umbode Erlends Þorvardssonar lögmanns í hverium dóme þeir dæma Didrich van Mynden og hanns fylgiara óbótamenn og þá alla saklausa, er hann og hanns fylgiara hafa í helsleiged fyrer rán og óloglegar og ógudlegar adtekter sem Didrich hafe í framme haft med ordum og verkum. Þær serlegustu saker sem í dómenn eru innfærdar. 1. Ad Didrich van Mynden og Cort Rafn hefde rænt og griped frá biskupe- num II. Hundrud lybsk mork í gulle og silfre fyrer utann alla heim-

heimild. 2. Hann hafe rænt og griped frá biskupenum 4 gömlum nautum af Hvannavollum einnenn frá odrum monnum. 3. Hann hafe láted stínga biskupsens og kyrkiunnar lód í Grindavík og láted byggia þar hús á móte biskups og hanns umbodsmanns vilia. 4. Hann hafe teked VI jarder nidur vid Sünd, þær biskupenum tilheyrde, fyrer utann biskupsens vilia. 5. Ad Didrich hafe talad illa til biskupsens og kallad hann **Hundabryfara**, og aunnur iafnskemmeleg ord; í þessum dóme voru hiner bestu menn sem þá voru Paull Vigfússon sem sídar vard logmadur, Dade Gudmundsson, Sæmundur Eireckßon í Ase, med fleirum audrum villdarmonnum. O. E. S.]

Anno 1541. Vígsla og útkoma Gissurar biskups til Skálholts med nýar skickaner og ordinantiu um prestagiftíngar og bannade áheitíngar helgra manna og sette hann Ogmund af med aullu og var hann þá blindur; fór hann þá til Hialla til Asdísar systur sinnar, Gissur biskup fylgde miog vel ad koma vidum Sudurlanded þeim hreina sáluhiálpar lærdóme, og var hann sá fyrste á Íslande sem útlagde Salamonis ordskvidu og Jesus Syrack hann lagde og út fleire bækur. Samband med kóng Christian 3dia og keisaranum móte þeim Lybsku og Sióreifurum item samband vid kóngenn af Frankaríke. Kóng Christian 3die og kóng Gústavus af Svíaríke funduz vid *] Brimsebrú þeir giordu fridarband í 50 ár. Stadfester kóng Christian ad allar rettarbætur Hákonar kóngs skule fyrer log halldaz, so á Íslande, Hialtlande, Færeyum sem Norege þann 24 **) 9br.

[Þegar Gissur biskup kom út med sídaskiftenn fell Ogmunde biskupe þad miog þúngt so hann fór frá stólnum og upp til Haukadals því þar var hanns bú og annad á Reykium komu

 þá

*] Brunsebrú. **) Octobris.

þá aller til fundar vid Ögmund biskup og hafde so sem aull rád, enn Gissur biskup ogtudu þeir lítels edur ei mest fyrer sídaskiften, og sá hann so leinge sem Ögmundur biskup var her í lande edur á lífe munde guds ord alldrei fá her framgáng edur þeir sider sem hann bodade. O. E. S.]

Anno 1542. Fángenn biskup Ögmundur Paulson á Hialla hiá systur sinne Asdíse af Donskum, og hafdur fram í Danmork og deyde þar, grafenn í Soorkyrkiu med þessare yferskrift á líksteinenum: Ogmundus episcopus Islandiæ, hafde hann ádur afhendt allann stadenn í Skálhollte med stadarens peníngum Gissuri biskupi hvern hann hafde ádur árenu fyrre láted útvelia á almennelegre prestastefnu, á alþínge vegna elle sinnar og avgnaráds med því hann var þá næsta blindur, feck haunum sídan fæ og tilfaung aull til útsiglíngar og villde hann skyllde vinna*] eid fyrer erkebiskupenum í Nidaróse. Enn med því Hr. Gissur hafde ádur fyrre siglt uppá kost biskups Ögmundar og stúde, rad til Wittenberg í 3 ár sem menn segia og heyrt þar Lútherum og Philippum, þá hafde hann feinged smeck á Lútherskum lærdóme, enn þorde ei upp med ad koma her í landenu fyrer rádum biskups Ögmundar, þá snerez hann á sín rád og fór til Danmerkur og sór þar kóngenum sinn embættes eid fyrstur allra biskupa á Íslande. Sídan hafde margt og miked rædst um Reformationena og hafde biskup Gissur, sem þá var vígdur Superintendens í Danmork epter Evangeliskre vísu, bored sig upp ad ser munde ei tiá vid Reformatíónena ad fást her á lande fyrer

*] Þetta er rángt þá var og einge Erkebiskup í Nidaróse og komed til kóngsens valld ad tilsetia og skicka biskupa í þessum ríkium. sýnez mismunur þesse koma þar af ad Biørn setur utansør Marteins biskups og apturkomu áre sídar enn vera á.

fyrer rádríke biskups Ögmundar á medann hann være á lífe, kom því svo saman ad herskip skylldu híngad sigla til Íslands hveriu ad fylgde Hr. Gissur biskup og kom út sudur vid sund fyrer því skipe rede Danskur, herramadur Christopher ad nafne og kalladur riddare ad nafnbótum. Reid Gissur þá strax heim í Skálhollt og medtók stadenn af biskup Ögmunde og let ei ueitt á ser merkia um auunur rád. Skillde so Ögmundur biskup vid Skálhollts stad og fór til systur sinnar Asdísar Paulsdóttur ád Hialla í Ölvese og meinte þar ad ala sinn alldurdóm þad eptervære sinnar æfe í kird med því ad syster hanns hafde honum þad freklega ráded til sín ad fara. Hr. Gissur sat litla stund ad stólnum epter burtfør Ögmundar og reid svo hid snarasta sudur aptur til riddaranns og er mællt þeir hafe bored sín rád saman og vered tveir einer leinge dags á eintale, þar epter sende strax Gissur biskup til nálægra bæa epter fylgd og fararskiótum VI. edur VII, riddaranum til handa og sagde hann vilde í Skálhollt ferdaz, til ad kaupa vadmál fyrer vín og önnur faung, rída so báder ad sunnan med sínu fauruneyte og skildu sídan leider, biskup reid heim í Skálhollt, enn riddarenn til Hialla í Ölvese og komu þar á óvart um nótt þá fólk var í svefne og bóndenn Ejólfur ei heima, geingu sídan vopnader inn og tóku biskup Ögmund á sængeñe, blindann og nærre åttrædan og leiddu hann út í fótsíore kirtu einne því þeir vogudu ei ad bída so leinge ad hann klædde sig inne meinande ad fleira fólk munde þar inne vera og leiddu hann því út á hlad og gripu hanns klæde sem fyrer hende urdu og snørudu út ad honum so hann klædde sig þar sem skiótast, hafde Asdís húsfreya boded miked fe til lausnar en þeir sintu því ei, hnepptu hann á bak og færdu med ser sídan. Sagt er hann hafe kastad þessu

eyrende fram seinast, er hann skillde vid systur sina á blad-
enu:

Hugsadu um pad hríngaláð
hvad hlauts af vilia þínum
køllð eru jafnan kvennaráð
kemur ad ordum mínum.

Sídann hafde hann hneptur vered í skip og hafde riddar-
enn epter nockra stund lidna, lofad honum lausn ef hann liete
ser í hendur allt sitt silfur hveriu hann neyddez til ad iáta og
láta par uppá bref skrifa. Sagt er ad full hálftunna hafe
sudur fared bæde af giallde og giordu silfre, hvad syster hanns
Asdís afgreidde enn ei feck hann lausn ad helldur. Enn þeir
sem epter silfrenu fóru høfdu sed eitt merkelegt niste sem Asdís
Paulsdótter átte af því var miked giørdt fyrer riddaranum því
systez hann ad lofa aptur lausnenne ef biskup Øgmundur skrifade
henne til, ad hún lete þad laust hvad og skede, *] enn ecke
vard hann laus ad helldur. Sídast allra kúgugu þeir af honum
ad hann uppskrifade sínar jarder og fastaeign og þá skyllde hañ
frí gefaz og skyllde játa þeim under kóngenn. **) Fellu med
þessu móte allar hans egner og ódol under kóng án dóms og
laga edur nockurra sakargifta, enn hann siálfur fángadur og
fluttur í Danmork og settur par í Sórøhar klaustur í erlegu
hallde

*) Greileg ágirnd í slíkum manne er heita skyllde riddare.

**] Allt þetta er sked án kóngs leifes edur skickunar og má því undarlegt
sýnaz ad biskup Harboe hefur hlíf; vid ad asmála þeuna Kompán og
hanns adgiørder í sinne Reformations-Historiu um Island, er þó
mættu vera minnesstædar.

halldе, hvar sagt er hann hafe lifad nær III ár og sídan andadz og grafenn sem ádur er sagt. Hefur þesshattar frásogn láted uppskrifa sáluge *] Hr. Oddur Einarsson epter Egle nockrum rádvondum skírum og skilvísum manne sem hefur vered vel til alldurs komenn þegar þetta hefur tilbored, her um skrifar Arild Hvítfelld svo:

" Var Christopher Hvitfeld lensmadur á Thrándheimsgarde
" af Kóngl. Mayt. med tvø ørløgskip og strídsfólk befalad ad
" hallda til Islands og fánga biskup Øgmund og færa til Danmerkur og láta landed sveria kóngenum eid hvad og skede ad
" Island geck med eide kóngenum, á hønd under Noregs crúnu.

Almúgenn á Islande skrifade kóngenum Christian 3dia til ad þeir medteked hefde eina nýa Ordinantiu og skickun þeim senda. Enn þeir þeinktu þetta kæme honum ei vid, helldur þeirre Romversku kyrkiu ad giora skickun og ordu um kyrkiu Ceremoniur. Um þann tíma vex ókirleike og ofstope á Islande, villde fólked ei margt hvert medtaka þá umbreiting Trúarbragdanna sem upphófst af biskup Gissure her í lande tók og Hr. Jón Hóla biskup til ad hfa á ser ad vilia ei undergánga nýann lærdóm og hefiaz þá hanns miklu yferreider med fiolmenne. Enn fyrer þad logmadur Are fylgde fodur sínum í allmaurgu stórkostlegu upptæke, þá vilia hofdíngiar á landenu ad Are se ei logmadur og er tekenn til logmanns Þorleifur Páísson frá Skarde á Skardstrond. Er fæddur Gudbrandur biskup til Stadarbacka í midfirde hanns forelldrar Sr. Þórlákur Hallgrímsson og Helga Jónsdótter logmanns Sigmudssonar, helldu þann stad í 4ur ár og fór Þórlákur prestur ad þeim lidnum til Þíngeyra og var þar kyrkiuprestur 8 ár. Hellt um þann tíma klaustred ábóte Helge, var Gudbrandur IV ára



*] Biskup í Skálhollte.

er hann kom til Þíngeyra og var þar med faudur sinum. Enn Helga kvinna Þórláks prests var ad búe hanns á Torfalæk og Þórdur med henne sem var tveim vetrum ýngre enn Gudbrandur hanns bróder. Þó Isleifur bónde Sigurdsson á Grund egnadest Þórum Grund epter hann í giafer sínar þau voru barnlaus. Kyrkiu ordinantian útgefenn til Danmerkur med 26 Rípar articulum. Sonur kóngs Christians Friderich útvalenn í Danmörk. Kóngurenn sende kóng Frandz í Frankarike nockra riddara sem var í sambande med honum því stríd var mille hanns og keisaranns. [Var Christopher Hvitfeld lensmadur í Þrándheime sendur híngad og skickadur af kóngenum til Islands med tvø orlogskip og strídsfólk til ad sækia Ögmund biskup og flytia fram í Danmork enn setia inn aptur Gissur biskup og láta landz fólked sveria kóngenum hollustu hvad og skede ad Island geck med eide kóngenum tilhanda under Noregs crúnu. Þau skip komu híngad í fardaugum; þá var Ögmunde biskupe rádlagt ad fara austur á klausturenn medan Dansker, læge her og vera þar, enn hann qvedst fyrst verda ad fara ad finna systur sína Asdíse á Hialla og reid med þad til Reykia í Ölvese; sem hann er þar komenn kemur þángad madur sunnan ad yfer Hellersheide frá Hr. Gissure med bref ad Ögmundur biskup mætte vera óhræddur um sig fyrer þeim Donsku. Því þeir villde honum ei vondt, þessu trúde Ögmundur biskup og sagdest samt ætla út ad Hialla og vera þar viku edur nockrar nætur. So reid madur Hr. Gissurar sudur aptur og sagde hvernen þá stæde á fyrer biskup Ögmunde og hvad hann ætlade fyrer sér. So strax um hæl ridu 13 edur 14 menn upp ad Hialla tóku þar biskup Ögmund í badstofunne um morgunenn, leiddu hann út og feingu honum klæde sín fluttu hann sídan

yfer

yfer fiall letu í skip og geimdu hann þar, fengu til pillt úr Videÿ til ad þióna honum og lesa fyrer hann; Sá het Erlendur. Þeir lofudu þá ad gefa hann lausann ef hann fenge þeim allt silfur þad hann ætte, so var sendt epter því austur ad Hialla, því þad var geimt þar í urdenne fyrer ofan stadenn. Syster hans Asdís átte þar med nockud og tók hún þad til sín. Sem þeir komu sudur lofudu þeir enn ad láta hann lausann, ef þad kæme sem epter være og let hún þad til og stód allt í sama stad. Þeir lofudu honum enn þá lausn ef hann fenge kóngenum allar sínar jarder, hann giorde so og voru þær 14. Enn syster hanns Asdís átte med rettu, hveriar hún sór ser á Alþinge, enn náde þeim þó ecke, med þad fluttu þeir hann fram. Enn ádur fyrre á Alþinge sór hann þann eid ad Didrich hefde hverke af sínum vilia ne volldum drepenn vered. Enn þá biskup kom fram er sagt kóngenum hafe mislíkad, ad þeir fluttu hann fram siónlausann, let hann í eitt klaustur þar andadez hann um veturenn nálægt Kindelmessu O. E. S.] Kóng Hendrich í Englande lætur hálshoggva sína kvinnu *) Hávardan sem ádur var kreynkt.

Anno 1543 um þann tíma helldur Jón prestur Matthiasson stadenn Breidabólsstad í Vesturhópe. Hann var barnfæddur í Svíaríke og kendur þar vid og kalladur Jón Svenske. Hann var skickanlegur madur og vel sidadur. Hann hafde híngad í land fyrstur Prentsmidiu og hóf Prentverk á Breidabólsstad á dogum biskups Jóns, prentade þar handbók presta sunnudaga gudspioll og fleira annad. Jón Svenske þótte nær yppurstum prestum nordannlands þann tíma. Hanns sonur Jón er prentverksydiu lærde ad faudur sínum og prentsmidiu

 epter

*] Havardan.

epter hann erfde og Hr. Gudbrandur biskup er hann til stólsens kom og prentsmidiu let á Hólum nidur setia, let sagdan Jón bækur þryckia ásamt því loslega prentverke Bibliunnar, og var hann nefndur af allmorgum Jón prentare, hann þryckte og bækur á Núpafelle, hveria jord kóng Friderich veitte honum um hanns lífstíd þá hann biblinna þryckte. Liet kóng Christian þridie vera mikenn Herradag, var þar logtekenn Ordinantian um ríked. Svlaríke sem til þess hafde vered eitt valríke verdur nú eitt arfaríke. Þá skede þad nídlega vondsku verk, fyrer avstan á Islande ad Cetzelia Loptsdótter med þeim manne er hún hafde ádur med falled fram hiá manne sínum, drap og myrdte bónda sinn Steingrím Bodvarsson epter hveriu mále geck og ransakade (epter því hann var skylldugur tildæmdur) Erlendur Þórvardsson logmadur, og var sá madur Steingrímur grafenn upp aptur og fundenn stíngur á hanns þunnvembe og svared so mannaverk, sídann Cetzeliu til tylftar eids dæmt epter líkendum og med því einger voru á bænum hiá henne þegar Steingrímur dó, nema sá dreingur er hún hafde med falled, en einger villdu med henne sveria edur sanna, var hún þá og dæmd retttæk af valldsmanne ef eidur felle innan ásetts tíma, nema ef kæmest á adrahveria dómkyrkiuna og hálfer hennar peníngar under kóngenn faster og lauser og þar í tilgreind jorden Egilsstader. Her um má lesa tvo dóma Erlends logmanns á þessu sama áre. Cetzelia þesse komst á Hólakyrkiu.

Anno 1544 Otthe Stígsson hyrdstióre á Islande. Þórleifur var logmadur nordan og vestan, en Erlendur Þórvardsson samt fyrer sunnan og austan. Þá kvongadez Hr. Gissur biskup og hellt brúdkaup sitt heima í Skálhollte. Osidvanleg-

legar formyrkvauer á sólu og túngle. Kóng Christian Þridie giörer samband vid keisara Carl 5ta.

Anno 1545 Fell mikel skrida í Vatnsdal um eina nótt ad álidnu sumre um engiasláttu tíma og tók af einn bæ þann er Skídastader heita urdu þar under XIV menn. Þar bió sá madur er Sæmundur het vel fiáregande. Eckert fanz í því mikla skridu falle, nema hönd hin hægra af Sæmunde bónda og var hún audkend því henne fylgde silfurbaugur er á fíngrenum var. Villdu menn so í þann tíma þetta ráda ad sú hanns hönd skyllde fá kyrkinleg fyrer olmusugiafer, ad hann gaf alltíd sákækum med henne. Vollur af Skídastödum hlióp yferlángt á chrar sem þeir kalla nú Hnausa og er þar nú bygd og heyskapur mikell.

Vatnshlaup hafde komed undan Grióthrauninu og hratt þad fram túninu og er þar nú stöduvatn á slettlendenu sem vatned nam stadar, enn sú fárlega skrida uppundan sem nefnez Skídastada skrida nú sídan. Are biskupsson hafde sýslu í Vödluþínge um þann tíma og lætur dóm gánga á Einarstödum í Kræklíngahlíd um XV þiófa í einu er störum voru rygtader aller um þiófnad því undra peníngar höfdu hvorfed bæde kviker og dauder. Þeim var til eida dæmt; Er so mællt ad aller hafe á eidum falled enn þeir feinged so sumer lífstión sumer limalát og adrer refsíngar. Lútheri bók ad pávadómurenn se stiftadur af diöflenum útgeingur á sama áre. Endade hann þá herlegu útleggíng Genesis bókar.

 Anno

Anno 1546 dó ábóte Petur á Múkaþverá. Kiörenn og vígdur Síra Thomas hann lagde af seirna klaustred. Um þann tíma rídur biskup Jón med fiölmenne á vestfiordur skodade hann Vatnsfiord hvern Síra Jón Þórleifsson þá hellt, og í þeirre reid giste hann þar. Meina menn hönum hafe til sinnes vered ad komaz yfer þann stad. Enn Jón prestur var ei slippur fyrer af fólke og olfongum. Meina menn hañ hafe viliad reyngia þá giörnínga er Skálhollts biskupar Stephan og Ögmundur höfdu fyrer þeim stad; og er hann sat vid dryckiu er mællt hann hafe kveded vísu þessa:

Virdez mer Vatnsfiördur
vera so sem sagdur er
heidarlega húsadur
horfenn um med grænt törf.
Christín hefur bygt best
búed her vel frú.
hann kalla eg heppenn
er hloted *) gæte slíkt slot.

Her meinar biskup Jón til Vatnsfiárdar Christínar hinnar ríku dóttur Biörns Jorsalafara Einarssonar. Hún átte bónda Þorleif Arason. Biskup villde vita hvad höfdíngiar andlegar og verálldlegrar stiettar tilségdu ad fylgia hönum ad taka sig upp og gángaz ei under nýúngar sidaskifta af dönsku yfervallde. Deyde biskup Gissur í Skálhollte, kiörenn og vígdur Marteinn Einarsson til biskups og kom út. Deyde sá loflege doctor Marthinus Lútherus dag 18 Februarii alldurs 63 ára. Hann pred-

*) Feinge þad Kot.

predikade hreint guds ord 28 ár og vart 4 mánude. Þá var Concilium til Triens.

" Soddann einn hardur vetur var á þessu áre ad menn " mátti gánga á Ise frá Sælande á Fión og Jótland og frá " Falstur í Þyskaland skrifar Carl Axelson og Dr. Conradus Asl- " akus Bergensis. " Var stór dyrtid í Danmørk á þeim mik- " la vetre. J føstu inngáng gilte 1 Lispd. rúg 10 merkur, 1 " lispd. bygg 8 merkur, 1 lispd. malt 9 merkur. Enn um " sumared gillte skeppa rúg 13 skillðínga, bygg 12 skillðínga, " skieppa miels 20 skillðínga, skieppa malts 1 mark." Arild Hvitfeld.

Anno 1547 biskup Marteinn ríker í Skálhollte, uppheſt med þeim biskupe Jóne og hr. Marteine stór sundurþickia og tvídrægne um trúarbrogdenn. Rídur biskup Jón á Hólum nordur í visiteran og þadan austur allt í Biarnanes og koma landslíðnum ad hafa sonu sidu, og láta ecke undergángaz neina nýa ásetníuga úr útløndum og var þetta kollud Biarnanesreid, þótte fólke hann diarftækur í sumum stødum um þá hlute er þeir þóttuz þurfa og treglega var tilláted var hertoge Friderich kóng Christians 3dia sonur sendur til Noregs ad hyllaz þar med 6 skip hvad og skede. Ein mjog skadleg og veilsufull pestilentia greip marga á augnabragde í Danmørk og umliggiande stødum og løndum. Kóng Henrich áttunde deyr í Englande. Játvardur 5te kemur í hanns stad áre seirna, ríker 6 ár.

Anno 1548 sender biskup Jón Arason sonu sína Síra Biorn og Ara er logmadur hefur vered og bió á Modrufelle í Eyafirde, enn Síra Biorn á Mel í Midfirde sudur um land med

fiøl-

fiolmenne, ad sækia biskup Martein, hvad þeir og giørdu ad biskup Marteinn var fángadur og hafdur nordur til Hóla og halldenn þad ár í vardveitslu ad Hólum, hvar um skrifar so Arild Hvítfeld:

" Tók biskup Jón Arason á Hólum til sín þriú hundrud
" manns, og fángade biskup Martein Einarsson af Skálhollte
" uppgróf þann fyrra biskup og gróf hann utan kyrkiugards,
" Sette løgmannenn af og sinn son í stadenn aptur, med ødru
" fleira, var og til sinnis ad setia engelska þar inn ser til verndar.
" Móte hønum tók sig Dade Gudmundsson í Snókvdal
" hvers syster biskup Marteinn átte. Her fyrer lætur kóng Christ-
" ian 3die ár 1549 mánudagenn epter *Scholasticæ Virginis* frá
" Kollding bref útgánga og skrifa til Islands þar um ad bisk-
" up Jón se fridlaus og fyrerbaud øllum andlegum og veralds-
" legum hønum ad fylgia. Um þenna tima er sagt ad biskup
" Jón hafe feinged pávans bref ad siá hid besta til ad landed
" hellde þeirre gømlu pápisku trú epter þeirre vísu sem vered haf-
" de hanns forveriara tíd og mun þad bref hafa dyrft hann til
" sinnar yfferreidar. Einnenn skrifar Cort Axelsson hinn Norske
" her um í sinum 100 ára annálum. Á sama máta þegar þeir
" brædur Sira Biørn og Are ridu ad taka biskup Martein þá
" var og tekenn Sira Arne í Hitardal því hann var styrkiands
" Martein biskup og hann Lútherska lærdóm, var hann og haf-
" dur til Hóla og þar í vardhalld settur. Enn hvert þeir bræd-
" ur hafe þann sáluga biskup Gissur uppgrafed, edur biskup Jón
" siálfur seirna þá hann reid í Skálhollt, vitum óg giørla.

Eirnen her um løgmannaskiftenn (sem Arild Hvítfeld skrifar)
" eru merke til biskup Jón hafe gramez, ad høfdingiar marger
" hverier ecke villdu leingur Ara fyrer løgmann hafa úr því
" stórreider biskups Jóns upptókuz ad því mune hann haft hafa reide
" á Þorleife Paulssyne løgmanne þá hann sende Sira Þórlák

Hall-

" Hallgrímsson og XV menn med hønum vestur til Skárds, má-
" ske ad taka Þorleif løgmann, en Sira Þórlákur fór þá ferd,
" meir af yfervarpe enn til stórræda edur ad brióta løg á mønn-
" um og ridu aptur so búner so sem þau erende biskups Jóns
" hlióda er hann framhreitte um þeirra ferd;

Sender voru XVI menn
Sagan er þesse uppe enn.
ridu þeir heim á ríkann gárd
rausnar lited erended vard
hølldar segia høfudból þetta
heite Skard.

Enn fór heiman ellehrumur,
augnaveikur á giallde naumur,
alldrei var hann í orústu frægur,
Item þótte rádaslægur,
sókt hefur jafnan sína villd
í svørunum hægur.

(Item).
Bissur voru á bænum þriár
brøgnum þótte kátlegt fár
karlmadur einge kom þar út
sem qvæded gár.
Oddvitenn var ecke frekur
einge þeirra giørdez sekur
hægt er þeim sem heilum vagne
heim ad ekur.

Þesse erende biskups Jóns finnaz fleire, so er sagt hann hafe þesse erende kveded þá hr. Marteinn var fángadur þó ei oll fáez.

Bónde nockur bar sig ad
biskups vellde styra
því dyra,
en hønum fór illa þad
øllu var hønum betra á Stad
heima ad hyra.

Bóndenn Skálhollts bar sig ad
biskupsstólnum styra
þeim dyra
villu marga og vantrú baud,
vex hønum af því sárleg naud.
sem skálldenn skíra.

Stendur á móte Stafkall einn
stirdur í øllum hætte
og mætte.
Sende hann sína synena tvo
ad sækia hann og fánga svo
nema bóndenn bætte.

Um sína heimkomu úr Biarnanes reid qvad hann:
Nú er hann kommenn til Hóla heim
hægur í sínu sinne
eg inne

ordenn er hann af elle mæddur
alldrei trúe eg hann verde hræddur
þó lióden linne.

Lauritz Muhle hyrdstióre á Islande. Asókn í París uppvex ad nyu móte Lútheraniskum. Franciscus de Spera Italianiskur afsver þann vidtekna Lútheri lærdóm til Venedien; hvar af hann fellur í sálarennar og samvitskunnar ógnarlega þreingíng og efaseme, og dó so sídar í somu efaseme edur orvæntíngu.

Anno 1549 feck biskup Jón bref frá pávanum, hvar inne hann þackar honum fyrer sitt bref sem hann segez hafa frá Jóne medteked forlided ár, sem og hlídne vid sig og þetta heilaga sæte, og rædur biskupe ad láta sína hiord halldaz vid þad sama skikk og skipar honum ad treista til sín þad sem hann giora meige, og tilseger honum ad útdeila Ste. Petursse med fátækum naudþurftugum sem sýnest miskunar verder. Þetta bref er skrifad í Róm vid Ste. Peturskyrkiu die nono Martii sub annulo Piscatoris 1549 episcopatus nostri 15. Þetta bref flutte út Ulfur og Lodvík. A næsta áre epter kom út bref Dr. Peturs Palladii til biskups Jóns Arasonar anno 1550. A þessu áre vex kíf og hatur med biskup Jóne og Dada Gudmundssyne í Snóksdal. Dade átte Gudrúnu Einarsdóttur systur hr. Marteins, því styrkte Dade hanns mál hvar hann kunne og því vidkom til orda og giorda, enn mótfell biskup Jón og margt feingu þeir ser til misgreiníngu. Kom þá út kóngsbref þeim til styrktar sem biskup Jón villdu mótfalla edur hanns uppteektum ei hlída. Skrifar Corth so her um.

" Biskup Jón med 300 sóldata tók biskup Martein í Skál-
" hollte til fánga, hvar af kóngurenn reiddez og epterkomande ár,

" let hann setia vid bann og forbaud øllum bæde andlegum og
" veralldlegum ad gefa edur giøra hønum nockra underholdníng
" edur lidskylldu, og tilsegia hønum á því sumre strax ad koma
" fram fyrer sig og giøra sína afsøkun her um. þad bref hliódar
soleides:

Vier Christian med Guds nád Danmerkur og Noregs kóngur, Heilsum ydur ollum Vorum undersátum andlegum og veralldlegum, sem byggia og búa á ollu Voru lande Íslande, æfenlega med Guds og Vorre nád. Vited Vier hofum spurt í sannleika, ad biskup Jón í Hólabiskupsdæme og so annarstadar, yfirfalle Vora undermenn þar í landenu og ydkár fermíngar og adrar óheyrelegar hondlaner, sem eru ochristelegar á móte Guds orde og Evangelio, og í móte Vorre ordinantiu hlydelse, og somuleides giorer hann Vorum undersátum ófrid sem Vier viliim hafa med frid, hvad Vier vilium í eingan máta tilstæda edur lída og nú her fyrer hofum Vier Jóne biskupe tilskrifad, ad hann skule strax í sumar koma til Vor, med Voru skipe og siálfur tala vid Oß, og giora hanns afsokun her um, og uppá þad hann skal þad ecke fá ad fordaz edur óttaz Oß, þá sendum Vier Vort skip [far] víst og christelegt lelse, ad hann skal meiga frí og friáls og felegur til Vor og frá aptur til sinna heimkinna. Því bidium Vier ydur alla, og streingelega bióðum ad ef hann vill ecke koma

koma, og er so Voru skrife óheyrugur, ad þer þá fyrrnefndum Jóne biskupe, seud ecke heyruger ne hlíduger, fylgiande ne hiástod veitande, í nockurn máta; En ef nockur dyrfez hér í móte ad giora og verdur þar ad sannur og kunnur fundenn, þá skal hann þar fyrer straffaz og vera útlægur af landinu. Því láted Mig þetta í eingann máta fretta, ad þer honum styrk veited, under Vora hollustu og nád. Gefed á Voru Slote Koldínghus.

Biskup Jón villde nú ei framsígla fyrer kóng Christian sem hann honum baud, tók hann nú til ad efla bygging og víge upp frá kyrkiu ad Hólum sem hann kallade slot, og var þar giordur groftur mikell og diúpur og veitt ad vatne og skyllde þángad stycke og bissur færa sem á einn skantz,*) og gánga af lofte á múr og kyrkiu. So og hafde biskup Jón þá mok og mikel skifte vid engelska og hollendska, og vilia menn halda hann hafe tilskrifad keysaranum í Þyskalande ad eignaz landed og veita ser styrk því ad hallda med somu trúarbrogdum, hver bref einn hollendskur skyllde frambera, en þad hindradez í Þydskalande og urdu so brefen sídar uppvís. Þetta nefna dómendur í Oddeyrardóme, ad hann hafe viliad giora landed og landsens innbyggiara med ser fráfallna og under annarlega herra drága sem þar má lesa. Biskup Marteinn var á Hólum í vardhallde í þann tíma; þeir og Síra Arne báder; Var feingenn madur sá til er Steinn het, ad gæta biskupsens. Eitt sinn komz biskup út, og geck af stad og yfer um Hialltadalsá og stefnde uppí dal þann er heiter Vindárdalur, villde so komaz fram í Skaga-



*] Og gøng. á. lofte. af múr og kyrkiu.

fiørd. Enn þad vanst ei og vard þegar vart vid burtfør biskupsens og rided og runned epter honum og nádez hann á dalnum, og var þá lítt til reika ad *) fótabúnínge. So var biskupeñ aptur heimfærdur og í sterkara vardhalld settur: Þá kastade biskup Jón fram stoku þessare.

Biskup Marteinn brá sitt tal
burt hlióp hann frá Steine
vasade fram á Vindárdal
vard hønum þad ad meine.

Nockru sídar var biskup Marteinn látenn nordur til Mødrufells til Ara. Are hellt hann vel og hafde hann tídum vid olskap hiá ser þegar menn komu og Are veitte. Are var hofdínge mikell og marger hluter vel gefner. Þad segia menn ad Ara hafe nockud ofboded morg uppátæke fodur síns, en þótte miked frá honum ad gánga í hañs alldurdóme, en gat þó ei hann stilltann. Eitt sinn veitte Are og sat biskup Marteinn vid borded. Þá drack Are biskupe til og qvad vid raust þá gømlu stoku:

Svo er mer gott og gledesamt
því velldur þá
mig lángar úti **) løndenn
med þá jungfrú.

Biskup tók vid staupenu og qvad aptur sama erende, en snere nockrum ordum:

Svo er mer íllt og ángursamt
því velldur þá

mig

*] Fatabúninge. adrer: Lítt til reika ad klædum og fótabúninge.
**] Lundinn, án efa rettara.

mig lángar ecke í løndenn [nú]
med jungfrú.

Þá þycktez Are vid og mælte: **Burt burt í seckenn, í seckenn; þetta giordu Eyfirdingar adur.** Geck þá biskup undan bordenu. Síra Arne var á Hólum í hallde sem ádur, voru þá kallader prestar heim til Hóla ad bannfæra Dada í Snóksdal. Biskupe þótte einn prest vanta til þeß embættes, og villde hann Síra Arne være med þeim, í þessu starfe. Eñ Arne villde ei, var þá bannsúngenn Dade Gudmundsson á Hólum á hinn áttadag fyrer messu, líst sídan hanns banne vída um Island. Epter þetta er talad ad biskup Jón hafe láted herda veitíng og vardhalld vid Arna prest, og hafe vered beygdur nidur under smiorpalle í búre, so sem erende siálfs Jóns biskups hermer:

Hann var sídan halldenn midur
helldur tók ad kárna fyrer Arna
þreyngdur under þverpall nidur
þá *) tók bæde bríost og kvidur
med sídum sárna.
Symer bæta og þessare vid:
þeir festu uppá hann fúlann kopp
sem fanz hiá bauga skordum.

Epter þetta kom kvinna prests Síra Arna og feck hann lausann og lagde út ótæpt af silfre er hún med ser hafde, en Arne lofade trigdum og vera ei í mótfalle vid biskup Jón. Vard missætte med þýdskum monnum og Alexius ábóta í Videy og komu

*) Nam.

komu þeir þángad þá sídar ad óvoru og ræntu klaustred, en hrottu þá menn er fyrer villdu standa. Þetta frette biskup Jón nordur. Aumkade hann þetta miøg ad einge vorn være fyrer á landenu edur um kríng landed og kvad. þá vísu:

Sunnan ad segia menn,
Sundklaustur halldez laust
Þydsker giøra þar rask
þeige gott í Videy
ølldin hefur ómilld
Ala bruggad vondt kál
undarlegt er Jsland
ef einge retter þad slíett. *)

Aller Lútheranisker voru útrekner af Frankaríke sosem adrer kettarar og villumenn. Var kóng Christian odrum feinged milldara fángelse, epter því sem keysare Carl óskad hafde, var honum þá fylgt frá Sonderborg til Callundborgar og skyllde þar fá underholdníng, þar talade kóng Christian þridie vid hann og hertoge Hans til Assens og lofade honum betra hallde, hvad hinn fángne giarnan þackade, voru þar tilsetter 8 edur 9 herramenn hann ad annast, og þar hellt hann eitt furstalegt bordhalld, og skyllde meiga á dýraveide. Eitt sinn reid hann frá þeim og hvarf so þeir leitudu hanns leinge, þar til þeir fundu hann; Hann og þeir giordu ser ad gaman, so hann hafde giort þetta af kátinu. Sídan fór hann ei oftar á jagt, var og þá af elle þvíngadur so hann hafde ei stóra girnd þar til. Hann var til Callundborgar þar til hann deyde, 16 ár og 7 mánude anno 1559, og gret þegar hann frette, hanns frænde kóng Christ-

*] Þeß slíett.

Christian 3die være látenn sagde og sin æfe munde nú ei løng sem og skede. Hann andadez epter á Pálsmessu aftan. Paulus páve deyr, þridie: Julius 3die kemur í hanns stad árez seinna og ríkte 5 ár. [Um sídare heimreid Jóns biskups og afturkomu hr. Marteins til Skálhollts refert ad hunc annum D. E. S.]

Anno 1550 Lauritz Muhle hyrdstióre á Islande, Christian skrifare hanns umbodsmadur. Erlendur logmadur samt sunnan og austan. Biskup Jón kemur Þorleife Pálssyne frá logmannsdæmenu, þreynger Ara inn aftur í logmanns stiett. Um þenna tíma hellt Olafur prestur Hialltalín Laufásstad er biskup Jón hafde honum veitt, hafde hr. Olafur medteked utanlandz, Lútheri lærdóm [því hann geckst vid í Danmorku og Noreg, seinast þá Olafur var þar] vígde biskup Jón hann til prests og feck honum Vesturhópshóla og var hann þar 2 ár og fell honum þar lítt bústadur og búskapur. Tók biskup Jón hann þá heim til Hóla og var hann þar kyrkiuprestur nockur ár og um þann tíma þorde Olafur prestur ei í framme ad hafa annarlega kenníng, helldur þad sem ádur plagadest, allt þar til hann feck Laufásstad, þá giører hann sig augliósann ad fylgia fram Guds orde hreinu og klárn og bannar ad trúa á helga menn Petur, Pál, Marin edur adra hverier sem eru; flýgur þad strax fyrer biskup Jón, verdur hann þá ákaflega reidur og stefner þíng í Eyafyrde og bodar Olaf þá þángad. Þegar Olafur veit þetta, tær hann ser assokunarmenn ad bera sig undan þessu og menn mege þá gomlu kenning hafa fyrer honum, og kemur svo til stefnunnar. Sem nú biskup Jón fornam Olaf prest her um saklausann, tekur hann sitt hofudklæde ofan og seger gude lof, ad

 sodd-

so'dan persóna hefur ecke villt fared í sínum kenníngum, skilia si an allda viner, og rídur hver á sitt heimile. At litlum tíma lidnum kemur enn qvíttur fyrer biskup Jón ad Olafur se sannur ad sok þess tiáe ei ad þræta hann fyrerbióde ad trúa á helga menn: Reidest biskup enn miklu framar og stefner aftur þ'ng og geingur þá máled á Olaf, er hann þá rekenn hardlega út af kyrkiunne, verdur fótur hanns fastur í gáttenne og lestez illa, og bar hann þad mein til daudadags. Flýr sídan Síra Olafur á fioll sudur vid annann mann og bídur þar epter Þorleife bónda Grímssyne, frá Modruwollum og rídur hann med honum sudur á Straum á Vatnsleysustrond. Þar lá skip og sigler *) þad fram í Danmork og seger hvad til tídenda se á Islande. Marteinn biskup se í hallde hiá biskupe Jóne á Hólum edur hiá syne hanns Ara en segez vera útrekenn frá sínu kennemanns embætte og þore ei ad halldaz vid á landenn, fyrer þad hann vilie hreinu Guds orde framfylgia. Verdur þá kong Christian 3die reidur slíku og fleiru er hann fann til vid biskup Jón og hanns bref herma híngad í landed send, og eru þá búenn stríds skip til Islands og menn tilfeingner. At því áre kom út kóngl. Mayts. bref Dada Gudmundssyne og Petre bónda Einarssyne tilskrifad ad veita styrk Lauritz Muhle, ad taka biskup Jón 1550.

Vier Christian med Guds nad heilsum ydur Dade Gudmundsson og Petur bonde Einarsson á voru lande Islande æfenlega med Guds og Vorre nád. Vited ad sem þer fyrer nockrum tíma lidnum sídan

*] Þadan.

an hafed Oß tilſkrifad um þann ſtóra órett ſem biſkup Jón ſem er nú biſkup í Hólaſtiſte ydur giort hefur í móte islendſkum logum og rette því hoſum Vier nú tilſkrifad Vorum elſkulega Lauritz Muhl ad taka fyrnefndann biſkup Jón og hann ad láta ſo forvara ad hann ecke framar meir ſkal nidurþrycka ydur edur kúga Vora underſáta ſem her til er ſked. Því bidium Ver ydur og biódum, ad þer fyrrnefndum Lauritz Muhle tilhiálp og adſtod veited ad grípa fyrr nefndann Jón biſkup uppá, þad ver ecke ſkulum til þreyngiaz ad ſkicka einn framande hóp líds, hvad ecke kann ſke án hættu og almúganum til ſtórs ſkada og fordiarfs. Her vited ad retta ydur epter og gleimed því í eingañ máta. Gefed á Vorn ſlote Nyborg mánudagen næſtann epter Sancte Pálsdag Converſións ár 1550.

## Under Vort Signet.

Þetta bref kóngſens og onnur fleire hughreyſta Dada Gudmundsſon og adra Iſlendínga þá ſem þad vilia giora ad taka ſig uppe í móte biſkupe Jóne, þar þeir viſſu nú ad reide kóngſens Chriſtians lá á honum, og *) villdu ei lída hanns yfergáng bæde vid andlega og veralldlega ſtiett. Biſkup Jón rídur þetta ſumar med fiolmenne til alþínges og þadan í Skálhollt, vilia menn ſegia hann hafe þar vered kiorenn til yferherra, og umſiónarmanns ſtigteſens, og ſetur hann þá þar nidur alla þá gomlu ſidu og rídur ſudur til Videyar til ábóta Alexius og ſkick

 ar

*] Villdc.

ar þar skule allt halldaz, sem fyrr var á dögum biskups Ögmundar. Vestur þadan rídur biskup Jón allt til Helgafells klausturs þar hafde ei ábóte vered sídan þad var veitt Claus von Merviß, og deyddur var fyrer hanns ofbellde rán og manndráp. Þar setur biskup nidur gamlann ábóta sem Narfe het. Hann hafde þar fyrr vered og skipar ad hallda þad gamla. Um sína alþíngesreid kvad hann þessa vísu.

Þesse karl á þínged reid
þá med marga þegna
so gegna
øllum þótte hann ellediarfur
Íslande næsta þarfur
og miked megna.

Um Videyar reisu sína qvad hann:

Víkur hann ser í Videyarklaustur
vída trúe eg hann svamle
hinn gamle
vid danska var hann diarfur og hraustur
dreifde hann þeim á flædarflaustur
med brauke og bramle.

Frá Hellgafelle rídur biskup Jón og syner hanns tveir Sera Biorn og Are logmadur í Bredafiardardale ad Saudafelle, þar hafde Dade Gudmundsson bú, en sat í Snóksdal, villde biskup giora búed upptækt og fe Dada, hann være í banne og ei fiár síns rádande, fyrr enn úr því være leistur af ser edur pávanum í Róm. Er so mællt ad Dade hafe rided til fundar vid þá fedga í fyrstu til Saudafells med LXXX menn og boded bisk-

up

upe Jóne sætter og eiga qvírta fiár upptekt ad Saudafelle og svo villde hann fordaz [epter því sem hanns áhángendur látaz nú segia] mótgiørder vid biskupenn ef þeir skylldu þá vel, þá mællte Síra Biorn: nú er vel boded fader minn, biskup mællte: ertu hræddur Biorn frænde? nei herra qvad Biorn, en um fleira er ad hugsa enn ákefd eina. Dade sagde þá, se svo ei náez sætter, skulud þer siá mig og pillta mína innan skams, her á Saudafelle. So reid hann í burt og sópade ad ser monnum, kom svo aptur med fiolmenne albriniad; þar voru og med skittur nockrar, er þad mællt þeir hafe aller tvíment, nedan epter dalnum so minna skyllde sínaz lided, og hafe so vered hálfu meira enn hestarner. Biskup og þeir fedgar vóru fyrer og var ei biskups lided komed margt nordan ad, helldur var þar med mannfólk úr Borgarfyrde, og um þad talade Are vid fodur sinn ad ei være margt þeirra eigenlegra manna og villde senda nordur epter fólke, ef hann villde ei undan snúa, en biskup sagde ad Borgfirdíngar síner dygde leinge vel. Dade kom þá heim med sitt lid og stíga af hestum sinum, enn biskups fólked var í kyrkiugardenum. Dade sagdez þá einga óhlutvendne eda árás, vilia giora monnum er frágeinge og ei fyllte þann flock ad ræna fe sínu og fongum med fleirum ordum er hann þar um talade, ad menn skylldu umþeinkia hvad epterkæme eda koma munde. Epter þetta geingu Borgfirdíngar úr kyrkiugardenum og villdu taka rádslogun sína útá vellenum, hvad best være og hugdu nockud ei mundu so skiótt áráser verda af Dadafólke. Þá bióst flockur Dadamanna til áhlaups, og var þá þunnskipad í gardenum, en gardurenn næsta vídur, en ei vel hár i ollum stodum. Mællt er ad madur biskups Jóns edur med biskupe Jóne hafe einn madur vered sá er Gísle het og var Finnbogason karlmenne-

 miked

miked og hellt þá á bissu og mællte til Biskupsens: Skal eg skióta til Dada herra? Eg se hann nú med rauda fiodur í hatte, má vera eg gete hann nú vel hitt. Ei skalltu skióta sagde biskup Jón. Þá ber eg mig ad láta þá vita eg hafe getad hitt hann fyrer sagde Gísle, og skaut þá burt framan af fiodrenne. [Gísle þesse Finnbogason var módur módur fader herra Þórláks biskups Skúlasonar] Hiuggu þeir þá og logdu til biskupsmanna. Lidsmunur var næsta mikell og bárust sár á nordanmenn, og kómust Dadamenn í gardenn hrucku hiner þá frá, fór biskup Jón þá í kyrkiuna og innar ad alltare og voru breidder fyrer hann þófar, því þá var skoted á framkyrkiuþiled þiett, feingu marger menn þá stóra áverka, og gáfu biskupsmenn þá upp vornena og geingu til grida med handsale vid Dada. Enn Borgfyrdíngar hofdu rided um þann tíma burt og gáfu sig alldrei aptur inn í gardenn þar slaged var. Sídan var biskup Jón handtekenn og þeir syner hanns Síra Biorn og Are logmadur og flutter til Snóksdals og þar sterklega vardveitter, en nordanmenn ridu sínar leider heim, hver epter því sem fær var fyrer sárasaker. Olafur Tumason er sídar átte Hallgrímsstade í Skagafyrde, og þar bió leinge og deyde einnen þar, var þá úngur madur og smásveinn biskups Jóns hann feck morg og mikel sár, villde hann ætíd gefa sig fram fyrer biskupenn, og var miog skylldur hanns bornum. Þóra Olafsdótter var móder hanns, dótter Helgu kvinnu Jóns biskups, því vóru þeir Biorn prestur og Are logmadur, módurbrædur Olafs sammædder. Olafur lá leinge í sárum. Sender þá Dade sudur til Bessastada til fógetans Christians skrifara, ad segia honum hvernen komed er, bidur hann ráda og vidtoku um þessa fánga, og hann mune vita kóngsens vilia ad biskup Jón skyllde takaz

ſo ſem hann hafe hyrdſtióranum Lauritz Muhl tilſkrifad og befalad. Enn Chriſtian ſe nú í hanns ſtad ſettur. rídur þá Chriſtian ſkrifare nordur í Dale, med ſínum monnum til Snóksdals og afhender Dade honum þar biſkupenn og hanns ſyne, er ſo mællt ad þeir hafe í hallde vered í Snóksdal *) VI vikur alls.

Rídur nefndur Chriſtian þadan og ſudur í Borgarfiord, med þá fedga og ſo þadan í Skálhollt. Dade var med og var þetta um allraheilagra meſſuleite, var þá ei annars koſtur af þeim Danſka ſkrifara enn biſkup Jón og hanns ſyner værn af líſe tekner, var hann þá hræddur þeirra munde vitiad, og því let hañ þá ei fara til Beſſaſtada. Ei hoſum ver heyrt hann lete dóm yfer þá gánga, helldur med haſte nockrum tilhrada ad þeir líflátner yrde í ſenn epter hátídena. Ordaſkil þeirra fedga hafa ei ſo ollum borez þá þeir vóru aftekner, hver ver meínum þó allgód vered hafa en þó óſeilen uppá karlmannlega víſu og hreyſte.

Þad er mællt ad heſtamadur Ara logmans hafe medfylgt í Skálhollt, og hafe Are komed bodum til hanns ad hafa vid heſt ſinn, þá út være geinged, þegar þeir aflífaz ættu, og ſo giorde madurenn. Are ſá heſtenn því hann var andkendur fyrer vaxtar og atgiorves ſaker. Are hlióp úr flockenum og ad heſtenum ſídan á bak í hordum ſvip og einu atride. Hydde hann þá fæte í heſtenn og **) hraut þá heſturenn áfram, því heftíngurenn var ei aftekenn. Stock þá Are af bake aptur og í veg til fólkſens og voru þeir þá nockrer á leid komner ad vitia hanns, ſagdez Are hafa giort þad til ſýnes, ei þad ſig hefde lángad, frá fodur ſínum og brodur, var þá geinged til af-

toku-

*] 3 vikur og 2 daga.
**] hnaut.

tokustadarens. Þá mællte Are: Skal her stadar nema? Miñ herra! Já sagde Christian skrifare. Are mællte; Svei þer þinn prackare, alldrei kallade eg þig minn herra, helldur talade eg til míns Drotteñs og Herra, sídan vóru þeir fedgar aller þann dag af líse tekner. Þesser fedgar voru merkeleger menn í mörgum greinum og í öllum manndómlegum háttum vel á sig komner, er margt afburdarfólk og gofugt her á lande af þeim komed, bæde karla og kvenna. Biskup Jón hefur og vered hid besta skáld á hanns dogum. Hann ordte þann merkelega kvedlíng er hann nefner Píslargrát, um pínuna vors Drotteñs Jesu Christi og er þad kvæde epter rituíngunne án allrar hiátrúar rett ómeingad, er þeir segia biskup Jón hafe kveded skamt fyrer sinn dauda. Item hefur hann kveded þad kvæde, er menn kalla Davidsdict og í þeirre prentudu Vísnabók stendur, hann hefur og ordt margar adrar vísur og er þetta ein er hann mællte fram einn vetur er menn komu til hanns og hann þóttez ei miod edur mungát fyrer hende hafa, sínum gestum ad veita:

Til hefe eg tabl med spilum
tölur sem legge *) eg völur
skák med skösnum hrókum
skiótt og kotru hornótta
hörpu helldur snarpa,
hresta med girnis neistum
**) Phón med fögrum sóne
feinged §) til likta med streingium.

Are

*) Og. **) Simphon it: Simfún.
§) Lyklad.

Are son hanns var hofdinge mikell og miog vitur madur *] til logmanns kosenn. Hann átte Halldoru dóttur Þorleifs Gríms-sonar á Modruwollum. Þau áttu twær dætur Helgu og Þóru. Þóra giptez Jóne Sigurdssyne í Christnese, nordur í Eyafyrde. Helga Paule Jónssyne á Reykhólum, sýsslumanne yfer Isafiard-ar sýsslu. Þeirra born Petur Pálsson á Stadarhóle. Hanns son Biarne Petursson. Elen Pálsdótter átte Biorn Benedict-son, þeirra son Magnús Biornsson logmadur. Enn dætur Sig-ridur og Gudrún. Ragneidur Pálsdótter átte fyrst Gissur Þorláksson, þeirra syner Jón og Magnús, sídan giftez hún apt-ur Síra Sveine Símonssyne ad Hollte í Onundarfyrde á Vest-fiordum. Þeirra syner Síra Gissur á Alftamyre og Mag. Brinjólfur Sveinsson, biskup í Skálhollte. Fleire syne og dætur átte biskup Jón sem gofugt fólk er út af komed. Síra Biorn var og miked mannval. Hann átte morg born epter og voru þá úng. Þeirra móder var Steinun dótter Jóns bónda frá Svalbarde Magnússonar, Þórkelssonar prests Gudbiarts-sonar. Steinun var kvennval miked, Jón var sonur þeirra, Magnús, Teitur, Are og Biarne; dætur Ragneidur og Halldora. Ragneidur móder Biarna Sigurdssonar á Stockeyre. Um folks fiollda á Sandafelle þá biskup Jón var fángadur og aftoku þeirra fedga, skrifar so Arild Hvítfeld í stytsta mále:

" Enn ádur enn kóngs skipenn kómu til Islands þá var bisk-
" up Jóne til sinnes ad þrínga under sig Dada Gudmundsson,
" mág biskups Marteins og verda herra yfer ollu landenn, kom
" so vestur med 500 manns, Dade hafde 300, og skrifar Arild,
" Dade hafe haft lánga áminníngar rædu til biskupsmanna, um
" ad brióta ei á sér log med odru fleira er hann tilfann, sídan
" hafe fólk frá biskupe burtgeinged, en þá lided geck frá biskupe-



*] Til logmáls.

" num og Dade sá ser fære, fángade hann biskup Jón og hanns
" tvo syne, færde þá í Skálhollt og rádgadez um vid kóngsens
' fógeta Christian skrifara hvad best være afrádande? og redez
" þad af ad biskup Jón og hanns tveir syner véru hálshøggner.
Ehort hinn Norske skrifar í sama máta her um:
" Biskup Jón stundar epter ad koma, under sig øllu Is-
" lande med hardráde, enn hann var um sider fángenn og af
" Kongel. Mayts. lieusmanns befaling med tveimur sinum son-
" um hálshøggvenn. Biskup Jón og syner hanns Síra Biørn og
" Are, voru greftrader í Skálhollte á Kórbake 7 nóttum epter
" allraheilagra messu sem var 8 Novembr. Enn um veturenn
" epter Pálsmessu vóru sókt lík þeirra fedga og uppgrafenn í
" Skálhollte og flutt nordur til Hóla og aptur greftrud ad dóm-
" kyrkiunne ad Hólum. Þetta liet giøra Helga kvinna biskup-
" sens, Steinun Jónsdótter kvinna Síra Biørns og Þórun bisk-
" ups Jónsdótter á Grund, þær senda kistur og anann umbun-
" ad med fiølmenne sudur ad flytia líken nordur til Hóla og þar
" ad kyrkiunne greftra:

Veiddez í Eyrarsunde einn undarlegur fiskur hañ færdez til Kaupenhafnar til kóngsens. Hann hafde mind sem manns hofud og á hofdenu sem múkakrauß, en hafde húd af skielium ad mind sem múkakápa, og let kóngurenn sama fisk uppmála. Epter Kongel. Mayts. befalningu útleggz í Danmork Lútheri Þýdska Biblia á Donsku, og sídan á Hans Kóngel. Mayts kostnad prentud. Pestilentia allstadar í Danmork, burttók marga. Jubil ár hellz í Róm. Kóng Christian sende grótzfurstanum af Mosen eitt kostulegt figurverk, enn hann kunne ei þar uppá og sende þad aptur. Franska kóngsens hrædeleg befalíng móte Lútheraniskum, eins líka og keysarans í Nidurlande. Vid Mersburg í Saxen rann ein kellda med blód. Júlíus páve þridie 5 ár 1 mánud 16 daga.

Anno

Anno 1551 þeir fedgar biskup Jón og syner hanns voru miog harmader af alþýdu manna um nordurlanded og bar so vid um veturenn ad vermenn ferduduz sudur og heyrdu þeir þær rædur og ummæle af almúgafólke ad eingen hefnd skyllde koma epter slíka menn, sem biskup Jón hafde vered og syner hanns og nú fære aptur nordlendíngum. Einnen var þetta ta'ad um sudursveiter, ei sídur af kvennfólke enn karlmonnum. Þetta þótte nordlendíngum sem sudur veru illt ad heyra og skapraun og geimdu þetta í gede sínu um veturenn, þar til vortímenn leid af. Sídan tóku sig saman med sambande nær 30 menn og ferduduz til Kyrkiubóls *) á Midnese, þar var þá í sinne nesiareid fógetenn frá Bessastodum Christian skrifare med sínum moñum, þeir tóku hann og aflífudu og alla hanns menn einnen hanns únga son sem het Balldvín. Þeir hofdu uppe þá hina donsku menn hvar sem þeir voru um Sudurnes. Alls drápu þeir 14 menn, letu þetta heita hefnd epter þá fedga, og er þetta kallad Danska slag. Þesser menn urdu sídan landflótta marger og voru þeir 16 er í England sigldu. Marger letu og úte stór fe. Síra Sigurdur á Greniadarstodum sonur biskups Jóns fór til Hólastadar, sem í arf setiandez epter sinn fodur og rede hann þá ad nockru leite fyrer á Holum. Síra Biorn Gíslason var tilkiorenn ad vera vicarius Hóla biskupsdæmes og umbodsmadur dómkyrkiunnar vegna, tók sig þá upp Síra Sigurdur med margann mann móte sumarmálum sem fyrr er áhrært og reid í Skálhollt og sókte líkame þeirra fedga, og láu þeir þar í jordu frá 8da Novembris fram ad sumarmálum. Vóru þá líkenn sett á kviktre og festar vid tvær smákluckur og biollur svo síhríngt var þá borurnar hrærdust, so voru og stórhríngíngar á kyrkium þar sem þeir um fóru. Þeir ferdudust med líkenn

 til

*] I Garde.

til Hólastadar, og vóru þeir grafner ad messu á midiu kyrkiugó fe yfer frá capellu. Kallar Síra Biorn saman um vored til Hóla, heim á prestastesnu mánudagenn næstan §] epter tveggia Postulamessu lærda menn. og nefner þá í dóm, um peníuga epter biskup Jón. Þar var Thómas bróder, ábóte á Múkaþverá, Jón Matthiasson, Gottskálk Jónsson prestur. Enn 20 voru þeir. Þeir dæma ad biskup Jón mege erfaz, þar hann ver ecke vígdur bróder edur ábote og segia biskup Gottskálk hafe erfdur vered og þar um *) seu gerder med erkebiskupsráde og segia þeir Síra Sigurdur hafe reikníng gert og staded kyrkiunne, og ad auk hennar inventariis være samanreiknad, nær XII: Hundrud Hundrada sem aukez hafde, og þar ecke íreiknud Ornamenta innan kyrkiu, og þar af mættu erfíngiar egnaz fiórda partenn, hitt gánge í skullder med þeim fleirum adhuígande greinum sem þeir í dóm innsetia á Holum.

Ormur Sturluson verdur logmadur fyrer nordan og vestan á Islande, en Erlendur samt fyrer sunnan og austan. Thorleifur Pálsson fæst nú ei til logmann ad vera, þar honum var ádur frá viked fyrer magt biskups Jóns. En Are logmadur innsettur aptur. Um vored komu út tvo strídsskip fyrer nordan á Eyafyrde vid Oddeyre, send af kóng Christian 3ia ad sækia biskup Jón og syne hanns, á þeim vóru þeir tveir herramenn, Christopher†) Trúndson hofudsmadur til **] Ophilhollt, og Axel Júl til Vildstrup. Var þá biskup Jón og þeir brædur deydder sem ádur seger, samt klogudu þeir herramenn uppá þá og þeirra giorninga kóngsens vegna og var sett fiórdúngs þíng ad Oddeyre af Orme logmanne Sturlasyne fyrer nordan og vestan á

§) Fyrer. *) Same giørdur.
†) Tindzen. **) Ephilholt.

á Íslande. Var og sendt strídsskip fyrer vestan, segia Íslendíngar ad alls hafe send vered 4 skipenn, en Arild Hvítfelld helldur þad ecke. Otthe Stígsson var fyrer sunnan skipum, her um skrifar Arild:

" Sende Kóng Christian 3die 1. orløgskip og á Axel Júl og
" Christopher *) Trúndson til Ísl. nds fyrer nordan og Ottho
" Stígsson med eitt fyrer vestan. Þeir høfdu 500 manns med
" ser og var befalad ad fánga biskup Jón og hanns syne og færa
" þá fram og leysa biskup Martein, og hann aptur innsetia.
" Sømuleides ad taka hylling af Íslendíngum, med gódu edur
" hørdu, koma þeim til hlídne. Enn ef so være þeir kynne
" ei ad fá biskup Martein lausann edur hann være under lok
" lidenn, skylldu þeir setia einn annann biskup her inn, sem fram
" villde fylgia þeirre ordinantiu sem kóngurenn hafde láted til
" landsens senda, sem þeirra bestillings bref framar útvísar. Hann
" skrifar og líka til Dada Gudmundssonar í Snóksdal, Erlende
" Þórvardssyne løgmanne sunnan og austan á Íslande, Pále
" Vigfússyne á Hlídarenda. Ejólfe Einarssyne í Dal, Byrne §)
" Ejólfssyne á Ketelstødum, Byrne Jónssyne á Eivindará, Þór-
" leife Grímssyne á Mødruvøllum, Þorsteine Finnbogasyne ad
" Hafrafellstúngu, Jóne Magnússyne á Svalbarde, Orme Jóns-
" syne ad Draflastødum og Eigle Jónssyne ad Skarde; þackan-
" de þeim ad þeir høfdu þar til vered holler og trúer, undersát-
" ar og hlíduger, girnandez framveiges ad þeir skylldu so vera,
" og vera hanns tilsøgn heiruger og hlíduger mót biskup Jóne,
" þad skyllde og med allre nád verda medkennt. It. þegar
" þeir herramenn Axel Júl, Christopher Trúndsson og Ottho
" Stígsson til landsens komu hafde Dade útrett þeirra erende;
" sídan innsettu þeir Olaf Hialltason til biskups í hanns stad, og
" hann med prestum, løgrettumønnum, sysslumønnum og øllum

 almuga

*) Tindzen. §) Erlendssyne.

" almúga, fyrer nordan í Hólastigte hylltu og sóru kóng Christ-
" ian og hanns son hertug Friderich, og framsendu þeirra hyll-
" ingar bref, hvar inne þeir um alldur og æfe pligta sig til ad
" vera, under Dannerkur krónu epter því sem Hanns Mayst. hef-
" ur landenu náduglegast tilgefed þeß yfersión. Þad bref út-
" gefed á Oddeyrar þinge dag 15 Jún. 1551. J sama máta
" skrifar Marteinn Einarsson biskup, prestum og løgmønnum,
" løgrettumønnum, sysslumønnum. Allur almuge fyrer sunn-
" an og austan í Skálhollts stigte sór sig under kóngsens hollustu
" og Dannerkur ríke á Oxarárþinge, Odensdagenn epter Petri
" og Pauli 1551. Eirnen í sama máta, edur um þann tíma
" dæmdu løgmenn, sysslumenn og bændur fyrer nordan, Biskup
" Jón og tvo hanns syne Síra Biørn og Ara fyrer landráda-
" menn og þeirra góts fast og laust under crúnuna, þó epter is-
" lendskum løgum fyrer á sett gialld á Oddeyre sem fyrr seger
" og þar epter sigldu kóngs skipenn fram. Síra Olafur Hiall-
" tason var med þessum herramønnum sem her getur. Þeir
" letu hann ráda Hóla biskupsdæme, sigldе hann med þeim og var
" útvalenn til biskups og vígdur um veturenn epter. Heyra
" letu Nordlendíngar nockrer þad á ser og villdu hafa Síra
" Sigurd son biskups Jóns kiøred til biskups, ecke villdu herra-
" mennerner þad, óttudust hønum munde í kyn kippa, hvad hann
" þó alldrei ásynde." Thort Axelsson skrifar so: " Biskupar
" af Jslande og adrer yfermenn hylltu kóng Christian og hanns
" son Friderich, og tilsegia kóngenum af Danmørk æfenlega und-
" ergefne og hlídne. Kóng Christian skrifar Dada Gudmunds-
" syne til med þessum title, Vorum elskulega Dada bonda
" Gudmundssyne í Snoksdal ai Voru lande Jslande
" &c. &c. og bidur hann ad mótstanda biskupe Jóne, en styrkia
" sína befalíngsmenn.

Christian med Guds naad Vor gunst tilforna.
Vited ad Mer fyrer uan efa vitanlegt er hvernen ad sá
óheyr-

óheyruge biskup Jón fyrer nordan hefur griped og fángad, Vorn Superintendent fyrer sunnan og uppgrafed þann Superintendent sem ádur var fyrer sunnan og láted hann grafa utan kyrkiugards og sett einn af Vorum logmonnum af sínu embætte og sett einn sinn son í þañ stad til logmanns, med margre annare ótilbærelegre skickan, sem same biskup Jón í móte Oß giort hefur, þá epter því Vier fornemum ad þú hefur alltíd breitt og skickad þer vid Oß, og Vora fógeta og þeirra fólk sem einum trúum og hlídnum undersáta ber ad giora, þá bidium Vier þig og vilium enn nú, ad þú skicker þier her epter sem einum trúum undersáta ber ad giera, og sierdeilis bidium Vier þig, ad þú siert og Vorum befalíngsmonnum, sem Vier látum nú med Vort strídsfólk tilskickada verda heyrugur, hlídugur og fylgesamur í hveriu þeir þig Vorra vegna tilsegiande eru og alldeiles einga hiálp edur hiástod veita fyrrnefndum biskupe edur hanns fylgiurum í nockurn máta. Vier vilium vera þier einn nádugur og milldur herra og kongúngur og láta þig hallda vid log og rett og eige tilstanda ad þú fáer nockurn órett. Her veitstu þig epter ad retta og gleim því í eingan máta. Befalande þig Gude. Skrifad á Voru slote Flensborg, Thorsdagen næstan epter suñudagen Qvasi modo geniti áred 1551.

Under Voru signete
CHRISTIAN.

Um

Um Oddeyrar*) dóm edur hyllíngarbref er þad einfaldlegast sem Arilld Hvitfeld skrifar og ádur er nefnt, en þad er lángordt bref inn ad setia; Er þar fyrst fyrerskrifadur Olafur Hialltason biskup á Hólum, Thomas Eiríksson ábóte á Múkaþverá, Sigurdur Jónsson officialis og prestur á Greniadarstodum, Gottskálks Jónsson, Torfe Jónsson, Jón Matthiasson, Loptur Petursson prestar, Ormur Sturlason logmadur, Þorsteinn Fiñbogason, Þórleifur Grímsson, Paull Grímsson, Þormódur Arason, sýslumenn, Jón Magnússon, Ormur Jónsson, Einar Brinjólfsson, Magnús Biornsson, Gísle Hákonarson, Gísle Jónsson, Þórbergur Bessason, Eivindur Gunnarsson, Hallur Egilsson, svarner logrettumenn; Nicolaus Þorsteinsson, Vigfús Þorsteinsson, Grímur Þórleifsson, Magnús Jónsson. Þad bref útgefed, skrifad og innsiglad á Oddeyre Mánudagenn næstan epter Stæ, Barnabæ Apostoli sá sem er 15de dagur Júnii. Innehalld Oddeyrardóms er her og ádur fyrre. J þeim dóme vóru bestu menn, úr nordlendínga fiórdúnge 24 ásamt Orme Sturlasyne logmanne. Þeir nefna þar á medal annara ótilbærelegra hluta, ad biskup Jón hafe giort móte þeim eide og hollustu og mannskap sem hann hafe láted gánga og svared med brefe Kongel. Mayst. med einum hanns syne Síra Sigurde Jónssyne og Isleife hanns mage og Olafe Hialltasyne, hanns eigenlegum preste. Item ad biskup Jón og 2 hanns syner med ofurvallde og magt hafe griped og fángad og órólegann dóm láted yfergánga Hr. Martein Einarsson á sínum egeñ garde sem kóngurenn hafde tilskickad med brefe og innsigle ad vera myndugur biskup og superintendent í Skálholts biskupsdæme. Eirnenn geta þeir ad hann hafe og Are hanns son, inrided med valld og magt á eirn gard, sem heiter Hvammur, og á einn

*) Eid.

eim crúnunnargard sem heiter Biarnanes, og þadan á burttakande crúnunnar góz og burtflytiande, sem Kóngel. Maystæt hafde veitt og lieñt Brinjólfe Jónssyne og penínga Dada Gudmundssonar í Hvamme; greina þeir og í dómenum ad þeir hafe boded mál þeirra fedga þeim Jóne Magnússyne og Þorleife Grímssyne ad forsvara, sem voru forsvarsmenn barna Ara og Biorns sona biskups Jóns og hafe þeir þad afsagt. Þesse dómur med hanns hordu álíkríng er til, vil hann her ecke innsetia. Skilst mer so sem Hvammsreid þesse, ad kóngenum mune hafa þótt ad biskup Jón hafa feinged æred nóg af Teitz gózum og eignum og skickad þeim Brinjólfe og Dada ad raka ad sier penínga í Hvamme epter Teit Þorleifsson andadann, en biskup Jón hefur viliad allt eiga epter kaupe sínu og griped og sókt fed og penínganna. Geingur dómur á Oddeyre þridiudagenn næstan epter Barnabæ Apostoli Anno 1551. Geted hefur vered ad nefnder herramenn hafe til Hólastadar rided og marger danskir menn med þeim og hafe Helga med fleirum odrum kvinnum og stúlkum, flúed fram á fioll og hallded sig þar um stund. Talast og ad dýrgriper af silfre sem Hólastadur átt hafe, hafe þá fæckaz adrer enn sem Síra Biorn hafe komed í geimslu edur groft. Olafur Hialltason sigler (biskupsefne) sem fyrr greiner, og afhendtu herramennerner honum Danska biblíu sem áre fyrr var prentud í Danmork, og útlogd epter Þydskre biblíu Dr. Mart. Lútheri epter kóngsens skipun ad sá skyllde medtaka og framfylgia sem biskup yrde á Hólum. Othe Stígsson lætur sveria og hylla landed, under kóng á Alþínge, sem greiner fyrrum, og sigler sídan. Kóngs Christians þridia bref kemur í Ísland ad aller prestar seu eigen gifter, og þeirra born oll loglega svo til arfs borenn, og eingenn skyllde þar um þeim

 neina

neina hindrun giora. Miked góts fell under kóngenn epter þessa menn. Liggia þær jarder állvída um Nordlendínga fiórdúng.

Osiandri nýe lærdómur um góðverkenn útspýest. Item um Christum, ad ef Adam hefde ei syndgaz, þá skyllde þó Christur fædaz. Philippus og þeir til Vittenberg straffa Osiandrum hardlega. Francisci Stancori villudómur kemur upp ad Christur er medalgángare alleina epter þeirre manndómlegu náttúru. Þriár sóler og þriú túngl; ýmist bleik edur hvít voru sen í Saxen. Lærdra manna stríd um góðraverka verskulldan. Samband millum kóngsens af Danmork og Svíaríkes um 50 ár.

Anno 1552 var Páll Hvítfeld sendur híngad til hyrdstióra og hann átte ad útretta um kyrkiunnar og skólana sem hann og giorde. Kemur út Olafur biskup Hialltason, til Hóla og bodar nýa sidu fyrer nordan land og fylger vel fram hreinu Guds orde. Settur latínu skóle ad Hólum. Kemur út Danskur skólameistare med Olafe biskupe og het Laurentius. Fer þá Gudbrandur Thórláksson í skóla til Hóla og er þá 11 ára gamall. Kóng Christian skrifar Dada Gudmundssyne til:

**Christian med Guds nád Vor gunst tilforna.**
Vier látum þig vita ad Vorer befalníngsmenn, sem Vier med Vor orlogsskip nú seinast sendum til Vors lands Íslands hafa Oß undervísad ad þú hafer láted þig trúlegann finna

finna í þeim sokum um þann mótþróánlega biskup Jón og hanns sonu og medfylgiara so ad þeir fyrer þeirra misgierninga hafa staded sinn rett, hvar fyrer Vier þer milldelega þockum, bidiande þig enn nú og tilium, ad þú villder umsiá med fyrsta ad þeir mannslagsmenn sem hafa sleiged vora borgmeistara elskulegra og rádsmanna (í Vorum stad Kaupenhafn) þienara í hel, ad hver sem þessa kann yfer ad komaz ad þeir mættu þá strax verda halldner og sídan mættu fá þeirra tilbærelegt straff, ad þú bæde í þessu og í allann annann máta villt láta þig heyrugann finnaz og trúlegann, sem einum undersáta ber ad giora vid sinn herra og kóng, sem Vier þier, vissulega tiltrúum. Befalande þig Gude. Skrifad á Voru slote Guttumborg 5ta Gregorii pávadag, áred 1552.

Under Vort Signet
CHRISTIAN.

## Vorum elskulega Dada bonda Gudmundssyne í Snoksdal.

Má heyra her ad kóng Christian hefur leiged í miklu rúme um þessa menn er urdu fyrer danska slagenu so hiner yrdu fángader og refster. Herunt hefur og til Íslands vered, ad hann hafe og kóngenum af Englande Játvarde hinum 5ta tilskrifad, um þessa menn er þángad sigldu XVI ad þeir tækez þar og væru svo færder í Danmork, en Englands kóngur hafe sagt hann kynne

þad ei ad giora láta, þeir være komner á sínar náder þeir mettu komaz yfer þá hvar sem þeir kynnú siálfer, Mikla skreid á sudurlande og svo adra penínga gulldu þesser menn; nádu so landsvistum. Ei hofum vær heyrt neiner hafe feinged lífstión edur lima. Niels Palladius ordineraft til biskups í Lúnd, af sínum bródur Petre Palladio. Hertoge Mauritz og *) greife Albert, giora samband vid kóngenn af Franckaríke móte keysaranum, Johannes Friderich og Philippus landgreife, gefaz lauser af keysaranum epter 5 ára fángelse. Franske kóngurenn bindur frid vid Pávann.

Anno 1553 verdur Eggert Haunsson hyrdstióre yfer allt Island og syslumadur yfer Gullbríngu syslu, Ormur er þá lögmadur fyrer nordan en Erlendur fyrer sunnan. Í þann tíma bar so vid austur á Islande, bió einn madur er Biarne het, hann átte nockur pilltaborn vid konu sinne, Biarne var hversdaglega gæfur madur og rádvandur. Enn kona hanns sinnes stærre og málhrópssom. Pilltar þeirra voru gáng fráer er þetta bar vid. Þad var máltæke þeirrar konu og hótun vid dreingena, er þeim vard á nockud edur breittu af hennar vilia, ad hún sagdez skera skyllde undan þeim skopenn. Þessa hætte hugfestu sveinarner og nefndu þetta hver vid annann. So bar vid eitt sinn er þau hión voru ad heyverke, en bornen vid hús ad leik sínum ad ýngre pillturenn misþóknadez vid þann elldre, so sá hinn ellste hótade honum ad skera af hanns skop, ef hann gerde ei ad, hinn ýngre gegnde því ecke, og feck hinn elldre ser þá hníf og lagde þann ýngra nidur og skar af honum hanns leindarlim og dó so þad barned. Kom þá móduren ad og sá þá hvad um var, og vard bæde hrigg og reid og

*) Margreife.

og sló dreingenn þann sem barned skadade og vard meira enn hún hugde so þad barn dó og. Epter þad kom Biarne heim frá verke sínu og leit bornenn daud, vard honum þá miog um, er hann visse ad konan hafde sálgad barnenu, en hitt sked af hennar ordbragde, vard reidur og sló konuna meir enn skyllde edur villde og dó so konan. Kom þá hrigd ad Biarna og ángur, sagde monnum allt sem komed være, og idradez verksens. Er so mællt ad hofdíngium landsens hafe litest hann skyllde gánga um kríng Island og á hveria kyrkiu, og berfættur ollum þeim tíma er hann þyllde, med því fleira er þá tídkadez í saungum, því í þann tíma voru skrifter og Carínur á málunú, en ei allrídum feútlát, edur og líka ad þeim þótte ei Biarne fær af landenu ad fara fyrer sorg og vílseme. Biarne þesse geck þrisvar um kríng Island og um síder nam hann stadar í Skagafyrde á Skaga, giftest þar og bió þar, var hann ei vid alþýdu vidfelldenn sem ad siá sísorgande madur. Hann bió til dauda síns margt ár í Efranese á Skaga, áttu þau Arndís kona hanns eirn pillt sem Jón het, hann vard nær 20 ára gamall og bar so til ad hann rere út vid sió í Keblavík (Kelldnvík) þar nidre hiá þeim manne, er Gudmundur het Ottarson og sonum hañs þremur, þeir voru ordskáer og hrakmáler, sem fader þeirra. Einn tíma komu þeir fedgar í land af sió og fluttu Jón Biarnason daudann, sogdu hann brádkvaddann vorded hafa var so madurenn grafenn, en forelldre hanns fell þetta ysred þúngt ei sídur Biarna, var madur þesse og ángradur miog en Jón hafde vered þeirra fyrervinna. Dó Biarne litlu sídar, en Arndís var flutt til Skagafiardar inn. Var Jón Sigurdsson logmadur þá á Reinenesstad, og hafde sýsslu um Skagafiord, hann hafde mál þad uppe, og var tekenn einn

af þeim bræbrum og feckst eckert til sanninda edur styrkíngar málenu, fell þad nidur. En Jón logmadur veitte Arndíse framfære medan hún lifde. Svendur þesse var vesæll og hannsfyner og dóu so á þeim hordu árum litlu sídar sem fleira umfarande fólk. Þad var til merkes um landgáng Biarna ad hann var sífelldlega berfættur og hann geck so hart um griot, sem hver einn madur skófatadur.

Allstadar í Danmork elldur nidurfallenn af himne. Báder skólarner í Kaupenhafn uppgefner frá Laurentius messu til fostu inngángs fyrer því pestilentia yfergeck. Michael Servetus spanskur, sem uppvakte Arrius Villu var brendur til Geneve þann 27 October. Maria var drottníng í Englande 5 ár; innsette pápistaskap aptur, og streingelega, útdreif Evangeliska, Lútherskar bækur brendar til Melen. Hertoge Mauritz var skotenn og deyr 11 Júlii.

Anno 1554 vard Oddur er hinn nordske var kalladur sonur biskups Gottskálks, logmadur fyrer nordan og vestan á Íslande. Ormur Sturlason lagde þá af og so Múkaþverá; Tóku nú riker menn á Íslande, til ad fala klaustur af Donskum og ad fá þau med þeirra jordum því kóngdómurenn villde eigna ser þau gótz og voru þau þá í fyrstu lien fyrer líted gialld. Petur bónde Einarsson feck fyrstur Reinestadar klaustur fyrer nordan fyrer 15 dale, var eitt ár, feck þad sídan Oddur hinn Nordske logmadur; Oddur var lærdur madur, hann let prenta

til

til*) Roskilld þad nýa Testamentum á Islendsku, á sinn egen kostnad og dreifdut bækurnar vída út um landed. Hann let og prenta Corvinus postillu, og var hann þeckur almúganum á Islande, og vel rómadur af slíku. Fyldu þá og biskuparner vel ad um lærdómenn. Let biskup Olafur burttaka og brióta krossa, og líkneske þar sem hann ætlade til vantrúar og áheita munde haft vera.

Elizabeth syster Mariæ drottníngar í Englande sett í fángelse. Johanna Graja, hertugans dótter af Suffoldia med sínum manne Gilberto Dudlejo og fodur Johannæ Henricho epter drottníngarennar Mariæ befalníngu hálshøggvaz. Málmøhar slot med allre sinne eigu tilleggz hertuga Friderich, hvers hoffmeistare var Eyler Hardinberg. Asetnings okur fyrerboded en lídanlegt tilsett. Philippus sonur Carls keysara 5ta tekur Mariam drottníngu í Englande til egta.

Anno 1555 Knútur Steinsson hyrdstióre. Kom mikel bóla á Islande kollud stóra bóla, hún geck um landed áre seinna 1556. dó undra margt fólk; ei hafde bóla genged sídan plágu-na 60 ár. Koma fyrermenn landsens saman á Bessastodum med hyrdstióranum Knút Steinssyne á Jónsmessu, ad gefa andsvar uppá kóng Christians þridia bref, híngad sendt med nefndum Knúte Steinssyne. Fyrst biskupar báder herra Marteinn í Skálhollte og herra Olafur Hialltason á Hólum, logmenn Eggert

*] Hanns Nýa-Testamentis útleggíng er þryckt í Roskylld af Hans Barth d. 12 April Anno 1540, epter leifesbrefe kóngs Christians 3dia Anno 1539, átta døgum epter allra h: messu.

Eggert Hannesson fyrer sunnan og Oddur Norske fyrer nordan. Biorn Olafsson, Jón Biarnason prestar Skálholltsstiftes. Jón Matthiasson, Biorn Gíslason prestar Hólastiftes. Páll Vigfússon, Dade Gudmundsson, Þórmódur Arason og Philippus Runólphsson. 1. Um kyrkiur hálfkyrkiur og bænhús, sem ei er naudsynlegt ad standa skyllde, mætte aftakaz og um þetta verda þeir kóngenum samþycker, en kúgillde og lausafe hálft leggest til prestanna upphelldes og spítalanna, sem hiner siukú skylldu innleggiaz, hverier gardar þeim sýnast best tilfallner. Kalldarnes í Sunnlendínga fiórdúnge, Glúmbær í Nordlendínga fiórdúnge, Biarnanes í Hornafyrde í Austfyrdínga fiórdúnge*] so framt sem kóngurenn vilie þetta samþyckia, edur stadfesta enn hálft lausafe þessara kyrkna, skylldu eignarmenn jardanna eignaz, og alla fastaeign itok og reka, en inventaria og messuklæde, skylldu skickaz til annara kyrkna þar innan herads sem mest være þorf. 2. Um veralldlegar fiársókner prestanna vegna, sækez fyrer sýsslumanne edur logmanne ef þarf. 3. Einenn samþyckia þeir epter kóngsens brefe, ad tíund gialldez af ollum jordum crúnunnar, stigtanna, klaustranna, og kyrknanna utan þad heimaland sem sierhvert þetta ástendur med sinne egenlegre innstædu og lausafe, og þad sama fyrer þann skulld ad sóknarprestar og adrer fátæker hefdu þar uppá skipader vered fyrr meir og fordum daga, tíundez ecke. Hid sama tala þeir um þad edur þess háttar góß, þeirra kyrkna bæde fast og laust sem eignarmadurenn ætte siálfur gardenn skyllde ei helldur tíundaz. Sá partur sem kyrkian ætte siálf í heimalande, edur egenleg innstæda med rekum og itokum, en oll hennar onnur fastaeign, tíundez. Somuleides talaz um tíund af Vestmannaeyum, ad í hana gialldez hver tíunde

*] Sumer segia Gufudal í Vestfyrdínga fiórdúnge.

tíunde fiſkur (epter veniu í fioru) og ſkifteſt í fióra parta og legdez fátækra parturenn til ſpítalſens í Sunnlendíngafiordúnge, en af fuglum og eggium ſlíkur partur leggez til fátækra þar í eÿunum. En onnur tíund leggez þar ei á kóngſens jarder enn þeſſe. Enn bændur í eÿunum ſkylldu tíunda ſitt fe epter landſens veniu. item tala þeir um ſkip af megen lande, um vertíd þar gángande, giallde vanalega undergift ſem um Sudurlanded plagaz preſtenum þar í eyunum, en þeir ſkicke þeim aptur hús og vergogn, ſem þeim næge, ſo hvertvegge hafe fullt fyrer ſitt. 4. Um ſkólana ſtæde epter kóngſens nádarbrefe, utan um ol daglega fyrer ſkóla lídenn, yrde ei vidkomed ſökum fátæktar landſens og annara vanefna, helldur mætte þeim pilltum nægia ſa veniulege dryckur, ſem í landenn geinge gódra manna á mille epter þorfum. 5. Um oll beneficia og preſtſétur ſkyllde halldaz af preſtum epter kóngſens brefe og þad ſkyllde geraz þegar lærder preſtar, og ſo mannader þar til feingez, en góder fromer leikmenn hellde þángad til, og einn úngur predikare af biſkupenum tilfeingenn. En um Canúca dóma være ecke ad tala her í lande, utan ef klauſtrenn være, á hverium halldaz ſkyllde gódur guds orda þienare, ſem þorf giordez. 6. Sýsſlumadur í hverre ſýsſlu ríde í ſtyrk med biſkupe þá hann viſiterar, ad helldur framqvæmdez guds orde fram ad fylgia, ſo og ad óhlídugt fólk mætte ſkelfaz, og være biſkup med 8 menn, en ſýsſlumadur vid 5 ed fædſta, og hefde þeir ſæmelega giſtíng á ollum ſtodum og ſóknar kyrkium med ol og mat hvar kæme. En fógetenn være tilpligtugur ad útvelia og tilſetia ſkilvíſa dándes menn til ſóknara og ſýsſlumanna, þeir ſem være Gudz elſkendur rettvíſer og líknſamer fátækum almúga. Datum ſem fyrr ſeger.

O Druck=

[Drucknade í Brúará Olafur danske skólameistare. J tíd herra Marteins vard Ögmundur er sídan var brite í Skálhollte openber ad barneign med stiúpu sinne Christínu Sveinsdóttur hálfsystur Gísla Sveinssonar Skálhollts rádsmanns, þá var stóre dómur ei komenn, voru soddan fólke þá settar Carínur sem plagadez í pávadómenum. O. E. S.]

Kóng Christians þridia straung befalníng ad þeir framande Endurskírarar, ei skylldu fá pláts í Danmörk edur Norege, under hædsta straff, være og nockrer intekner þá skylldu þeir útrýmaz. Engelskra yferfall hvar í ad voru meir enn 800 píslarvottar í helsleigner fyrer Evangelii medkenníng. Johann Svelдanus deyr. England fellur til þeirrar Rómversku kyrkiu aptur. Age Bilde kóngsens Canceller deyr. Einn flote útreiddur móte óvina áſókn í Danmörk. Július páve 3 deyr, Marcellus annar útvalenn deyr strax. Kemur Paulus 4de.

Anno 1556 lagde biskup Marteinn af Skálhollt. Síra Gísle Jónsson siglde og vard biskup 1557 sumer segia 1558. (Geck helst yfer stóra bólann, hún hafde ei genged sídan plágu.ia í 60 ár. O. E. S.]

Paulus páve IVde IIII ár 2 mánude 26 daga. Ein óttasamleg Cometa sen, sem medal annars merkte þad stóra straff yfer Líslande þad epterkomande ár.

Anno

Anno 1557 drucknade Oddur logmadur sudur í Laxá í Kiós fyrer austan Modruvelle, og var hann fluttur í Skálhollt og grafenn þar. Oddur var forspár madur um marga hlute hann sá eina kvinnu þúngada ádur hann reid sudur um sumared og sagde henne hún geinge med nafn sitt, hvad og skede; Sú kvinna let son sinn sem hún þá medgeck epter honum Odd heita. [Mællt er ad þetta hafe vered Margret Hellgadótter, móder hr. Odds Einarssonar biskups hann var og forspár madur og nærgætenn um marga hlute og sogdu menn hann hefde þad af nafne. O. E. S.] Verdur Eggert Hannesson þá logmadur fyrer nordan og vestan en Paull Vigfússon fyrer sunnan og austan. Knútur Steinsson er hyrdstióre. Gunnar bónde Gíslason fer til Reinestadar, helldur klaustred XIII. ár, er mællt gollded hafe epter á áre XXX dale. [Þá sigl- de herra Gísle Jónsson epter biskupsdæme. En Síra Snorre Hiálmsson í Hollte under Eyafiollum var officialis. O. E. S.]

Deyde Dr. Johannes Machabeus til Kaupenhafn, einn formætur lærdur madur, hanns líke fylgde kóngurenn siálfur til graftar. Hrædeleg ásókn í París vid þá Evangelisku. Evangelisker fángar med sínum brefum, forsvara sig fyrer kónginum af Frankaríke, en sá meste partur hálshoggvenn og brendur. Hertoge Augustus kemur inn í Danmork. Friderich annar reiser inn í Þydskaland, med hertoga Augusto, og med honum var hann á herradeige til Francfort.

Anno 1558 stór dýrtíd í Danmork. Kall Stígsson hofudsmadur. Hann bygde oll klaustur á Íslande þá al-

varlega og framfærde fyrer gialld. Hr. Gudbrandur Þórlársson, er í skóla á Hólum oll þesse VI fyrerfarande ár.

Sest ein undrunarsamleg Cometa. Maria drottníng í Englande deýr þann 17 November. Epter hana kom Elizabeth í England, burtrak úr Englands ríke þann páviska lærdóm. Friderich annar kemur aptur frá Þýskalande, nærre páskum. Kóngs Christians þridia Receß forbetraz, med *) einum articula til Koldíng. Kóng Christian útbýr sinn skipaflota. Keysare Kall sá 5te afhender sínum bródur Ferdinando keysaradómen, med chúrfurstanna samþycke. Var hann krýndur til keysara 18 Martii, en keysare Kall deyde í Spanien nockrum árum sídar í einu klaustre heiter Just 21ta Septembris.

Anno 1559 deyde kóng Christian 3die til Koldíng á siálfann nýársdag, ádur fyrre var hann af einum engle vidvaradur. ríkte 24 ár. alldurs 56 ár. Krýndur kóng Friderich annar þann 21 Augusti af Nicolao Palladio biskupe í Skáney, hiáverande kiorfurstanum Augusto af Saxen og mörgum ödrum herrum, þá deýde og kóng Christian annar á Pálsmessukvolld, epter því sem hann gat til med gráte ad hanns alldur munde ei lángur epter, er hann frette andlát síns brædrúngs kóngs Christians 3dia hafde hann í hallde vered 27 ár. alldurs 78. Kong Friderich yfervann Ditmersken 20 Júnii. Páve Július fiórde deyr epter hann kom Pius 4de. Lætur herra Gisle biskup gánga dóm um ólogleg hiónabond á Reykium á Skeidum, hvern ad samþyckia á Alþínge Paull Stígsson hyrdstióre, Paull Vigfússon og Eggert Hannesson, logmenn. Var

tóbak

*) Nýum articulis.

tóbak fyrst üppfunded og tídkad af Johann Nigotio hver þad í Frankaríke fyrst innfærde og af þerum hefur sitt nafn Herba nigotiana. Ared epter vard þad enn vídfrægara og barst út um nordurlondenn.

Anno 1560 andadez Egell Jónsson á Skarde í Lángadal, eirnenn Þorleifur Paulsson á Skarde á Skardsstrond sem vered hafde logmadur. Item Þórleifur Grímsson á Modruvollum og Grímur sonur hanns. 3 Logmenn áttu dætur Þorleifs Grímssonar. Are biskupsson átte Halldórn, Ormur Sturlason átte Þorbiorgu, en Eggert Hannesson Sigride. Fleire voru dætur Þorleifs Grímssonar Þuridur og Hallótta. Biskup Olafur víger Gudbrand til prests og er hann þá 19 ára ad alldre verdur Lócatur í skóla ad Holum. Kóng Friderich 2 stadfester vid þá Svensku legáta þá 50 ára Fridargiord. Deyr kóng Augustus i Svíaríke dag 29 Septembris. Kóngurenn í Mauritziania afleggur Mahomets lærdóm, og lætur sig skíra til Fessa 1 July. Philippus Melanton deyde 1 Aprilis*) Petur Palladius deyde 3 Januarii. Pius páve 4de 6 ár

Anno 1561 dó ábóte Helge á Þíngeyrum. Helge ábóte geck 3var til Róm ad taka lausn páva, hann átte born vid meinalausum Konum. Paull Stígsson hofudsmadur fylger vel ad koma af pápistaskap í landenu. Leggur sekter á um ad hallda þær helgar sem bannadar være einnen um lióssakveikíngar fyrer líkneskium skyllde vera kóngsbrefa brot VIII merkur; um þetta og fleira gefur hann bref út.

Kóng Friderich annar samþycker eins árs stillíng, vid kóng Erich af Svíaríke sem braut þá 50 ára fridargiord, í því

 hann

*) Adrer segia 19 Aprilis.

hann inntók Revel. Skipsrettur útgeingur af kóng Friderich ødrum. Evangeliskur lærdómur upptekenn í Frankarike. Kóng Karl IXde Francisci bróder krýnez til kóngs í Frankaríke þegar hann var á sinu ellefta áre. Líflaud af störu og lángvaranlegu stríde vid Moscovitann gefur sig under Pólen

Anno 1562 vetur í medallæge á Islande kom sidan á skírdag nordan hríd mikel med störum feller. Deyde Abbadís Solveig á Stad í Reineneſe. Gunnar bónde Gíslason hellt Stadenn, voru nú enn nockrar systur þar, Síra Gudbrandur Þórláksson hefur og vered 2 ár locator á Hólum og sigler til Danmerkur, vestur á Patrixfyrde þá XXI árs, feck frikost í Danmørk af erkebiskupe D. Paulo og var þar í III ár. Rógurenn mikle er Paull Vigfússon logmadur vard fyrer af Síra Stepháne Olafssyne og Erlende Þórdarsyne, um hvert mál Páll Stígson hyrdstióre lætur dóm gánga í Ølvese af 24 løgrettumonnum, hafde Erlendur Þórdarson bored þad bref Paule høfudsmanne, sem hyrdstióreun þar framlagde á þíngenu, og innehellt medal annars ad Stephán prestur, hefde sied ad Páll løgmadur hefde rided á spiótskapt Ejólfs heitens Kolgrímssonar, ad hønum óforvarande og þar hefde Ejólfur bana af feinged og þad sama spiót hefde geinged í hanns kvid; item ad Ejólfur Kolgrímsson hefde líst því fyrer Stepháne ad Páll Vigfússon være sinn banamadur. Var Stephán fyrer dóme og medkende hann hefde bæde þetta bref skrifad og innsiglad. Beiddez þá løgmadur enn undanfæres, og dæma þeir hønum tylftar eid hvern hann þar sver ad Ejólfúr Kolgrimsson hefde ecke bana feinged af sínum verkum, ne vilia, hverke leinelega ne openberlega, viliande ne óviliande. Medkende Stephán þá ad hann hefde

þetta

þetta bref skrifad, fyrer því ser hefde misþóknaz logmannsens ord, er hann kom heim til hans ad Hlídarenda, hvor ord dómendum virdez umvondunar ord, epter skylldu tolud hafa vered, af logmannennm, dæma þeir þetta ad vera rett banarád, og Paule logmanne LX Hundrud í banarád og bætur af Stepháne og í annáre grein epter rógs capitula, þár madur ræger vid kong, biskup, jarl edur sýsslumann se slíku sekur. Item ef madur lýser ecke víge, dæma þeir landzvist og líf Stephanar til kóngsens náda í hvern máta hann villde vid hann hondla fyrer þennann óheyrelega giorníng. Eggert logmadur útnefnde dóm á Oxarár þínge um þá menn sem lofa med vottum og handsolum þá mey edur konu ad eiga og liggur med henne sídan og um adra þá sem kaupa ser mey edur konu, og leggiast sídan med, láta lýsa en vilia ei þessar sínar konur festa edur og þær vilia ei þessa menn samhyllaz til loglegrar festíngar, þetta virdez þeim ólogleqt framferde og ecke lidaz meiga, epter Guds logum og manna og dæma þeir hverutveggiu skylldugа sínar konur ad festa. En vilie þeir þad ei ad lidunm lýsíngum, skyllde þínga prestur giora þeim áminníng næsta sunnudag epter ad festa konu þá, vilie hann ei þá, giallde giftíngarmanne fullrette. En á odrum sunnudeige med samre áminníngu og þessare giallde giftíngarmanne tvofalldann rett, vilie hann þá ei festa á þridia sunnudeige, med samre áminníngu, giallde giftíngarmanne tvofalldann rett en kónge 4 merkur í dómrof. En láte hann líka mánud upp frá því og fester eige se fángadur af kóngsvallde, under slíka refsíng sem XII. menn dæma. Kemur inn í landed kóngs Friderichs II. bref um þad ef logmenn gefa út ránga úrskurde take hyrdstióre til sín 24 menn hinna skilvísustu, sem hönum líst nær hann vill, og med þeirra tilsión skal hann fulla magt

magt hafa ad kalla aptur þeirra ólöglega úrskurde, og láta hinn mishalldenn rett fá. (Síra Jón Matthiasson hinn Svenske á Breidabólsstad, prentade Gudspiallabók epter forlage hr. Olafs Hialltasonar. O. E. S.)

Kóng Erichs legatar af Svíaríke, komu aptur frá Danmörk med óútretta sok. Hófz stríd millum Dana og Svía. M. Páll Mathsson vard biskup í Ríbe. Vors kóngs legatar Eyler Hardenberg og Jóhann Tundsen komu af Rússlande og hofdu med ser grótzfurstans legata. Innbyrdes stríd í Frankaríke fyrer Religionem. Jóhannes Stygelius einn merkelegur Poeti deyr. Hertoge Vilhelm af Saxen deyr.

Anno 1563 deyde Dade Gudmundsson í Snóksdal hafde hann þá veikur vered um nockur fyrerfarande ár af átumeine í andlite. Hann var barnlaus þá og þau húsfreya hanns, Gudrún Einarsdótter sem þá hafde 74 ára alldurs, var erfínge Dada hanns dóttur sonur Hannes Biornsson, sem þá var í ómegd: Lætur Eggert lögmadur her um dóm gánga í Snóksdal hver umbod Hannesár skule hafa, á þeim gótzum er epter Dada fellu og virdtez dómendum eingenn betur fær til fyrermenníngar, forsvars og fyrersiónar þó nockrar kvennpersónur nær stæde, enn Eggert lögmadur hver ed var fodur bróder, þessa únga manns Hannesar Biornssonar, og dæma honum umboded og forsvare öllu fyrer gótzunum ad hallda innanlands þad mögulegt sie. Skullder löglegar ad greida, gótzenn sídan virda láta og ávoxtu eignaz, geta þeir í dómenum ad hyrdstiórenn hafe átolur á gótzum Dada og fógetenn hafe sendt síun umbodzmann þángad á Þínged med brefe Andres Hoffmann og láta uppskrifa alla penínga epter Dada,

hverin

hveriu þeir med ollu afslá í dómenum fyrst, so ad átolur þeirra skule standa til Alþínges, utan fyrre kynne ad semiaz med fóget anum og logmannenum og þeir hafe alldrei vitad Dada í nein þau mál falla ad hann hefde sína penínga forbrióta mátt, því þyrste hanns penínga ei upp ad skrifa sem annann útlægan eyrer, helldur hafe þeir oftlega heyrt af Dada og odrum monnum, ad hann hefde kvittan fyrer ollum sínum málum. Um þennann tíma semur Eggert Hannesson logmadur vid hyrdstióran um á virdíngar og brot Dada heitens, vegna Hannesar, hvert umbod hann hafde, med 500 dolum. En þá Hannes kemur til logalldurs, fær hann Eggert fyrer þesse útlát og annad sem Dada suerte LX Hundrud, sem var Sæból á Ingialldssande, þann stad hlaut Elen Magnúsdótter epter móder sína Ragneide E. D. Kemur híngad til Islands kóngs Friderichs annars bref, ad hver sem ad openberre villu yrde fundenn skyllde verda útlægur og missa lífed, ad þeir skyllde dæmaz epter Recessenum sem íslendsk log gerde ecke grein á ad sú andlega Ordinantia helldez yfer allt Island.

Eitt fóstur heyrdez gráta í módurennar lífe í Kaupenhafn VII vikum fyrr enn þad var fædt sem var eitt teikn um þad epterkomande stríd. Magnaz þad Svenska stríd millum kóngs Friderichs 2 og kóngs Eirichs í Svíaríke 18 Aprilis. Elsborg og Nylose innteken af kóng Friderich, 5 Septembr. Bardage fyrer Halmstad hvar Svensker feingu ósigur og mistu 71 stícke. Steinn Stúre fyrer utan fríleide vill gánga í gegnum Danmork, og vard stemd leid fyrer honum í Kaupenhavn. Þeirra Eibsku stríd á móte Svenskum. Hertoge Johannes í Finnlande med allt sitt folk fángadur af sínum bródur kongenum af Svíaríke.

Anno 1564. mikell hafís vid Island og tekner Selar á

 nærre

nærre ótal, um allann nordlendínga fiórdúng. Fór almenníngur úr sveitunum út á ísana og báru á hestum selana lestum saman, dróu og óku fram um bygdernar og var þetta almennelega kallad selavöred mikla.

Bardage á skipum under Olande. millum Dana og Svía 30 Maij. Svenskra besta orlogsskip Mageloß brent med 177 sticke 31 Maij, og þá var Herluff Trolle kóngssens af Danmørk hershofdínge. Vid Halmstad voru 3000 Svenskra drepner. Keysare Ferdinandus tilstodar í Vien ad leikmenn mættu taka Sacramentum under bádum portunum. Johannes Calvinus deyr. Ferdinandus keysare deyr til Vien d. 25 Júlii.

Anno 1565 lángt vor og hardt fram yfer fardaga. Gott haust og vetur fram til lánghelga, kom ecke skip fyrer nordan, giorde þad ófridur þess Svenska stríds. Kemur Síra Gudbrandur Thorláksson ad¦utan alldurs 23 ára, hefur þá feinged skóla í Skálhollte og var þar skólameistare 3 ár. Paull Stigsson er samt hyrdstióre, gefur bref út prestum ad þeir fáe áminníngar sem Guds ord vanrækia og straffez ef valldsmonnum hlýda ei.

Bardage fyrer Falkenberg, hvar nockrar þúsunder Svenskra voru vid velle lagder. Herluff Trolle deyr 19 Júlii. Otthe Rud admiral fángenn og deyde í Svíaríke 11 Júnii. Doct. Elias Reimpaldus deyr aungvum nærverande. Þeir Christnu unnu eina ágæta sigurvinníng á Tyrkium. Jóhannes Mathesius, Conradus Gesnerus deya. Pius páve 4de deyr. Kemur út kóngs Friderichs bref uppá þann stóra dóm (er menn so nefna) er geck áre fyrre á Alþínge af bestum landsens 24 tilnefnd-

nefndum af logmannenum Paule Vigfússyne og Eggert Hannessyne. Epter forlage hyrdstiórans Pauls Stígssonar um sakferle og refsíngar, þeirra sem falla í stillulífe og hórdóme, edur leggiaz med skylldum edur mægdum persónum, sem og líflát þeirra er fellu med þeim 17 persónum er kyrkiulogenn umgeta, og til kóngsens náda liggiande um þeirra fe ad hálft mætte til erfíngia falla. En kóng Friderich náduglega skickar, ad erfíngiar take alla fastaeign epter þessar persónur, en kóng dómurenn lausafed. Dómenn bar Paul Stígsson fyrer kóngenn en brefed hafde hann aptur híngad.

Anno 1566 felle vetur mikell og snjór, kom gódur bate á páskadagenn, og var hálfa adra viku. Sídan kom hafís med miklum kulldum fell margt af fátækum monnum, lán hafíssar fyrer nordan til midsumars, kom so mikell snjór sídast í Junii (edur Júlii) mánude ad tók á kvid heste. Haust gott og fiskeár, kom stórt fiúk viku fyrer vetur drapz margt fe so og naut, batnade med vetre. Kom miked fiúk jóladagenn, so úte urdu menn vída og so oftast á hinum túnglunum. Kom gódur bate Laugardagenn í Ymbruviku. A fostu rak þriá stór Hvale í einu á Midfiardarnese undir hafís og einn í Núpasveit nordur. Var Síra Jón Mattiasson hinn Svenske, sem hellt Breidabólsstad í Vesturhópe miog hrumadur af elle og líttfær. Villdu marger fá þann stad. En Paull Stígsson veitte hann Síra Gudbrande Þórlákssyne skólameistara og hellt hann þess verdugann framar odrum, þó fór hann ei þángad medan Síra

 Jón

Jón lifde, og gat halldeð stadenn. Deyr Paull Stígsson hofudsmadur á Bessastodum, fyrsta dag May og grafenn þar fyrer framan alltare. Samþycktur bróder hanns Henrich til hofudsmanns á Alþínge. Henrich Krag er, fógete í Stapans umbode vestra sem sídar verdur hyrdstióre á ollu Íslande.

Kóngs Friderichs mandat útgeingur ad eingenn presta skal falla inn í annars embætte, þann 27 Februarii. Carolus Mornai sem færde þann Svenska strídsher, var fángenn vid Bahús og meste partur af Svenskum sleigenn til dauds, en hitt flýde undan: Sendez fángenn til Callundborgar hvar hañ sat í 7 ár. Skrifade á veggenn þesse ord: *Hic Septennio comedi panem doloris.* C. D. M. **Her hefe eg í siø ar eteð hørmungarennar brauð.** Sá Danske flote lídur skipbrot under Gullande af storme. Solimanus Tyrkneske keysare deyr og hanns son Selimus kemur í hanns stad. Pius páve 5 ár 9 mánude 25 daga.

Anno 1567 vetur kom á snemma, fellu nockrer penníngar vída, kom bate med sumre og var grosugt sumar gott med þerrer, kom eckert skip fyrer nórdan nema í Hofsós. Kom út Henrich Krag med hyrdstiórn. Ormur Sturlason siglde sem vered hafde logmadur. Dó Jón Svenske. Tekur Síra Gudbrandur vid Breidabólsstad og fara hanns forelldrar þángad Síra Þórlákur og Helga. [Tveir skiptapar urdu á eiune stundu, einn á Eyrarbacka og annar á Biarnastodum í Sel-

Selvoge, voru 13 menn á hverin ſkipe, þá dó Alexius ábóte Paulsſon í Klauſturhólum. O. E. S.]

Stód ſama ſtríd í ríkiunum Danmørk og Svíþiod, logdu Svíar under ſig nockud af Norege en ſkottudu Danmørk. Daniel Ranßou þann allann vetur í gegnum í Svíaríke ad brenna og bræla. Keyſarenn leggur ſig til ad ſemia frid mille Danſkra og Svenſkra. Kóng Erích í Svíaríke lætur taka af lífe ſinn ypparſta adal og herramenn þann 4 May. Doctor Juſtus Jónas hálshoggvenn fyrer Kaupenhafnar ſlote 28 Júnii. Hertoge Jóhann Friderich til Saxen færez fángenn til keyſarans.

Anno 1568 kom ís epter páſka mikell og lá til fardaga. Kom hret epter allraheilagra meſſu ſídan vetur gódur til þrettánda í jólum. Kom ſídan bate gódur. Kom út Ormur Sturluſon med logmanns embætte fyrer nordan og var á Alþinge og ſette þad med ſkipun hofudsmannſens. Geingu einger dómar af því Eggert mótkaſtade Orme, ſtefnde Ormur Eggert fram og ſiglde Ormur fyrer nordan og marger ríkesmenn, var þá ſtríded þar framme ſem meſt. Deyde Olafur Hialltaſon á Hólum ſunnudagenn um meſſu fyrſtann*] í vetre; Fundur á Flugumýre af lærdum og leikum. Kiorenn Síra Sigurdur á Greniadarſtodum til officialis yfer Hólaſtifte. Situr Síra Gudbrandur á Breidabólsſtad, med forelldrum ſínum, hafde Helga Jónsdótter móder hanns átt fyrre annann mann, þann Krákur het, og vid honum born nockur Jón, Olaf og Biorgu, veitte Síra Þorlákur forſión þeim bornum. Þá hann

 giftez

*) Fyrſtann í midføſtu.

giftez Helgu og vorn þeir brædur Jón og Olafur med honum á Þingeyrum og vígde biskup Jón þá til prests vard Síra Jón Kráksson þínga prestur þá hiá Eggert logmanne á Bæ á Raudasande og tók hann sig til ad brigda gótz þau og hóf klogun sem biskup Gottskálk Nicolausson hafde med órette haft af Jóne Sigmundssyne módur fodur hanns og Einare Jónssyne hanns módur bródur. Siglde Síra Jón Kráksson til Danmerkur uppá þessa klogun og befalade kóng Friderich Paule Stígssyne ad láta hann log fá, kom Síra Jón so aptur og vann ecke neitt af þessu mále. Villde Paull Stígsón semia med Síra Jóne og þeim er svara áttu málenu og Jón fenge nockud, og vard ecke af því, dó so Paull hyrdstióre her í lande, en Síra Jóne leiddez her vid þá klogun ad heygia og gaf so upp vid. Tók Síra Gudbrandur nú upp þad sama mál því hann stód jafnt ad og Síra Jón, var og sonur Helgu sem ádur greiner. Sigler til Danmerkur og bar fram þetta mál.

Kóng Jóhann sende sína legata inn í Danmork og leita um frid mille þeirra ríkia Danmerkur og Svíþiódar, hver fridar samdráttur, skede til Roskillde. Kóng Erich í Svíaríke fángaz af sínum brædrum og hertoge Johann verdur kóngur aftur.

Anno 1569 fagurt vedur um páskadagenn, kom sumar í páskaviku. Kom mikell sniór fyrer Michaelis messu. Enn hláka kom med vetre og batnade þá. Komu út þeir aller ríkesmenn, er siglt hofdu*) og hofdu feinged ser klaustur, og onnur.

*) Þesser vóru Arne Gíslason, Jón Jónsson er sídar vard logmadur, Paull Jónsson broder hanns og Jón Marteinsson.

onnur len af kónge. Ormur Sturlason feck aptur logmanns dæmed fyrer nordan og vestan en Eggert vard fyrer sunnan og austan. Svíade stríd nockud med Donum og Svinm. Kom út híngad hyrdstióre sem het Christopher Valkendorph, hann sigldi aptur þad sumar. Med hyrdstióranum Christópher kom út hr. Gudbrandur Thorláksson, hafde kóng Friderich skipad honum ad láta endeleg log gánga um hanns mál og þá epter Alþíng kallade strax hyrdstiórenn logmennina báda Orm og Eggert med morgum logrettumonnum, sudur til Bessastada, geingur þar dómur um máled er Síra Gudbrandur klagade ad biskup Gottskálk hefde raungum meinum upplosted, millum Jóns Sígmundssonar og hanns kvinnu, Biargar Þórvallds dóttur hvad þeir og dæma vered hafe og bref biskups Góttskálks og giornínga ónýta, sem um meinenn hlioda mille Jóns og Biargar, þeir dæma Síra Gudbrande til handa þær eignr er Einar Jónsson hanns módur bródur hefde med ser gefed í Proventu, sem voru þriú hofudból og 4 iarder adrar sem sá dómur framar útvísar.

Ætt Jóns Sigmundssonar er þesse:

Einar og Grundar Helga vóru hión.
1. Biorn var sonur þeirra Jórsalafare.
2. Einar var sonur Biorns.
3. Solveig dótter Einars.
4. Jón var sonur Solveigar Sigmundsson.
En biskup Gottskalk talde so ætt Biargar vid Jón þeim til skilnadar.
Einar og Grundar Helga.
1. Ingegerdur være dótter þeirra.

2.

2. Jón Búland sonur Ingegerdar.
3. Þorvalldur sonur Jóns Búlands.
4. Biorg dótter Þorvallds.

Og hellt nú epter þessu biskup þau fiórmenninga Jón og Biorg og óloglegann egtaskap med þeim og Helgu dóttur þeirra ecke skilgetna og fyrer þetta hafde hann dæmt se af þeim, en bannfært Jón sem mikla sogu má afgera um þetta mál. Enn Ingegerdur reyndez Þorsteinsdótter, sem hann tekur ætt Biargar frá, en ecke Einarsdótter ne Grundar Helgu og dæma þeir því í herade Helgu skilgetna, og aptur þær eigner sem biskup Gottskalk hafde fyrer þá sok af þeim hefdad. Til meira skilníngs um ætt frá Einare og Grundar Helgu. Hustrú Christín er kollud var Vatnsfiardar Christín var dótter Biarnar Jórsalafara Einarssonar. En syster Einars afa Jóns Sigmundssonar, hún átte Þorleif bónda hinn ríka Arnason. Biorn Einarsson og Helga fóru þrisvar til Róms.

Anno 1378 fyrsta utanferd Biorns.
1385 Aunnur utan ferd Biorns, rak til Grænlands og 3 skip onnur var med honum Solveig hústru hanns.
1387 Kemur Biorn af Grænlande og 4 skipenn þadan alls.
1388 Sigler Biorn í þridia sinn.
1391 Kom Biorn aftur. Einar var sonur Biarnar (sem ádur seger) og Vatnsfiardar Christín dótter hanns Einar hyrdstióre og Biorn voru syner Christínar og Þórleifs Arnasonar.

Anno

Anno 1438 Er Einar Þorleifsson hyrdstióre yfer Íslande.

1446 Er Einar samt hyrdstióre.

1473 Vard úte Einar Þorleifsson sem hyrdstióre hafde vered á Solvamannagotu. Biorn Þorleifsson bróder Einars átte Olofu Loptsdóttur Guttormssonar hins ríka, þeirra born Einar, Þorleifur, Solveig, Arne sem fell í stríde í Svíaríke barnlaus.

1477 Var Biorn bónde hinn ríke Þorleifsson slegenn í hel í Rife. Þorleifur Biornsson sem riddara nafn feck og líka vard hyrdstióre her med Didrich Píníng, [hann átte edur hellt vid] Jngvellde Helgadóttur lögmanns. Biorn var þeirra son og fleire born.

1493 Dó Einar Biornsson Júnkære utanlands bróder Þorleifs. Solveig Biornsdótter syster Þorleifs og Einars náde arfe þeirra brædra sinna, því ad þrímenníngs mein voru talenn med Þorleife og Jngvellde, en Einar dó barn laus, um hvern arf sídar miked kíf vard, því Þorleifur feck pávaleife. Solveig þesse Biornsdotter átte Paul Jonsson og vid honum nockur born. Med þeim Solveigu og Pále var og skilldseme talenn, þau hofdu og pavabref. Þorleifur og Jón voru syner þeirra hverium hún ánefnde stór fe í sínu Testamentis brefe, sem þar má lesa og giort er Anno 1495.

Solveig á og morg born vid Jóne Þórlákssyne, sem voru Jón, Einar, Brýeth, Christín og Vigdís. Sum

þesse born dóu úng, og er ecke ætt af þeim komen, af Jóne er komenn Are og Jón, af Ara Jónssyne er komenn Thómas, Jón, Gudrún, af Thomase er komenn Sophia Sesselia, laungetnar. En born Brÿeþar voru þesse: Tveir Síra Jónar, Biarne, Pantaleon, Petur, Paull, Illuge, Sigurdur, tvær Gudrúnar, Margret, Steinvor og Solveig. Olafur het fader þessara barna allra, bróder Sæmundar fodur Gudrúnar, sem átte Arne bónde Gislason á Hlídarenda. Þeir voru Eríkssyner Olafur og *) Sæmundur. Um ætter þessar og arfdeilur er þeim kunnugt sem á vesturlandenu búa, og af þeirra ætt komner eru, vil þar ecke fleira um skrifa.

Epter Alþíng sigldε Christopher Valkendorph. En Síra Gudbrandur fór til Hólastadar, því hann hafde feinged þar skóla, og vard skólameistare þad ár, en hafde frá ser lagt Breidabólsstad á hendur Erlende Pálssyne, er þá átte hanns hálfsystur, Biorgu Kráksdóttur.

Kóng Friderich 2. bref ad kennedómurenn se fri frá álog um. Kóng Friderich stiftar 100 studenta underholdníng þann 25 Július. Daniel Rantzou var skotenn fyrer Vardberg. Vardbierg inntekenn aptur frá Svenskum. Páven bannsetur drottnínguna af Englande. Drottníngen af Englande lætur upptaka 200000 Gillene sem skulu skickaz til Duc. de Abba.

Anno

*] Brædur Sigmundar Einarssonar í Ase vóru Síra Jón í Vatnsfirde, Síra Þórleifur á Breidabolsstad. Olafur fader Síra Pantaleons á stad í Grunnavík og Petur Erichsson fader Magnúsar, sem var seinaste styremadur fyrer skútu þeirre, sem Skálholts kyrkia átte á seinustu dangum Ozmundar biskups. O. E. S.

Anno 1570 deyde Paull Vigfússon logmadur á Hlídarenda; Hanns syster var Gudrídur móder Gudrúnar Sæmundsdótter, er Arne Gíslason átte, er epter Paul logmann bió ad Hlídarenda. [Paúll Vigfússon var barnlaus, hanns syster var Anna, hennar syner Magnús og Erlendur Hialltasyner og Kristín. O. E. S.]

Kóng Friderich annar hefur nú spurt afgáng biskups Olafs Hialltasonar. Bodar Síra Gudbrand skólameistara fram ad sigla, og verda biskup í hanns stad, enn sender híngad annann skólameistara, sem het Hans Gillibrún. Sigler Síra Gudbrandur biskupsefne med Donskum.

Af predikunarstolnum í Kaupenhafn var úthrópad, med fognude og stórre glede, fridur mille Danskra og Svíaríkis þann 17 Decembris, sem þá hofdu strídt í 8 ár. Kóngsens bref daterad þann 11 Júnii um kennedómsens óskickanlegheit.

Anno 1571 frost mikel um vored, kom ecke ís vid land. var þó vor gott. Skírdag kom sumar, Páskadagur gódur. Grasár miked. Snióade med vetre. Hardur vetur til Jóla, fiellu peníngar. Kom bate í Martii mánude ætíd hagre. Kránkleike vída vestan og nordan. Vigdur Gudbrandur til biskups og kom út. Þórdur Gudmundsson vard logmadur sunnann og austan. Kom út fyrer þíng Johann Buchhollt hofudsmadur. Var víg veiged í Sídumúla Jóns bónda Grímssonar, var hann lagdur under borde vid dryckiu af Jóne er Murte var kalladur, syne Eggerts Hannessonar, hann sat og vid borded. (Jón Murte Eggertson siglde sídan kom híngad ei aptur. O. E. S.)

Fæddez Steinunn Gudbrandsdótter laungetenn móder Þórláks biskups Skúlasonar.

Þann 5 Aprilis aptur fridur vid strídsherenn úthrópadur á strætunum í Kaupenhafn. Drottníng Dorothea, sem kóng Christian 3. átte, deyde til Sonderborg 7 Octobris. Jóhann margreife og kiorfurste af Brandenborg deyr þann 3. Januarii. Venicianar á skipum yfervunnu Tyrkiann þann 7 Octobris vid Echimandas.

Anno 1572 grasár líted þó sumar gott. Vetur gódur, kom vedur miked Annunciationis hátid Mariæ med fiúk og hafís, var þad i 3 daga. Formirkvadez túngled á einum midvikudeige þann 25 Júnii 4 stunder. Fór Síra Sigurdur heim til Greniadarstadar. Siglde Johann hofudsmadur. Bródadur Eggert Hannesson fram fyrer kóngenn. Giftez Hr. Gudbrandur biskup Halldórn dóttur Arna bónda Gíslasonar ad Hlídarenda. Þar var þá miked hóf hallded. Arne var í þann tíma einhver meste høfdínge á Íslande. Hann gaf giafer ollum nordanmonnum, er med Hr. Gudbrande í hanns brúdkaup ridu. Arne bónde og Gudrún Sæmundsdótter áttu fiollda barna, og er frá þeim komed margt gofugt og virduglegra manna; Þrir vóru syner þeirra, er giftumála og barna auded vard. Hákon átte Þórbiorgu Vigfúsdóttur, Þorsteinssonar, Finnbogasonar logmanns, Jónssonar, þeirra son Gísle logmadur, Einar og Biarne; Sæmundur var og sonur Arna, átte Elene dóttur Magnúsar bónda Jónssonar á Vestfiordum. Þau áttu morg born. Gísle var 3die sonur Arna bónda, hann átte dóttur Gudmundar Helgasonar vestan frá Eyre. Sio voru dætur

dætur Arna bónda og Gudrúnar. Halldóra, Ingebiorg, Gudrun, Anna, Holmfrídur, Solveig og Sigrídur, og voru þad flester høfdíngiar er þær áttu, sierdeiles Hr. Gudbrandur biskup. Gísle logmann Þórdarson er átte Ingebiorgu. og Jón bónde Biornsson er Gudrúnu átte. Eina laundóttur átte Arne Gíslason, sú het Gudrún, giftez Jóne Olafssyne, systursyne Dada, Gudmundssonar.

Kóng Friderich og drottníngar Sophiæ brullaup í Kaupenhafn 20 Júlii. nærverande hertoga Augusto af Saxen, med hanns frú Onnu systur kóngs Friderichs, med morgum odrum furstalegum persónum; Drottníng Sophia krýnd í Kaupenhafn af Doctor Paule Mathsen 21. Júlii. Ein ný stór stiarna *) sást á himnenum, um hveria Tyge Brahe skrifade eina stóra bók í látínu. Hrædelegt mord í Frankaríke fyrer Religionem, hvar Caspar Castelioneus, Petrus Ramus og marger adrer aumlega umfelluz, so ad í þessu morde, eru ordner fleire enn hundrad þúsund manneskiur. Hænsnastaderner safnaz samband ad giora. Pius Vte deyr, Gregorius 13de kemur í hanns stad.

Anno 1573 kom sumar í páskaviku med bata. Hvarf ís fyrer fardaga, geingu nordan vindar kallder. Sumar gott, haust vott. Vetur godur, andadest margur madur. Formyrkvadez túngled allt þann áttunda Decembris 8 stunder einu þridiudag. Fædd Halldóra dótter Hr. Gudbrands. Var so

 miked

*) Þesse stiarna sáz in Signo Cassiopeæ og hennar minnez Doctor Joh. Gerhardus, í sinne Postillu á þrettánda og annare predikun. Conf. Dom. 2. Adventus Homil. 3.

miked hitasumar ad elldur kveiktez vida í skógum, og brunnu eikur. [Var miked manntión under hálsum í Hornafyrde góuþrælenn, drucknudu 53 menn, og epter 15 eckiur munadarlausar. Giftez Síra Arne Gíslason í Hollte, Hólmfríde Arnadóttur á Hlídarenda. O. E. S.] Þeir Hamborgarar gáfu kónginum af Danmork *) 50000 dale, fyrer þad þeir hofdu innehallded nockrum kóngsens skipum í Elsunne.

Anno 1574 Mariumessa 4da dag páska, gott vor, kom miked snúk um hvítasunnu, og aptur Jónsmessu Baptistæ, vetur snjósamur til sólhverfa, en gódur upp þadan. Geck bóla um Island. Formyrkvan sólar þann 12ta Novembris eptermiddag **) 4 stunder, þad var laugardag. Var Jón logmadur Jónsson, Magnússonar, Þórkellssonar prest. Gudbiartssonar. Jón logmadur átte Helgu Gísladóttur Hákonarsonar, Gíslasonar frá Hafgrímsstodum. Jón logmadur hellt Reinestadar klaustur 9 ár, mællt hann hefde fenged þad frá Gunnare máge sínum Gíslasyne, er þad hellt 13 ár. Jón Jónsson logmadur fór frá Reinestad og til Þíngeyra, og feck þad klaustur frá Henrick Gerkens, og þótte honum miked ad missa; hafde fyrer hofudsmanns bref. Hitt geck þó áfram med fylge Jóhanns Bucholltz. Tekur Hr. Gudbrandur upp prentverksydin á Hólum, og leggur bækur út, og því hellt han fram alla daga, só lenge sem hann gat, og honum endtez heilsugiof til. Jón son Jóns

*] 100000 dale.

**) Fiórdu stund.

Jóns prestz hinns Svenska var prentare ad Hólum lángt fram á tíma, þar til adrer menn þar vid voindu. [Urdu tveir skiptapar í einu. O. E. S.]

Kóng Friderich annar befalar ad kennaz skyllde um Sacramented, epter þeirre Ausburgisku Confessíon. Hann gaf 10000 dale fátækum eckium og fedurlausum bornum. Kóngsens bref geck út um þeirra 100 Studenta disputatiur. þann 12ta Decembris fæddez Anna kóngs Friderichs dótter *). Petur Oxe gaf 1000 dale til skólanna, og 1000 dale fátækum. Kóng Henrich af Polen hliópz um heimuglega, og vard kóngur í Frankaríke epter sinn bródur. Selimus deýr 15 Decembris og kom hanns bróder Amirathes í hanns stad. Spansker hondla hrædelega til Antverpen og Duc. de Alba í Nederland. Jóhan Basilius hefur vondan tÿrannaskap í sínu ríke Rússlande.

Anno 1575. deýde Ormur Sturluson í Danmørk og hofdu eýdz fyrer honum nær aller hanns peníngar. Kóng Friderichs bref um presta í Hólastifte, kemur í landed. 1. Ad aller stader, sem fyrr hafa vered veitter prestum til ábýles, en hefde nú lenge af leikmonnum hallduer vered, skickez prestum so framt sem þeir prestar finnaz, er þá garda villdu hallda. 2. Ad aller prestar skylldu hafa alla tolla og týunder sem þeir hafa ad fornu haft og þeim bære epter ordínantiunne, sem være heýtollar lióstollar til kyrkiu, legkaup og líksaungs eyrer. 3. Ad hver

*] Er sídar var drottníng kóng Jacobs yfer Englande, Skotlande og. Irlande.

hver prestur skyllde hafa tíund af öllum þeim jordum og búendum, sem læge under hans kyrkiusókn, hvert sem þær ætte crúnann, dómkyrkiann, klaustur eda prestaþenarar, enn af siálfum klaustrum skyllde enge tíund gialldaz, ei helldur af frídum peníngum klaustranna, enn aller adrer skylldu tíundaz preste. 4. Á hverin klaustre skyllde halldaz einn soknarprestur og einn diákne. Prestureinn skyllde hafa árlega af klaustrenu, í kaup III Hundrud, og ad auke alla tolla og tíunder. Ef þeir prestar være egengifter þá skyllou þeir hafa eina klausturseins jord til ábyles, sem best hentar fyrer sóknarfólked, fyrer venirlega tolla, og retta landskulld. Diákneinn skal hafa mat og drick af klaustrenu.

Fædd til Volmerstad, drottníng Anna Catarína 26 Júnii. Hún var sídan drottníng í Danmork. Academied uppgefed pestilentiu saker. Doctor Niels Hemmíngsson, gefur frá ser epter kóngsens befalíngu sína skriflega meiníng um Sacramented. Holgeir Rosenkrantz rikes marskalk deyr. Petur Oxe hofmeistare deyr. Stephanus Bathor útvalenn kóngur í Polen. Rudolphus §) Maximilianus útvalenn til kóngs í Behmen til Pragh og til Rómverskз kóngs í Rensborg.

Anno 1576 sumar gott med gras og fisk. Haust gott og vetur til jóla, upp frá því vída mikell. Deyde Hr. Marteinn Einarsson sem frá ser hafde lagt biskuplega stiórn. Formyrkvan túngls þó lited vid 11tu stund þann 7da dag Octobris þad var einn sunnudag. Biskup Gudbrandur fær bref af kóng Friderick ad hann leifer honum ad fragta hafskip til Skagafiardar

§) Maximsson.

fiardar sýsslu, og taka med sier menn í sýsslunne ad útreida þad. Kauper sídan Hr. Gudbrandur hafskip af Hamborgurum, 60 lesta far, hvert skip þá nockrum tíma sídar forgieck í útsiglíngu, og alldrei hefur tilspurst. Var á því einn vellærdur madur Síra Arngrímur Jónsson, hver biskups erende átte fram ad bera. [Deyde Erlendur Þorvardsson á Strond, fyrrum logmadur, og Marteinn biskup Einarsson, hann dó á Midhúsum, því Halldór sonur hanns hafde teked vid á Alstanese. O. E. S.]

Thyge Brahe upphóf ad byggia Uraniborg í Hven. D. Niels §] Henníngsson, epter kóngsens befalning, kallar sína meiníng um Sacramented aptur. Peder Gildstern verdur ríkesens Marsk. Bornhólm, sem kóng Friderich fyrste hafde fyrr lient þeim Líbsku í 50 ár, apturskickast þeim donsku kóngum. Sá stadur í Ungaria sem het Temchiar, sock í grunn 21 dag Februarii, hafde þángad vered flutt púdur af Tyrkians skipum, 490 skippund. Þad er sagt ad vigt sem 490 járnsot.

Anno 1577 [þann 12 Aprilis, til Friderichsborg, fæddest kóng Christian 4de, sem lenge stiórnade Danmork og Norege. B S.] Var sumar gott med gras; vetur gódur til jóla. Deilur med Orme bónda Þórleifssyne á Hnerre, og Alexius Þórvardssyne. Alexius giorde sig á veg fyrer Orm, og hió uppá hann, Ormur vardest, þar til Alexius hió af honum hondena hægre í Ulflidnum. Jón var og vid sonur Alexius, og veitte ad beina. Kemur mál þeirra til Alþínges um sumared, logmenn Þórdur Gudmundsson, og Jón Jónsson, nefna þar til XII menn, dæma þeir Alexium útlægann, og kæme alldrei í land aptur, nema her-

 sogu

§] Hemíngsson.

sözu sanna bære, sem landsmenn ei ádur vissu. En XX Hundrud af se hanns Orme til bóta, enn kónge 4 merkur, være se so miked, en erfíngiar fátæker þad þá um fram være. En um áverka þann sem Ormur bónde bære Jón hefde ser veitt á handleggenn, dæma þeir Jóne líritarehd upp frá því í herad kæme, innan mánadar, en fellez, sekann 2 merkur kónge, en 3 Hundrud Orme, en um Steinshogg, er Ormur bar Jón, kónge mork, Orme X aura, og Jón skyllde burt úr sveit þeirre, fyrer atvist, og þann styrk sem hann veitte fodur sínum, til skemda vid Orm Þórleifsson. Ormur var audigur madur bæde ad jordum og lausafe, mikelmenne og hardlyndur. Hann skaut þessu ordtake vid, þá til hardlyndra manna talad var: **Engenn er verre enn Ormur at Hnerre.** Miklar deilur og klogumál urdu um arf epter Orm. Hann dó barnlaus madur, hafde átt laungetna dóttur. Hennar skilgetner nydiar þóttuz arf ega, en adrer villdu reingia faderne hennar, og ega so Orms arf. Um þær arfadeilur er oflángt ad skrifa.

Tvær formyrkvaner Túngls, fyrst 2 dag Aprilis, eptermiddag, vid 9 slag, þad var þridiudag; Annann tíma eirn fostudag, vid 7 slag.

[Bæar brune á Ketu fyrer nordan. Þá uppgaf Friderich 2 bændum kríngum Kaupenhavn 17448 tunnur korns í Nýársgiof O. E. S.)

Þann 4da (al 12ta) Aprilis fæddez kóng Christían 4de. Ein stór Cometa sáz, hvar um Tycho Brahe skrifar eina stóra bók.

bók. Samansafnadur til*) Torgam. annann tíma til §) Bergam klaustur samankomu Jacobus Andreæ, Selneccerus, Cornerus Chemnitius, Chytræus, Musculus, um Concordiu bók. Af kóng Friderich upphófz ad byggia á Króneborg. Martin Farbysser siglde eina fárlega reisu til Grænlands, og vestur í Americam, fann þar eina stóra summu gulls.

Anno 1578 sumar gott. Hret um vetur nætur, tíndez margt fe vída. Vetur gódur, en vor missafut, fell vída fe. Kom jardskiálfte epter allraheilagra messu um kvolld, so húsenn hristuz hálfa stund. Komu ráns víkingar med herskip á Vestfiordu, giordu stóran skada í ránum, mannslogum, heimsóknum, kvenna þýfingum og odru illu.

[A þessu ræníngia skipe var med einn fálkafángare, sem óvilld hafde á Eggert Hannessyne. Þeir komu heim á hanns gard Bæ óvart, tóku hann hondum, hofdu til skips, helldu honum um hríd, og var útleystur med miklu kvenusilfre, sem var ad sogn Ragneidar hanns dóttur uppá 13 konur. Siglde Eggert med Þýdskum, og fann þessa reifara í Hamborg, klagade þá, vóru rettader sem náduz. Kom Eggert híngad aptur. B. S.]

Hertoge Uldrich fæddez í Colding 30 Novembris. M. Niels Hvíd útvalenn til biskups í Lúnd 1ta †] Decembris. Bænadagur í Danmork og Norege 27da, 28. og 29 Januarii. Eirekur kóngur í Svíaríke deyr í fángelse til Orebo í Finnlande, Utgengu til Stockhólm 23 Articular, innehalldande

 orsok

*) Tragon. §) I Beracen klaustre.

†) Novembris.

orsök til hanns fángelses og aftetníngar. Samband millum Niðurlandz og drottníngarennar af Englande.

Anno 1579 kom miked fiúk á Jónsmessu um sumared, dóu þá mikler penníngar, var kallad almennelega þar epter Jónsmessufiúk. Misjafnt sumar, enn fiúk um haustied, fyrer Mariumessu sídare. Vetur godur til Kindelmessu, deyde hustrú Christín Gottskalksdótter biskups, í Glaumbæ hiá Síra Gottskalke syne sínum Jónssyne. Hún hafde átt 3 syne vid sínum bónda Jóne Einarssyne þeim seirna manne, sem var Síra Gottskalk, Olaf og Egel. Egell bió ad Skarde í Lángadal; en átte Gudrunu dótter Þórleifs Pálssonar løgmanns frá Skarde vestan. Olafur Jónsson átte Steinunne Jónsdóttur, er fyrre átte Síra Biørn Jónsson Arasonar biskups. Dótter þeirra Gudrún Olafsdótter í Snóksdal, sem átte Hannes Biørnsson.

Kóng Friderich sender og gefur til Islands VI byssur, í hveria skýslu, og átta spiót, so menn gæte sig helldur vared, fyrer ágánge útlendskra illmenna. Doctor Niels Hemmíngsson tekenn frá sínu embætte og fer til Roskilld, fyrer því hann samþykte med Calvino um Sacramented, hveria meiníng hann þegar endurbætte og apturkallade. Illuminati, sem tillogdu samegenlegleika med annara manná húsfreium afdæmaz. Fridur á þeim ásetta trúarlærdóme giordur í Niðurlandenu, med vissre ti sogn. Kennedómurenn burtrekenn af Antverpen. Holsteinsker furstar tóku Slesvíkur hertogadóm í lien, af kóng Friderich 2, á Ottenseyar herradege. Kóng Friderich gefur þeim Hamborgurum frí aptur þeirra skip, sem hann hellt fyrer þeim

6 ár, og af kónglegre náð tilseger þeim þeirra fríheit. Kóngurenn í Pólen strider í móte Moscovítum, og nær af þeim nockrum föstum stødum. Moscovíta stríd á móte Liflande í III. ár. Jóhan Casimirus tekenn af drottníngunne í, Englande í Riddaraordu. Carl kóngur í Svíaríke Gustavi son, hertoge í Finnlande, helldur sitt brullaup med Aunnu Mariæ, kiorfursta Lodvigs dóttur af Pfalsen.

Anno 1580 geck kreddubólan, kallad kreddusumar, kreddu ár, segia og útlendsker Annálar þá hafe landfarsótt genged um alla nordur álfuna. Eins geingur [eingingar] sótt á Íslande. Dóu marger úr henne. Sprack og hlióp fram Middalsjokullenn, med elldgánge, sundur hiá Þyckvabæar klaustre, so bæer eyddust, enn ei sakade fólk. Dó Síra Þorsteinn Gunason. Urdu þyter í lopte. Þorsteinn prestur var skáldmenne, og kvad margt skemtelega, sem og hanns fader Gunne, er var á Hólum, ofarlâ á dogum biskups Jóns, sem hann getur biskupenn í vísu sinne þeirre hann nefner í, sitt skáld úr hverium fiórdúnge.

Olld seger afbragd Skállda
Einar prest fyrer vestan
Hallsson hródrar snille
hefur kunnad fyre sunnan
*] Blind hafa bragnar funded
brag traustann fyrer austan
**) Gunna er geted ad sønnu
greidordur se fyrer nordan.

Einar prestur þesse hefur vered Einar Snorrason frá Stadastad, hinn gamle. Jón Hallsson bió austur í Næfurhollte, og síd-
 ar

*] Blindann. **) Gunni get eg ad sønnu.

ar í Eivindarmúla, haldenn margfródur, hann kvad Ellekvæde, og margt annad. Sigurdur blinde hefur eitthvert best rímaskáld vered á Islande; hanns rímur bera af flestum kvedlíngum, bæde til kennínga og ordsnille.

[Siglde Eggert Hannesson í sídasta sinn af Islande, hafde vered hyrdstióre og lögmann her á lande ádur. Jón Eggert son var ádur sigldur fyrer morgum árum, hafde Eggert safnad saman giallde, og sendt út smámsaman, eirnen skreid, smior, vadmál, og þar láted á rentu setia til Hamborg, so þad var ad sogn *] þríklyft vid jardagótz, frída og dauda aura, sem greindur Eggert gaf dóttur sinne Ragneide her. Hún átte Magnús Jónsson, þau binggu ad Bæ á Raudasande epter Eggert. Þeir fedgar kvongudutz til Hamborg, og binggu þar sídan, hvar þeir og dóu. Jón Eggertsson átte tvo sonu, hetu Arne og Eggert. Arne giftez í Hamborg, átte tvær dætur B. S.]

Ein Cometa sen í Octobri. Umgángande siukdómur, edur landfarsótt, nær yfer alla Europam. Stor elldskade í Ribe. Concordiæ bók útgengur, og bífalaz kyrkiunum í Saxen. Frúen Augusta fædd til Coldíng 8 Aprilis. Hertoge Hanns sá elldre í Holstein deyr til Hadersleb 2an Octobris. Franciscus Dracus útsiglde af Englande Anno 1577, þann 17da Novembris, med 5 skip, siglde í kríngum alla jordena, kom aptur þann 21 Septembris med 1 skip, en miked fe, á þessu áre.
Anno

*] Tvíklíft.

**) Draco.

Anno 1581 let bónde Magnús Jónsson, dóm gánga á Vestfiordum, er sýsslu hafde í Þoskafiardarþínge, um þann stóra ósid og almennelega fordiorfun, (er hann og dómsmenn so nefna) sem einnenn foroktun og afdrátt Danmerkur og Noregs krónu, og kóngsens fyrerlitníng, er þar til af nockrum óforsóktum sýsslumonnum, og fóvitum, fyrer fám árum, sem ei ad eins med skylldu hefdu afskipad, helldur med heipt og vallde fyrer morgum dugandes monnum brióta láted vopn og verjur, helldur og oll afdæmt, so ei hafe fundez, edur varla, um alt landed sá madur, er lagvopn hafe átt, edur þorad ad hafa, ísa edur votn ad reyna, edur glepsande hund frá ser ad slá, móte allra lunda og þióda ollum plagsid, venju og logmále, um alla verolldena, Somuleides móte Íslendínga venju og plagsid, sem plagad hefde til þeirra daga, frá því fyrst Ísland hefde fundez, og byggz, er allrahanda vópn hefde átt og haft, og sínum bornum so eptter sig láted, sig so vared og verndad fyrer annarlegum þiódum, sem dæmenn være til; fyrst um Haralld kóng Gormsson, sem rikte í *) Danmork, og villde hafa siglt til Íslands, med **] miked skipalid, fyrer þad Íslendíngar hofdu kveded nýd um hann; Item, Hákon kóngur, villde heria á Ísland fyrer sunnan, og hefna á þeim Sæmunde Jónssyne, og Oddaverium, fyrer manndráp; Eirnen geta þeir um athafner Engelskra manna, er ætlad hafe ad heria á Hólastad, og slegner hafe vered af rádzmonnum stadarenns, og Skagfyrdíngum, nærre LXXX, og fleire á Hofdastrond; Nefna þeir og, ad Engelsker hafe dreped Svein Þorleifsson, kóngsens fógeta af Danmork, og so optar sleged menn og dreped, sem í Grindavík; einnen þann velbyrduga mann Biorn Þorleifsson kóngsens fógeta, med odrum morgum, er Eingelsker slóu í Rife

*] Noreg.

**] 15 skip.

í Rike, sem 5 ára strídhefde afhlotiz, millum Danmerkur og Englands, so og vißu menn breitne og áform, sem Sacharias §) Kobenhard hafde fyrer sunnan og vestan, (einn víkíngur) þar med munde monnum ei úr minne lided, sá ráns og illvirkia yfergángur, er spillvirkiar hofdu haft á Vestfiordum, þá fyrer 3 árum, og ætlad ad giora um allt Island, hverkar skammer og smáner menn hefdu orded so búed ad hafa, fyrer veriuleyse, hvers alls ills tilefne, være sá dómur, er af hefde dæmt vopnenn, og veriurnar, og uppá þad [segia þeir] ad ver reynunz ei ættlerar, edur fordiarfarar vors fodurlands, þar med landrádamenn, vid vorn náduga herra og kóng, því þad være ei hæfelegt, ad vilia lída skom̃ og skada á ser, og sínum bornum, konum og góße, og peníngum, fyrer sína heimsku, og fórsiónarleyse, og ómensku, og uggande være, ad enn mætte verra verda, hvar ei være stórar skordur vidreistar, því villde sagdur valldsmadur [segia dómsmenn] epter háttalage, og formætte fátæks almúga, og annara bænda í hanns sýsslum, fyrerkoma, og vidsporna.

Einnig hafde sagdur valldsmadur um þetta rádgaz vid heidurlegann mann, Jóhann Bucholt, kóngsens lensmann yfer Islande, og hefde hann samþyckur orded, ad um þetta skyllde fullnadar dómur gánga; nefna dómsmenn og, ad þeirra náduge kóngur hafe sýnt sína millde, og kónglega nád í því, ad senda híngad til Islands fyrer ecke VI byssur, og VIII spiót í hverja sýsslu, sýnande sína millde og kónglega nád, og vilia, hann hefde þocknan á vorum atburdum, vopn og veriur ad kaupa, og annann vidurbúníng ad hafa, so menn mættu sig og sitt veria, hvad einge kóngur hefde þar til so milldelega giort vid

Islend

§) Hoben.

Íslendínga, hvad þeir hanns nád þackande eru. Þar næst nefna dómendur sinn fákunnugleika, um slíkt vandamál ad dæma, so þeir sedner eda álitner yrde *) nein nýʼ log ad byria, þá þó samt villdu þeir siñe skylldu nockra fullnægin giora, epter sínum fremsta formætte, enn þad annad þeir fenge ei yfertekeð fyrer logrettuna her, sídan fyrer siálfann kongenn, og ríkesens rád í Danmork, hver siálf skyllda monnum bære sitt fodurland veria, og hver sok skyllde vid liggia, ef nockrer fornæmduz þar í móte ad giora, því þeir segiaz heyrt hafa, ad oll almenneleg naudsýn allra landa være innefalenn í fiórum hlutum, sem er. 1. Í sidum og embætte. 2. Í logum og rette. 3. Í vernd og vardveitslu síns fodurlands. 4. Í þeirre heilogu Religion kyrknanna, og skólanna, því villdu þeir fyrst fyrer hendur taka, hvernenn menn skylldu fylge veita, hvernenn kostnad hver skyllde tilleggia, hvar vitar skylldu látaz, hverier þá skylldu kinda, hverier útvordu og innvordu skylldu hallda, hvar menn skylldu hæle hafa, og hverier búsmala og adra hlute skylldu undan hafa, hverier vopnfæra menn skylldu telia, og vita í hverre sveit. Sømuleides hver verkfære monnum være þarflegust, til undanfærslu, og hver graftól menn skylldu hafa, sídast hver vopn og veriur menn skylldu í landed kaupa, og hvad morg hver skyllde ega.

Þar næst dæma þeir alla í því takmarke skylldugа, frid og gott samþycke vid alla útlenda menn ad hallda og hafa, og epter fride ad leita, og oll tilefne þar til finna, ad allur ofridur og upphlaup, og ósamþycke mætte nidursetiaz, og menn fortuduz allar tilbeckíngar vid adra menn, og þó yrde þad sama med allre hógværd sátt samed nidursett, og sleiged. En kynne annars ad

 ske,

*) Ecke nein.

sk. edur verda, þá dæma þeir alla menn, ríka og fátæka, sitt fødurland ad veria, og kóngs umbodsmann flocksforíngia ad vera, edur þann annann, er þar þyker í hanns stad best tilfallenn, bæde ad horku, fyrersión og skinseme. Somuleides honum skylduga alla ad hlída, ríka og fátæka, únga og gamla, og þeim mønnum hann sette yfer hveria, því so votta logenn um kóngs kosníng. Item hníge þar ad eydur hyrdstiora og lendra maña; item bænda eydur og alþýdu; item **Mannhelge:** ef menn ræna edur heria; item **Mannhelge XVI. Nu hefur sæ ei lids kost.** Her epter dæma þeir alla skylduga, sig og sína menn ad øllum hlutum kosta, so lenge sem hernadur yferstæde, og vors kóngs vernd kynne ecke til ad koma. Her med dæma þeir hreppstióra í hverre sveit menn til ad kalla, og elld kveikíngar á hædstum hædum ad setia fyrer næstu krossmessu, þar sem allavega mætte reyke siá í bygder, so og þá skylduga til vita ad kinda, og vørd ad hallda, sem hreppstiórum þættu trúlyndaster, og lettvígaster vera, og sýsslumann sem fyrst vid varann giora. Eirnenn dæma þeir sýsslumann, med hreppstiórum, og ødrum skinsømum mønnum, um ad rádgaz fyrer krossmessu, hvar sem þeim þætte skást hæle og virke ad hafa, so ad gamler menn, og pilltar unger, med konum kynne børn og búsmala og adra hlute þar í nánd ad færa, og aller vopnfærer menn sig samantæke, alla stigu og epterfarer órádvøndum mønnum ad banna, þeim áráser ad veita, med ráde sýsslumanns, og annara manna; so og dæma þeir hreppstióra skylduga alla vopnfæra menn ad telia, og sýsslumanne ad kunngiora, og þad hver ætte kour, ad hann kynne audrum benda, og vidvara, þar því mætte vidkoma, og so skylldu aller skyllder, epter því sem *] fræklæk hefde, klásu og hrip, edur vogur ad ega, þar þeir mættu med

*) Færleik.

med skynde sinn varnad í láta, og þeir mættu ei skipum vidkoma, so og skylldu þeir ega axer, pála, pálrekur, og adrar rekur ega, þar ed þeir mætte garda og grafer umhverfes sig giöra, gyrda og grafa, so þeir mættu fyrer áhlaupum og umsatrum sinna ovina ugglaúser vera. Item ad þeir kynne eina fylkíng ad giora, med vite, hvert þeir skylldu kyrru fyrerhallda, ad snúaz, edur epterrenna. Þetta og annad þyrfte þeir ad læra; og þeirra rádum fylgia, er her visse nockur deile til, so þeir yrde skickader til alls þessa. Sídan víkia dómendur rædu sinne, hvad gamlar lögbækur og hirdsider tala um vopn og veriur, ad þær votte bændum vopn og veriur, lagavopn *) hverium bónda í sinne stiett, einvirkium í sinne stiett, og sumar jafnvel þrælum, ef þess være þörf. Item, og af því vite aller menn, ad þesse ege ad vera skyldar vopn handgengenna manna, lendra manna, og sýsslumanna. Ber þeim því fleire vopn ad ega, sem þeir hafa meire metord, og tillögur, af kónge, enn adrer menn, [enn hver skutulsveinn skal ega alla hardneskiu, fyrst Spandhlarvopu, Treyu, Bryniu, Brynkollu, og Brynglóa, Brynhosur, Hiálm, Stálhúfu, Skiold og Sverd, Plátu, Spiót og Buklara, Handboga med tvennum tylftum brodda. Þar fyrer í þann tíma dæma þeir alla skattbændur skylduga ad kaupa, og ega eina Luntabyssu, og 3 merkur púdurs, og þar med einn atgier, edur annad lagvopn, gillt og gott. Item hvern þann mann einhleypann annann, hvern þann er á 10 aura skulldlausa, ad ega lagvopn §) og Skigkníf, og þá ei bera, utan í mót útlendum, og ege sínum landsmönnum, og í þrong ad fremia, hvar þeir mega ei lengre vopna nióta. Item alla adra, únga og gamla, þá sem være yfer 15 ára, skylldu skyllder eitt lagvopn ad ega, her giört epter þeirra efnum, því þeir fá vidkomed;

 hver

*] Fullum. §) Stigkníf [Stikt-kníf].

hver sem XX Hundrud ætte, hann kaupe epter sinum fiárveyte, epter því sem hver átte, XX Hundrud til Byssu) Boga, og Lángspiót, fyrer hvern sinn vígfærann mann, og adrar veriur, sem hann ætte gagnlegar, epter dýrleika, og hann yrde tilskickadur, epter dóme, edur kóngsens skipan,] og med því aller væru hanns undersátar, og fríer af ollum leidángurs ferdum og útbodum. Sídan dæma þeir sinn dóm til logrettu, under hofuds mannsens, logmannanna, og logrettunnar yfersýn, þad af ad taka sem offrekt være, en því vidyke sem vant þætte, og hver sekt á skyllde vera, ef af være brugded. Bidiande sídan alla og serhveria dugandes menn þeirra fávitsku og kunnáttuleyse ad umbera, godann vilia fyrer verked taka, og vonande tik allra, er sitt fior og faudurland, konur og born, frændur og fe, gótz og garda elskudu, mundu þetta fánýtt erfide og samsetníng í besta máta virda, þykiaz ei so stóru efne í styttra geta komed. Samþykt af Magnúse Jónssyne, og skrifad ad Bæ á Raudasande.

Þetta má hallda bæde skinsamlega, naudsynlega, og roksamlega dæmt, og hefde vered þarflegt uppe ad hallda, og er undur slíkur dómur hefur ecke framkvæmd fenged, um landed, so menn væru ei þeir orkvisar ættar sinnar, ad ei giore annad enn gala og flýa, þó einn lekabátur ad lande kæme, edur ad vera tekner, og hendter heima, hver í sínum stad, sem búfe í haga, hveriu vorer forelldrar edur forfedur mundu alldrei trúad hafa, í fyrre olld, ad sóddan óolld yrde. Magnús bónde Jónsson er þennann dóm med odrum skinsomum monnum dæmde, og samsette, var roksamlegur madur, og hofdínge, sem heyra má í þessu sogdu efne, og uppttekt. Einn hanns hofdíngs skapur var sá, er menn sáu alltíd, er hann reid á Alþíng, ad hanns

hauns selskapur var audkendu: frá annara hofdíngia fylgd, í því ad þeir hofdu aller nær lagvopn, og sette hver einn upp sitt vopn er heim á Þíngvoll ridu fyrst, og voru þad 40 menn vel so, er slík lagvopn hofdu. Þetta var so hvert sumar, medan bónde Magnús sat uppe, því hver madur keppte ad vera í hanns fer, er til þíngs erende hofdu. Magnús var miog vitur madur, og ágætt skálldmenne, sem hauns kvedlíngar vitne umbera. Hann átte Ragneide dóttur Eggerts Hannessonar logmanns, og vid henne margt barna, sem voru 5 syner og *) 6 dætur, sem alldur og giftumál auded vard. Elen het fyrre kvinna Magnúsar. Ei vard þeim barna auded, so á fætur kæmez. Jón var sýsslumadur í Dolum, lánga tíma, hanns elldste sonur, vitur madur og vel ad ser. Hann átte Astride Gíssladóttur logmanns, Þórdarsonar logmanns, Gudmundssonar, þau áttu fiollda barna. Are var sýsslumadur á Vestfiordum lánga tíma, hafde Isafiardar og Stranda sýsslu lenge, stór madur ad vexte, miog hofdínglegur. Hann átte Christínu dóttur Hr. Gudbrands biskups, þau áttu nockur born. Jón var 3die sonur Magnúsar sem Dan kalladur var, hann átte Ingvellde, dóttur Gudmundar Helgasonar, hafde einge volld, frá Eyre í Eydesfirde. Biorn var 4de sonur Magnúsar, hann hafde Bardastrandar sýsslu. Hanns kvinna var Sigrídur, dótter Dada bónda Biarnasonar frá Skarde á Skardstrond, og Arnfrídar Benedictsdóttur, hins ríka Halldórssonar, frá Modruvollum. Eggert het son þeirra. Sídar átte Biorn Helgu Arngríms-dóttur. Þeirra born Síra Páll og Sigrídur. Þorleifur fimte sonur Magnúsar. Hann hafde sýsslu á austurlande, bió ad Hlídarenda. Hann átte Gróu dótter Gísla Arnasonar, Gíslasonar, Hákonarsonar, frá Hafgrímsstodum, þau áttu eina dóttur.

S 3 Þor-

*) 5 dætur.

Þorleifur átte sídan adra konu, og vid henne son og dóttur. So bar vid, ad óvilldar rígur fell á mille þeirra Arna bónda Gíslasonar á Hlídarenda, og bónda Magnúsar Jónssonar, so þeir sintu í ordakaste á Alþínge. Magnús sagde vid Arna, ad ei þyrftu þeir þannenn ad láta, mille þeirra og þeirra nidia mundu mestu tengder verda á Íslande, þetta hefur í margann máta fram komed. Son Arna Sæmundur átte Elenu dóttur Magnúsar. Sonar synir Arna, Einar og Biarne Hákonarsyner, áttu dætur Magnúsar; dóttur son Arna Henrich, átte Gudrúnu Magnúsdóttur. Are og Arne, elldre syner Magnúsar, áttu dætra dætur Arna. Þorleifur átte sonar dóttur Arna. Biörn átte bródur dóttur dóttur Arna í sídara sinne. Ejólfur dóttur son Arna, átte Ceceliu dóttur Magnúsar, og hvernenn þær ætter eru margfalldlega samteingdar kemst ei í lítid mál.

Samþycke millum kóngs Friderichs, og hertoga Adolfs af Holstein, um arf epter hertoga Hanns. Pápistkur kennelídur med skálkahættum, sátu um drottnínguna af Englande, og straffaz þar fyrer. Jesuitar burtdrifner af Englande. Ryg gefur sig upp fyrer kóngenum af Pólen, og hann gefur þeim ný privilegia. Narven í Líflande, og adrer stader í Russlande, inntakaz *] af Polskum frá Moscovitum. Um hiónabanded articular útgefner í Danmork, af kóng Friderich, med lærdra manna yfersýnd.

Anno 1582 deyde Jón frá Jngvelldastodum, á jordunne grof sunnan til under Svínaskarde, grafenn á Mosfelle. Hañ var í nordurferd um vored, epter vertíd; var hann í marga vetur formadur í hofnum sudur, fyrer kóngsskipe, því hann hafde Jng-

*] Frá Svenskum af Moscoviten.

Ingvelldastade, og þar jarder, meir enn 30 ár. Í þann tíma voru hluter mikler á Sudurnesinn, VIII Hundrud, IX Hundrud, og alloft lestarhluter. Jón feck þar marga vetur *) lestarhlut. Jón frá Ingvelldastødum var Jónsson, Ormssonar, skipara Runólfssonar. Syster Orms Einarssonar var Gudrún Einarsdótter, hún átte tvo sonu vid Sæmunde Símonarsyne: Jón prest, er lenge hellt staðenn Kvíabeck, hann átte mørg børn. Annar son Gudrúnar og Sæmundar var Kár, hann átte 16 børn, þau úr barnæsku komuz. Einn hanns sonur Sæmundur prestur, hellt Glumbæ 44 ár. Móder Jóns á Ingvelldastødum het Þórunn, og var Gísladótter, Arnasonar, Þorbiarnasonar, Arnasonar Gulls. Arne þesse var kendur vid gull þessvegna, hann hafde siglt í England, vered þar um tíma, og kom út híngad med gull miked. Arne het bróder Þórunnar, hann átte dætur margar. Arne átte §] Kumbustade í Sæmundarhlíd, og bió þar lenge, hann átte Christínu Jónsdóttur, Einarssonar, Oddssonar. Gróa het móder Þórunnar, Grímsdótter, Sigmundssonar. Asgrímur kom úr Steingrímsfirde vestan, og Sigridur kona hanns, til Skagafiardar, epter pláguna sídare. Jón var lágur madur og þreklegur, gæfur madur til sinnes, reiddez allskialdann. Hann miste fødur sinn úngur, og hliop hann einn vetur sudur med vermønnum, þeir skylldu hann epter vid Ellida ár sudur, og komz hann ei epter þeim, hvarflade hann þá fram á Seltiarnanes, þar bió kona ein, het Gudrun Ormsdótter, fødur syster Jóns. Hún var þá eckia, hún tók vid Jóne, og þar ólst hann upp, og mannadez so, fór aptur nordur, og giftez, tók Ingvelldastade, grædde miked lausafe. Hann átte Gudrúnu Ketelsdóttur frá Kiotu, Ingemundar

*] Skreidarlest í 1 hlut.

§) Kimbastade.

arsonar Sigurdssonar. Jón hafde opt mikenn byr hiá donskum á Bessastodum. Eitt sinn um vor kom hann til Bessastada, þá het umbodsmadur þar Eirekur Jacobsson, þeir drucku til samanns, geck Jón út, og þá aptur innkom, mællte Erekur: sit nú enn hiá mer um stund Jón Titlíngur. Jón geck ad bordum, og sló hann lodrúng all óþeckelegann, og mællte so: se eg titlíngur, og skalltu fá titlíngsslag. Tveir voru menn med Jóne nordlendsker í stofunne, og hlupu þeir til hanns, þar voru og fim̃ útlendsker menn inne. Eirîkur sat og þagde um stund, og mællte sídan: **O du Jon tører du at slaa Kongens Fovet her udi hans Stue?** Þá sagde Jón: þú hefur sed ad titlíngurenn flýgur opt so hátt sem ørnen. Nú Jón, sagde Eirekur, sit upp og dreckum til samans, sættuz þeir so. [máske Jón hafe mátt láta til nockud sídar ad smyria kinnena med.] Af þessum Jóne er fleira ad skrifa, vil þad her ei allt innsetia. Þá Jón var andadur um vored, fór til Ingvelldastada Jón Jónsson logmadur frá Þíngeyrum, og sagde Jón hefde beded sig um veturenn, ad taka ad ser konu, born, og peninga, ef hann ei aptur kæme ad sunnan. Jón logmadur tók þar fe allt lítt virdt, fyrst 20 Hundrud sem Gudrún skyllde ega (til umbods), og engenn 30 Hundrada betre. 6 voru born, 3 syner, og 3 dætur, var so tilláted, ad 14 Hundrud fenge hver sonur, og 7 hver dótter, (ei komu þar oll kurl til grafar.) Jón logmadur tók 4 bornenn, kom einu á Sigurd bródur sinn á Reynestad, og for Biorn þángad þetta sama vor, og var þá 8 vetra gamall.

Kóng Friderichs 2. bref útgengur, ad Mandatsbref sem útgánge halldez vid magt, og sekter vidlagdar. Kóng Friderich

rich inntekst í riddara ordu í Englande, af Elizabeth drottníngu, fyrer sína legata. Rasmus Lætus deyr. Dr. Jens Skeaderup deyr til Biorgvin, í hanns stad kemur Andres Foss. Fr ður millum Polen og Moscoviten. Kóng Stephan af Polen giorer samband vid hertoga Magnús af Moscovien, og fær allt Lifland innteked. Gregorius 13 lætur úthrópa þad nýa Calendarium, tók nú páva tign. Printzen af Uranien veri ur skotenu af einum Sponskum, enn verdur heill aptur. Keysare Rúdolph annar, helldur sinn fyrsta herradag til Augsburg.

Anno 1583 Johan Buchhollt samt hyrdstióre. Þórt ur og Jón Jónsson logmenn. (Skiptapar tveir á Þorkotlustodum í Grindavík, annad skiped ætlade ad hiálpa hinu, á bádum þeim skipum voru 25 menn, komz eingenn af. O. E. S.]

Sterk edur stríd pest í Danmork, þá deyde í Kaupenhafn 9000 manna; í Málmey 700; í Helsíngiaeyre 1200. Banadagur þar þann 18. 19. 20. Novembris. Hertoge Hanns fæddur til Hadersle 26 Júlii, sem deyde í Moscow 1602. Hertoge Magnús kóng Christians 3dia son deyde í Liflande 13 Martii. Oeiníng millum kóngsens af Danmork, Líbskum og Rostockurum stillez.

Anno 1584 landskiálfte mikell á Islande. Let sá virduglege Herra og vellærde biskup Gudbrandur prenta bibliu *) á Islendsku, naudsynlegt verk og kostnadar samt.

Hertoge Christian 4de útvalenn til kóngs í Danmork, 7 ára gamall. Hr. Jorgen Lyche deyr. Gvilhelm páve annar.



*) á Islande.

Einn Engelskur leynelega med svikum sat um drottnínguna á Englande, af Jesnítum þar til eggiadur, ad þeir kynne ad innsetia þá Skotsku drottníng Mariam í hennar stad, enn þesse skálkaraskapur vard uppvís, og leid hann sitt straff. [Í Oslo í Norege sást teikn á sólunne, innan í sólunne madur síd klæddur, standande á kniám, og fórnade hondum til himna, hiá honum tveir vender, sinn á hveria hlid, ad sólunne komande adrer 4 vender, sinn úr hverre hofudátt, austre, sudre, vestre og nordre. O. E. S.]

Anno 1585 deyde sú ehrusama kvinna Halldóra Arnadóttir ad Hólum, hustrú Hr. Gudbrands biskups, áttu epter einn son Pál, og dætur 2, Halldóru sem ei audnadest giftumál, og Christínu.

Dr. Claus Hanener Græcus professor í Skáney nidurfell í einn brunn, og þar aumlega deyde hann 16 Maii. Í hanns stad kom Meistare Christian Michelsen, og epter hann Dr. Andres Kraghe. Kóng Fridrich annar sigler med einn skipsflota til Bahús í Norege. Jóhan Adolph verdur biskup til Bremen. Gregorius páve deyr sá 13de. Sixtus páve fimte í hanns stad.

Anno 1586 sótt á Íslande. A Marteins voku sáust 3 túngl á himne, med einum stórum rosabaug, og geck eitt hellte igegnum oll þrin, sídan komu adrer smáer rosabaugar í kríngum túngled, so ad lite nærre sem regnboge; sá ydste á þeim var grænn, sá annar blár, þridie raudgulur, sem var sá inste, og því næst var hvítt í kríngum siálft túngled. Þenna vetur skede sá undarlege tilburdur á Hólum í Hialltadal, ad einn uppvartarmadur Vigfús ad nafne, sonur Síra Jóns, sem kalladur var Prinne, af Siglunese, hver vered hafde í skóla, en þá

skick-

skickadur í prenthús, hengde sig siálfur í snære, í Hólakyrkin hiá alltarenu. Biskup Hr. Gudbrandur fann hann siálfur fyrstur manna, því hann hafde þar nærre ser í snoruna komed, sem biskup var vanur ad giora sína bæn kvolld og morgna. Leikade Magnús *) Hennúngsson §] Grænlands, kom í Háfner her sudur, fann landsmenn enga. Vegenn Ingemundur Jónsson under Jokle, þad víg kent Arnóre Arnasyne, og Gudmunde Sturlasyne, kom þad til Alþinges í 12 manna dóm, villde Gvendur ei kennaz um neitt; honum dæmdur tylftar eydur, ad hann hefde enga atvist veitt ad skemma edur særa Ingemund, þá hann var vegenn, med fleirum greinum; sem sá dómur hlióðar. Arnor medkendez ad hann hefde veitt Ingemunde nockrar ákomur; dæmdu þeir Arnór útlægann til kóngsens, og skyllde flytiaz af landenu, epter ráde logmanns og sýsslumans, og yrde hann skendur, skyllde hann svara fullum bótum erfingium hinns vegna, epter því sem sá være madur til er vegenn var; og so þegnbætur, utan Gudmundur felle á eydenum, þá skyllde Arnor giallda hálft þegngillde, enn ei meir.

Kóng Friderich reiser til Luneborg, hvar kiorfurstarner af Saxen og Brandenborg, med odrum furstum voru samankomner. Hertug §§) Albert í Holstein deyr 1 Octobris. Elizabeth móder drottníng Sophiu dó 15 Octobris. Hertoge Augustus kiorfurste, og kóng Stephanus í Polen deya. Kóngur í Persien berst móte Tirkianum í tvo daga, og vinnur mikenn sigur. Frans Draco inntók frá Sponskum Hispaniolam, og Cartagenam. Nockrer af adlenum í Englande, sátu leynelega um drottnínguna, þó forgefens, og straffaz tilbærelega. I

 somu

*] Henisson. §] Grænalands.

§§] Adolph.

so nu sok drógst drottningen af Skotlande, en hún þrætte þar fyrer.

Anno 1587 var víg unned á Stad í Grindavík. I Selvoge rak undan 2 áttæringa, skírdag, med 24 mönnum, hvar af 4 kómuz lífs, komuz þá vedrenu slotade fyrer utan Herdísarvík. Einn af þeim rásade í burt, og fannz ei aptur. marger lágu dauder í skipunum. Deyde Hr. Gísle Jónsson biskup í Skálhóllte, á Gordum á Alftanese. Þad sama ár deyde og Arne bónde Gíslason á Hlídarenda. [Hr. Gísle Jónsson andadez í Gordum á Alftanese, í sinne Visitatiu, var alljafnt á fótum, enn þó veikur af elle, hafde þó hvern dag sínar dagleider, so sem hann hafde ásett. Þann dag sem hann andadez, geck hann til kyrkiu, og let lesa fyrer ser einn Capitula í bibliunne epter vana, þar epter kvartade hann um ad ser være flokurt, geck sídan med Síra Jóne Krákssyne, sem þá hellt Gardastad til Badstofu; sat þar litla stund, var honum þá bored varmt vín, hvert hann medtók, seig þá ad honum líteleike, so hann fell í ómegenn, so var hann strax strax borinn til hvílu, og lagdez fyrer, talade fátt úr því og andadez hægt skommu fyrer hádege, þann 30 Augusti. Epter 2 nætur var líkame hanns fluttur fyrstu dagleid til sudur Reykia, annara ad Þíngvollum, þridiu í Skálhollt, med miklu fiolmenne hanns vina og kunníngia, var jardadur rett fram undan predikunarstólnum, hann var þá 74 ára gamall. Þad haust sem Hr. Gísle dó, var vegenn á Stad í Grindavík Ingemundur, Hákonarson. Helge Ulfhedenson líste því víge á sig, var Helge so miog skiemdur ad hann lá máttlaus, þá bartskerenn sem sóktur var frá Bessastodum M. Hans Þyskur kom til hanns. Ate Helge hendur sínar ad veria, hann var mikel menne, enn

Ingemundur kom uppá hann í kyrkiunne, og manade hann út, og uppá sig, hvad Helge þolde ei. Enn ecke var í kyrkiunne hiá honum nema presturenn Sr. Jón, sem þá helt Stad, hañ vilde aftra Helga enn rede ecke vid hann. Biorn Sturla son mágur Helga var gengenn inn í bæ, so Helge hlióp út slippur, Ingemundur hafde sett sinn kordahníf fyrer utan kyrkiugardenn, hió uppá Helga, so hann fekk mikid sár í hofuded, annad á hondena, þridia á handleggenn, enn Helge var þad karlmenne ad hann tók knífen af Ingemunde, og hió hann eitt hogg í hofuded, so hann fell á knie, þá kom Biorn Sturlason ad, og var sogn manna, ad hann munde þar hafa á bætt, lifde Ingemundur mest 2 edur þriar nætur epter. Biorn siglde fyrer þetta málefne, enn Helge bar sín orkumsl til daudans. O. E. S.]

Drógz ein síld í Víkenne í Norege, med undarlegum bókstofum, hvar um ad vóru adskilianlegar meiníngar, enn Norsker segia bodad hafe þurd þeirrar miklu síldar veide, sem skede áred epter, so ad morg skip [100] fóru þadan forgefens, og þetta hafe komed til af ógudlegu athæfe, þar sú gáfa var frátekenn. I Schanderborg hefur hertoge Matthias, bróder keisara Rúdolfs, sem sídan í hanns stad keisare vard, talad vid kóng Friderich. Drottníng Maria í Schotlande, moder Jacobs kóngs epter 18 ára fángelse hálshoggvenn, í Englande 8 Februarii. 6000 Þýsker *) deydder í Frankaríke. Geldern inntekenn af Sponskum. Sigismundus í Svíaríke, valenn til kóngs í Pólen, 22 Augusti, og krýndur 27 Decembris.



*) Þýsker riddarar.

Anno 1588 var Oddur Einarsson skólameistare á Hólum, útvalenn ad vera biskup í Skálhollte, og fer utan. Mannskade af vermonnum á Tvídægru, dóu 13, enn marger erkumlader á hondum og fótum, sagt hefur vered ad fleire hafe dáed. Drucknun Síra Hiallta af Fagraneße á Reykiaſtrond, þar á fyrdenum, og annara 4ra manna Þórláksdag fyrer jól. [Var á Alþinge kiorenn til biskups Oddur Einarsson, hver uppalinn var í Þíngeyar þinge, hiá fodur sínum Síra Einare Sigurdssyne, sóknapreste fyrst til Mývatns, og sídar á Neße í Adalreykiadal, var nockur ár í Hólaskóla, sigldе og stúderade lenge utanlands í Kaupenhafnar háskóla. Vard Baccalaureus og Vicepræpositus á klaustre, lærde og so hiá Tycho Brahe, haldenn á þeim dogum vellærdur madur, í túngumálum, og Astronomia, var sídar 2 ár Rector í Hólaskóla, fór utan á þessu sumre, og ordineradur til biskups, af biskupenum í Sælande Dr. Pále Matzsyne.

Sáz ein mikel cometa í Þýskalande, og Frankaríke, í Júlio mánude. Þá vóx einum sex vetra gomlum pillte í Nidursaxlande Jarl af gulle. I Frankaríke var einn kolamadur, hverium ad vóx eitt svart horn rett fram úr hofdenu, hann het Franciscus, var fluttur umkríng í landenu til sýnes. Til Speyr var ein stúlka Margret ad nafne, sem lifde 2 ár án nockrar fædu. Onnur het Catarina, er í 7 ár lifde án alls matar og dryckiar. O. E. S.] Kóng Friderich sá annar deyr gudlega og hægt á slotenu Antverskow í Sælande, þann 4da Aprilis. Nýar Disputatiur forbiódaz af þeim 4 regerande herrum, og befalaz ad predikez og kennez epter þeirre H. Skrift, og Ausburgisku Confessíon. Þeir lærdu spádu um þetta ár, ad annadhvert munde

mundе verolldenn forgánga, ellegar skede stór skade í Regimentunum. Sá Spanske flote útbúenn ad inntaka England, settez alldur á í þeirre hofn Enleto, af storme, og Engelskre magt rínglu dut, fá komuz gegnum Skotland og Irland til Galiciam aptur. Eitt stórt Spanskt skip, med margt fólk á, sem komz frá þeim Engelskn heilt og halldgott, til Kársund í Norege, gefed frí af þeim 4 regerande herrum,

Anno 1589 vígdur Oddur Einarsson biskup, kom út í Seilu sudur, med hyrdstióranum Lauritz Krass, litlu fyrer Alþíng, reid nordur í land um sumared, og var her áred. grassumar mikeд. Þann vetur sat Oddur biskup fyrst í Skálhollte, þá brunnu þar mest oll heyenn. [Kom út aptur Oddur Einarsson biskup, med hyrdstióranum Lauritz Krass, fyrer Alþíng, reid med honum uppá þíng, visiterade um sumared austfiordur, reid þá fyrst nordur til Hóla, til fundar vid Hr. Gudbrand, hver þá giorde ágæta veitslu móte honum, bundu þeir biskuparner trigd og vináttu sín á mille, sem og helst vel um þeirra daga, var þá og komenn til Hóla fader Hr. Odds Síra Einar Sigurdsson. Þadann reid Hr. Oddur med fodur sínum, nordur ad Nese, þá var Síra Sigurdur sammæddur Hr. Odds bróder, giftur Ingunne, og átte vid henne eitt barn, og epter bode Hr. Odds fór Síra Einar Sigurdsson, med

seinne

seinne konu sinne Olufu Þórarensdóttur, med ollum sínum hóp, á samt Síra Sigurdur bróder hanns, med konu sinne og barne, og bródur hennar, alls 16 menn ad tolu, nordan yfer Vatnahialla, um hausted í Skálhollt, og kom þá skomu sídar Hr. Oddur heim úr sinne austfiarda Visitatiu, sat þesse fiolskylda þar um veturenn, og framveiges sídan. O. E. S.]

Riked Danmork kónglaust, regeraz af 4 yferrádande herrum, Niels Kás, Petur Munk, Juren Rosenkrantz, Arild Hvitfeld. Dótter kóngs Friderichs 2. frú Anna, trúlofud kóng Jacob 6 í Skotlande, enn sem hún skyllde sigla til Skotlands, kom á mótbyr, rak til Noregs, og kóng Jacob 6 kom þángad til hennar 19 Novembris, og helldu sitt brullaup í Oslo, edur Opslo, þann 23 Novembris; sídan dró hann inn í Danmork, þar talade hann enn vid Sophiu módur sinnar Gemalsh. Sama tíma sókte hann heim Tycho Brahe í Hven, og Dr. Niels Hemíngsson til Roskild, og vídar reiste hann um landed, hann hellt hús á Krúneborgar slote um veturenn, siglde um sumarmál til Skotlands, med sína brúde. Hún kryndez til drottníngar í Edenborg þann 17 May. Henrich 3die í Frankaríke, af einum Dominicanter múnk stúngenn í sitt líf, med einum knífe, sem var eitradur, so hann deyde. Mordíngen af hofmonnum kóngsens feck morg sár, var drepenn, af hestum sundurrifenn, og brendur. Maximilianus Ertzhertoge af Austurríke, gefenn laus af sínu fángelse til Polen.

Anno 1590 geck bóla. Lauritz Kraß hyrdstióre siglde, hafde vered áred. Gengu þrætur og klogumál um jardernar

Hól

Hól og Bessastade, mille Hr. Gudbrands, og þeirra brædra Marcúsar og Jóns Olafsóna. Deyde Marcús bónde Olafsson í Heradsdal 46 ára, og var 6 ár sýsslumadur í Hegranéß þínge [fór Síra Einar Sigurdsson til Hramms í nordur árdal í Borgarfyrde, og var þar prófastur 1 edur 2 ár. Sídañ fór hann austur ad Heydolum, Í Breiddal, og var profastur í Múlasýsslu, kom hann þángad um veturnætur, lagde Hr Oddur sonur hans þá til leigur og inntekt af Biarnaneß umbode, honum og hanns flocke til uppheldes. O S E] Magnus Hemíngssonar lík, sem var hálshoggvenn fyrer Kaupenhavnar slote Anno 1589 þann 18 Januarii, uppgrafenn og heidarlega greftradur í *] Oezlekyrkiu til Víborg. Contractur mille kóngsens af Danmork og þeß Holsteinska adals. Kóngurenn af Navarren leggz um París, af hveriu umsátre ad var í París, ein hrædeleg dýrtíd. Hertoga Henrichs af Brunsvík brullaup med frú Elizabeth kóngs Friderichs dóttur, á Krúneborg 19da Aprílis **).

Anno 1591 hófz nauta dauðenn og so hunda, um allt Ísland, og refa, og þad dó skyndelega, segia menn þad hlotez hafe af einum Engelskum hunde er drepenn var fyrer vestan. Drucknun þriggia manna af Reykiastrønd á Skagafyrde. Ovild og klogumál millum Jóns Jonssonar logmanns, og Hr. Gudbrañds, bar þeim margt til misgreiníuga, sem finz í þeirra brefum hvers um sig. Hóls mál kemur til Alþínges, kemur út híngad bref Christians 4da útvalda hertoga, um jarda ábýle kóngsens og Crúnunnar, ad hver búe sem komenn være, og bygdez ei ut, so lenge er gyldu þad med rettu skylduger væru, og for-

U             betrud

*] Oesslekyrkiu vid Wiborg.

**) Sixtus 5 deyr. Urbanus 7 utvalinn þann 15 Septembris og deyr þañ 27 Septembris. Gregorius 14 í hanns stad, þesser voru pávar.

betrudu sem tilbære, underskrifad af þeim yfersettu ríkesens herr-
um. [Var brúdkaup Hr. Odds Einarssonar, og Hélgu Jóns-
dóttur, Biornssonar frá Holltastodum um sumared, þar var
biskupenn Hr. Gudbrandur hanns talsmadur, fader hanns og
so marger hellstu menn. O. E. S.] Deyde sá virduglege
hofdínge Magnús Jónsson ad Bæ á Raudasande, um hausted,
vitur madur og vel ad sier í morgu, gódur þyskur, formætt
skáld, var sýsslumadur yfer Bardástrandar sýsslu, hanns kvinna
Ragneidur Eggertsdótter Hannessonar hyrdstióra *).

Christian 4de valenn til kóngs í Opslo þann 8da Júnii
Herramót vid Landamære í Hollande, af Svenskum og Donsk-
um, þann 10 Augusti. Drottníngarennar af Englande streing-
eleg befalíng mót Jesuitum. Fridstillíng millum Polen og
Tyrkia. Greife Mauritz vann eina herlega sigurvinningu á
Sponskum. Kóngurenn af Navarien gyrnez hiálp af drott-
níngunne í Englande, og nockrum fyrstum í Þýskalande, fær
hennar. Lofar þeim í Frankarike ad hallda þeirra Catholisku
trú. Kóngurenn af Navarien bannsetz af pávanum, hver
bannsetníng casserast af þeim Dominis, á herradege til Thuron.
Hertoge Christian chúrfurst í Saxen deyr. Gregerius páve
deyr. Innocentius 9de valen 17 Octobris, deyr þann 29
Decembris.

Anno

*) Lagde ut Rhetoricam, Dialecticam, og marga Ordskvidu. Hefur ordt 13
Pontus Rímur. Epterlet 6 dætur og 5 syne, af hvorum mikid Af-
sprenge er komed allmorgum. Deyde sá gudhrædde kennemann Síra
Jón Einarsson ad Reykholte, og profastur sama herads, á áre sins
alburs 78. Hans qvinna Gudridur Sigurdardótter deyde sám dogum
sídar. Síra Jón var broder Hr. Gissurs, Þorláks, og Síra
Halldórs Einarssona, var fyrst prestur í Gordum á Akranese nockur
ár, tók sídan Reykhollt Anno 1569 Mag. B. S.]

Anno 1592 [Laugardagenn næstan epter Michaelismessu, var á Heynes Þinge í Borgarfyrde, samteked af øllum almúga þar innanhrepps, ad bidia af alvoru med hreinu hiarta Gud almáttugann, ad afvenda því fáre og faralldre sem yfergengur, og lofudu aller siálfviliuglega med lófatake; ad gefa fátækum alen af serhveriu Hundrade sem hver átte, skyllde golded í næstu fardogum med hreppstióra vitund*] (var sú mikla blódsótt á Íslande miøg mannskiæd O. E.) Þrumur miøg miklar so undrum gegnde. Stefnufarer Hr. Gudbrands biskups, og Jóns Jónssonar logmanns, hver stefnde odrum fram fyrer kóng. Utanfor Jóns logmanns, og Síra Arngríms, vegna biskupsens, Jón logmann siglde í Hofda á Skagastrond, med honum fór Jón Sigurdsson hanns bródurson, hafde hann þá 27 vetur, hann skrifade bref Jóns logmans, þar utanlands þann vetur. Med Jóne logmanne fór og einnig Jón Jónsson, er þá bió á Storuborg, enn sídan á Drablastodum á jord sinne, hann var námægdur Jóne logmanne, og hanns mikell vinur. Med Síra Arngríme var Gudmundur Einarsson, er sídar vard prestur, og hellt lánga tíma Stadastad á Olldnhrigg, þeir vóru bræbrasyner Herra Gudbrandur og hann. Henrich Krag var hyrdstióre. Komu Hólsmál under hanns dóm á Alþinge, med 24 monnum.

Hr. Christian 4de útvalenn til kóngs í Danmork og Norege, reiste til Hven þad ad yfersiá. Stratsborgar stríd móte Lótaríng. Hertogen af Anhollt verdur þeirra Stratsburgara felltherra, og fær luckusamann framgáng. 2000 strídsmanna

 Bad-

*] Ur dómabók Þordar G. S. logmanns.

Badenses gefa sig til fyrstans af Auhollt. Aumkunarsamlegt áfall í Ungaria, af Tyrkians sigurvinníng. Hertoga Carls í Finnlande annad giftumál vid hertogainnuna Christinu af Holstein. Kóng Jóhann þridie í Sviarike item Gvilhelm landgreife í Hessen deya. Clemens páve útvalenn 20 Janúarii

Anno 1593 útkoma Jóns Jónssonar logmanns fyrer Alþíng. Þá voru þesse kóngs bref upplesenn. 1. Kóngs bref um Íslands innsigle. 2. Kóngs bref um Íslands þíngskrifara ad hann útveliez. 3. Kóngs bref um þrætur Jóns logmanns, og Herra Gudbrands, ad þar um skule gera 24 menn dóma, sem hofudsmadurenn med ser kiøre. 4. Annad bref um somu þrætu. 5. Kóngsbref um Supplicatiu Hr. Odds til kóngsens. 6. Kóngsbref um biskupanna og prestanna klogumál, ad þau aflleggez. 7. Kóngsbref um Jón Magnússon, ad hann hallde brennesteine í sinne jordu. 8. Verndar bref um Ragneide Eggertsdóttur. 9. Kóngsbref um Suppliceran Magnúsar Jónssonar, um brennestein í hanns lande. 10. Kóngsbref til Hr. Odds og Hr. Gudbrands, um þeirra hondlan. Þesse voru andsvør uppá erendagiorder Jóns logmanns landsens vegna. 1. Um spítalana. 2. Um innsigle Íslands. 3. Um þíngskrifara. 4. Hann beidez epter skírum lensmanne. 5. Um afgift af lenum 6. Um passbref Þýdskra, og þeirra veru. 7. Ad andleger láte ser ekke nægia med þad þeim er veitt, af kyrkiunne. 8. Ad Alþíng stande yfer 8. daga, ef þorf krefur. Enn 9. kóngsbref um Alþíng. Sættuz þeir Hr. Gudbrandur, og Jón logmadur, og giordu þeir bestu menn sætt med þeim, og brefudu. Sr. Arn-

Arngrímur kom ei út fyrr enn epter Alþíng. Þíngskrifarenn var kiørenn Gudmundur sonur Þordar løgmanns, og helltz ecke lenge, fengu løgmenn ser siálfer skrifara sinn hver þeirra, skrif ade annar innann løgrettu, en annar þá dómar vóru útnefnd er, og so hver sem lidugre var, báru sídan þíngbækur beggia saman, so bádar helldu eitt, hofdu báder þar til valenkunna menn. Þíngskrifare Jóns løgmanns var Jón Jónsson frá Sióarborg úr Skagafyrde, einn útvalen dugandes mann, og hinn beste skrifare.

Kóng Christian 4de innsender í England eina kostulega Legation. Kóngurenn af Polen sender Legata til Ryg, um Jesuitana [ecke] ad inntaka. Þeirra Christnu herlega sigurvinníng á Tyrkium. Doct. Paull Luther Martini Lútheri son sem var Medicus deyr til Leipsig 8da Martii. Kóng Henrich af Navarien og Franckaríke tekur vid pápiskum lærdome. Kóngurenn í Polen sigler til Svíaríkes. Henrich 3die sem fyrer 4. árum var af einum Múnk í helstúngenn, virduglega grafenn.

Anno 1594 fellevetur mikell fyrer nordan land, um allt biskups dæmed, so ad á Jólum fell í ófeite bæde fe og færleikar, kom alldrei bate edur jord, fyrr enn 4da dag páska. Einn madur sá soddan sýn. Hann reid frá Odda sudur, hann sá fliúga einn dreka nedarlega í lofte, álíka sem lindormur er uppkastadur, var allt í raudum loga, fór vestann og þrádbeint austur. Vard madurenn aptur ad snúa, því hesturenn villde hverge gánga, enn hverke sakade hestenn ne mannenn. Þann 19 Novembris þverrade Hvítá í tveim stødum, hiá Ahraune á Skeid-

Skeidum, og hiá Brúnastødum í Flóa, nær hvert yferum. Þar var genged þurrum fótum í einn Hólma, sem ádur var ófært, og teknar þadan hríslur til merkes. Undrudu; þetta menn, ad þeir tveir kablar skylldu upp þorna, því áenn var ad siá sem stór annarstadar, med rokvydre. J þessum sama storme var brimgángur ógurlegur. Sáz þá á Eyrarbacka, á Háeyre og Skúmstødum, skrímsl, þad var ferfætt og hábeinótt, selhærdt, hafde annadhvert sosem hundshøfud, edur herahøfud, enn eyrrun so stór sem skeppar, lágu þau á hriggenn aptur, bolurenn var sosem folallds kroppur, og nckud styttre, hvít giord var yferum þad hiá bógunum, enn var þó grátt edur so sem móa-lótt aptur frá, róan var long stór og kleppur so sem liónshale á endanum, frátt sem hundur, sáz á kvølldenn.

Fæd á millum kóngsens af Polen og Svenskra um trúarbrogden, eda lærdómenn. Niels Kás Cancellere deyr i Kaupenhafn 24 Junii. Sama ár deyde af ríkesens rádherrum velbyrdugur Hach Ulstand, Jorgen Rosenkrantz, og Holgeir Rosenkrantz, hvers líkar til lærdóms ei margstadar finnaz. Marger stader í Frankaríke gáfu sig under kóng Henrich 4da. Groñingen inntekenn af greifa Marvitz. Henrich 4de úthrópadur á herradege til Fracka kóngs. Jóhann Castell, sem sló kóng Henrich 4da í munnen, med einum knífe, stegldur af 4 hestum og brendur. Kóngsens af Pólen eidur fyrr enn hann „Jyllde krynaz til kóngs í Svíaríke. [Druknudu í Nordlande í Norege 15 skip, voru 20, 30, 40, menn á hveriu skipe. O. E. S.]

Anno 1595 (þann 21ta Januarii sáz vígahnottur í loptenu, hverad hrapade í útsudurs átt. A sama áre sáz og flugdreke í nordur þann 10 Septembris. Epter Síra Sigurd medtekur Greniadastad Síra Biarne Gamlason er fyrrmeir var skólameistare á Hólum. Síra Sigurdur var son biskups Jóns. Mag. B. S.) Vetur afbragds gódur. Veideskapur í votnum med net fram á jól. Þá þurfte alldrei ad gefa gelldum nautum hey. Geck nautadaude. Deyde Olafur Tummásson á Hafgrímsstodum í Skagafirde. Einn dag, er fólk fór frá messu í Skálhollte sudur yfer Hvítá, sáu nockrer menn eina undarlega skiepnu sem kom upp úr áñe á feriustadnum mille hamránna, þad var mikel kind um sig, óskyneleg, og þikiaz menn va'la kunna frá ad segia; þó hafe vered álíka ad siá sem sels hofud kynia stórt, enn aptur epter undarleg krippa eda borl so sem med tindum, enn sem flatbytna fyrer aptan, syndez skiolldótt, og so stórt sem eitt hús, dró sig fram epter ánne, og steyptez so. Hallda menn sú ókynd ege heima í Hvítá, og siáez fyrer ótídendum stórum. Þá skede formyrkvan túngls. Þá sáz ein óvenileg leiptrande stiarna, einnen vígahnetter. Item er margt ad skrifá um þá freistíng sem konunne var gior under Eyafiollum, um þá drauma og vísu. 9da Aprilis hofud fiúk seinasta dag vetrar, líka megn-fiúk sumardagenn fyrsta sem var 10da Aprilis. Þad ár kom híngad í land kóngsbref Christians 4da um vogrek, samhlíodar ecke Islendskum logum, sem hvor má lesa. Sætt þeirra á Alþínge Hr. Gudbrands og Síra Arngríms vid Jón Olafsson, og nidurslegenn Hóls klogun.

Til Augspurg í Þýdskalande skede sá mikle tilburdur, ad eitt úngmenne, sá Christian het, sveittez blóde af ollum sínum lim-

 um

um í 9. vikur fyrer sinn dauda, og lá so daudt 14 stunder, sídann vard lifande, uppstód og spáde hver stroffun kæme, áfýste allt fólk til ydrunar og yferbótar. Henrich 4de leysstur úr banne, og inntekenn í þeirrar Rómversku kyrkiu skaut. Bahús-slot giorez fast af Stein Malthesa þá slotsherra, hvert slot liggur í Norvegs, Hallands, og Svíarikes landamerkium. Fridur millum Moscovíta, Svenskra, Politaniskra epter 7 ára strid. Herleg sigurvinníng þeirra Christnu á Tyrkium. Keysare Rúdolfus og Sigismundus Jathor binda rád saman mote Tyrkium.

[Dó Vigfús Jónsson á Kalastodum. Hanns brædur Sr. Asmundur og Páll sem var rádsmadur í Videy, Jónssyner. O. E. S.]

Anno 1596. (Deyde Þorlákur Einarsson hálfum mánude fyrer fardaga. Enn um veturenn epter seint á Þorra, vard í snióflóde Gissur hanns son og tveir menn adrer, er hann ferdadez frá Hrappseyre, funduz nockru sídan; voru lík þeirra flutt under Núp, og hann þar greftradur hiá sínum sáluga fodur fyrer framan kyrkiudyr. Mag. B. S.) (Gissur og Ragneidur voru 12 ár saman edur vel so, áttu nockur born saman sín ímillum, sem flest oll sáluduz í sínu úngdæme, utan 2 syner þeirra, Jón sem átte Þóru Olafsdóttur. Þeirra son Síra Torfe Jónsson, sem hanns fader hellt til skóla og Latínu lærd-

lærdóms, hann sigldi í Danmörk stúderade í 4ur ár, kom so út, var Conrector 1 ár í Skálhollte, sídan vígdez hann þar til kyrkiu-prests, var þá 30 ára gamall, giftez þá á þriggia ára freste, dóttur Halldórs lögmanns og Halldóru Jónsdóttur, Sigríde ad nafne, þeirra born nú úng á lífe, Ragneidur, Ranveig og Þóra. Þesse hión urdu sitiande ad Gaulveriabæ, og ólu þar sín á mille ádur greindar dætur. Jón Gissursson bió ad Núpe í Dýrafyrde, og andadez þar í sínum alldurdóme. Annar son Gissurar het Magnús, hann átte Þórketlu Snæbiornsdóttur, Torfasonar, Jónssonar, Olafssonar, þau áttu ei born saman. Hann bió á Lokenhömrum í Arnarfyrde, vitur madur málsniallur og skálld gott. Af fyrrgreindum Jóne Gissurarsyne mætte margt gott og merkelegt skrifa, og her innsetia. Hafde hann í sinu úngdæme siglt utanlands, og þar vel for framaz í Þydsku túngumále, sem og einnen í hagleik, serdeiles uppá gullsmíde, hvar af enn nú til eru margar meniar og eptirleifar. Hann var og einnenn so mikkell bókritare, ad fáer her á lande sem samtídes, edur um þessa daga, hafa so miked starfad í ritverke og bóka skrife. Hann skrifade ei ad eins heilar Postillur og margar heilagar bækur og bæklínga, helldur og einnen þar ad auke, margar fornar fræde bækur af allra handa landa og þióda fornsogum og sogu þáttum, landnámum og annálum, rímnaflockum, og ymsum qvedlíngum, drápum og liódum, og odru þessháttar, af hveriu hann hefur epter sig láted, margar bæde innbundnar og óinnbundnar bækur, og jafnvel heila og stóra Folianta, so til þessara hanns menia er ad leita so sem í annann fiolhæfann handrada, um allt þad, edur flest, sem madur gyrnez ad heyra edur skinia og merkia, um allrahanda fyrre-manna hátta-

 lag

lag, fornſide, framkvæmder og íþrótter. *) Snióa vetur mikell, lá úte allt fólk á heidum í verferd. Broſtrup Gedde kom út hyrdſtióre yfer Jſland. Urdu uppvís mords verk Biorns í Oxl veſtur. Hann hafde dreped og myrdt 9 menn, ſem hann medkende ſiálfur, ſuma til fiár, enn hina adra fátæka drap hann þá ſem í nánd voru, þegar hann myrdte adra til fiárens, enn þegar honum vard afſkortur, þá veitte kona hans honum lid, hún brá ſnære um háls þeim og rotade med ſleggiu. Þeſſa dauda, gróf hann í heygarde og fióſe, og funduz fleire manna bein, en hann medgeck ad dreped hefde, og qvadz hafa funded þá dauda og ei nent ad flytia þá til kyrkiu. Hann var dæmdur á Laugarbrecku þinge. Var fyrſt lima marenn med ſleggium, og ſídan afhofdadur, og ſo ſundurſtyckiadur, og feſtur uppá ſteingur. Jón Jónsſon logmadur var yferdómare. Kona Biorns var ei deydd, því hún var med barne. [Sumer ſega ad Axlar Biorn hafe myrdt 18 menn, enn ſumer 14. Hann dó (ad ſogn manna) ydrunarlaus. O. E. S.]

Kóng Chriſtian 4de córónadur til kóngs í Danmork og Norvege med miklu priále í Kaupenhavn þann 29 Auguſti, var hann þá 20 ára gamall. Hollendſker ſigla nordurum til þeſſ Jshafs þó forgefens. Franciſcus Draco einn Engelſkur riddare, mikel ſióhetia deyr 28 Januarii. Doct. Hans Slangerup deyr í Danmork þann 27 Decembris. Epter hann kom M. Hans Reyſſen. M. Jſaac Gronbech ordineraſt til biſkups í Þrándheime Trinitatis ſunnudag. Chriſtian Friis til Barby verdur kóngel. Mayſt. Canceller.

Anno

*) Þad ſem í undangángande parentheſi ſtendur, tillagt af Síra Torfa Jónsſyne í Gaulveriabæ.

Anno 1597. Vetur vindasamur. 3 formyrkvaner sólar og túngls. Þann 10 dag Jóla um kvölded epter dagsetur heyrdez nordur í landed sudur í lopted dunur miklar med stórbrestum, sem fallbissu skot, og þessar dunur heyrduz nær í 12 dægur. Vedur voru optast kyrr, med miklum frostum og dimmu sudur í landed, og þetta geck þann allann vetur allt fram ad einmánude. Þesse undur skedu í Heklu-fialle med stórum elldgánge og landskiálftum iardar, so þar sáuz í einum loga 18 elldar í fiallenu af sumum bæum. Fólk var miøg hrædt; enn hverke skadade menn ne peninga. Askan kom í Borgarfiord og í Lón austur og allt nordur í Bárdardal; enn í Myrdal var hún í skóvarp edur meir, og um alþíng stód reykurenn upp úr fiallenu í lopted. Þad vor var kráñkleike á Sudurnesium, blódsótt, so margt fólk andadez. Og dóu fyrst Engelsker menn 4. Þá vard landskiálfte um vored, hrundu marger bæer í Ölvese. [Í þeim landskiálfta hrapade nidur í grunn bærenn á Hialla í Ölvese. Þá hvarf og stóre hverenn Geyser í Hveragerde fyrer sunnann Reyke, og kom upp aptur annar hver fyrer ofan túned á Reykium, sem er í dag, og gýs miøg, þó ecke sem hinn sá stóre hafde ádur gosed; því um vegenn hafde ei ósætt vered ad ferdaz, sem lá miøg nærre honum, so sem enn má siá vort og merke til; því þar er enn hveraslæded epter vídt med vellande vatne. Og er þar lángur vegur á mille sem sá Geyser er, sem nú hefur sídan vered, og áenn á mille. O. E. S.] Brann bærenn á Miklahóle í Vídvíkursveit nær allur giersamlega og margt inne. Deyde hustrú Helga Gísla dótter á Þíngeyrum. Þau áttu alldrei barn saman Jón logmadur og hún, enn voru þó margt ár saman. Fæddur Þorlákur biskup Skúlason á Eireksstodum í Svartárdal í Húnavatnsþínge. Skúle var sonur Einars í Bólstadahlíd, átte laundót-

 tur

tur Hr. Gudbrands á Hólum, Einar var Þórarinsson Steindorssonar.

Kóng Christian 4de helldur sitt brullaup med drottning Anna Catrína til Hadersleben, hún var dótter kiorfurstans af Brandenborg, þann 26 Octobr. Arils Hvítfeld og Christian Bernebo kónglegrar Mayst. af Danmork legátar sender í England og Nidurlond. Og ehrlegur og velburdugur mann Tycho Brahe, sá fornemste stiornumeistare, útreiser af Danmork til keisarans. Margar þúsunder deydu í *] Danmork af pestilenzin. Spansker yfervinnaz af einum greifa Mauritz og thelsláz. Kóng Henrich í Frankaríke sá 4de leggz um Ambianum trauſtlega. Hollendskur skipaflote útbúenn í Austursióenn ad uppsækia ný lond. Keisarenn helldur herradag til Rensborg, hvar hertogenn Matthæus præsiderar.

Anno 1598. Skip-tape á Hópe í Grindavík, drucknudu 10 menn. Midvikudagenn fyrer Marteins messu, kom úr lopte í utan-og austan-vedre sandfall, so sniórenn var nær alsvartur um allann Eyafiord, og so vídar um allar nordur-sveiter. Kvongan Jóns Jónssonar logmanns aptur; hann giftez Gudrúnu Einars döttur prests frá Stadastad, Marteinssonar biskups. Brúdkaup Síra Arngríms skólameistara hallded á Hólum; hann giftez Solveigu Gunnarsdóttur, Gíslasonar, Hákónarsonar, móder hennar var Gudrún Magnúsdótter, Jónssonar biskups Arasonar. A þessu áre andadez sá vitre og virduglege mann Páll Jónsson á Reykhólum um midsmorguns skeid, nær viku fyrer páska. Hanns fader var Jón Magnússon á Svalbarde nordur. Hann var mælskumadur mikell, siglde oft fyrer kóng med

*) al. Þydskalande.

med sín mál, hann var lagamadur meste á þeim døgum, skálld miked, gódur Þýdskur. Hanns kvinna var Helga Aradótter løgmanns Jónssonar biskups. Hann let efter son og tvær dætur; Petur hanns son, fader Biarna á Stadarhóle, Ragneider sem átte fyrst Gissur Þorláksson, og Elenur sem átte Biørn son Benedicts ríka, er hellt Mødruvalla klaustur, enn Biørn Múkaþverá. Páll hafde Isafiardar sýslu. [hann vard 63 ára gamall, siglde 9 sinnum O. E. S.] Uppgrafenn af Hólamønnum í Goddølum í Skagafirde Gvendur Þorkelsson Loke, afslúnged høfuded, sídan brendur. Kom þad til af því, ad sá Gvendur var gamall vordenn, illordur og leidendur, villde ega hreppsvist í Hialltadal; Enn Þorkell Gamlason var hreppsens forsvar, Hólastads rádsmadur, med ødrum hreppstiórum, og náde sagdur Gvendur ekke hreppnum. Hafde hann þá heitíngar ord vid Þorkel edur hañs nidia; Dó so Loke fram í Skagafiardardølum, grafenn í Goddølum. Atte Þorkell únga dóttur, er Sigrídur het. Feck hún þá ásókn og ónádan hørmulega, so þad var stórt sorgarefne fyrer hennar foreldra og adra sem sáu. Þad bar til eina nótt þar á stadnum, ad Síra Arngrímur Jónsson vakte nockurn tíma yfer þessare veikre stúlku, og hafde hana í fánge med Guds orda lestre og gódum bænum, og í þeirre trú, so sem hann let þá til sín heyra, ad sá vondur ande munde einga ónád í framme hafa, medan ser í høndum være, hvad og skede, þó móte veniu ad þad leid hiá um þær stunder. Enn litlu sídar reid Síra Arngrímur leid sína þar nordur trødena frá stadnum, og fell hanns hestur og so hann siálfur, so hann feck áverka af steine í andlited, og bar þad øralla daga sídan. Er mællt sez hafe sú vonda mind Loka gánga á hestenn, og so kollkastad øllu. Var þad sídan til ráds teked sem ádur seger og í fyrreølldu tídkad var, ad

þesser heitínga=skálkar vóru uppgrafner og afhøfdader, og skyllde so sá, er fyrer honum hafde ordeð, gánga á mille bols og høfuds. Batnade sídan þessare stúlku þó veikleg være, vard ei gomul. Þessar tiltekter logdu sumer óviner Hólastadarmanna þeim til lýta, líka so Hr. Gudbrande sem Þorkele siálfum, sem gamall veralld=arennar háttur er.

Drottníng Anna Catrína krýnez í Kaupenhavn til Dan=merkur og Noregs drottníngar á Trinitatis sunnudag. Kóng Sígismundus í Pólen vill umbreita trúarbrogdum í Svíaríke. Hertoge Karl sette sig mannlega á móte, og burtrak kóngsens folk; enn þó vard stillíng med þeim Svensku og Pólsku. Vatns=flód til Róm þann 19da Decembris af Tiberis giorde stórann skada í stadnum. Pávenn giorde frid millum Spanskra og Franskra kónga og hertogans í Savoyen. Finnland inntek=ed af hertoga Karl. Spansker innfalla í Vestphalen med tír=anni. Hollendsk seglátia til Java Majorem og annara Ind=ianiskra ríkia. Kóng Christian 2ar í Spanien deýr þann 15 Septembris.

Anno 1599. Druknun 4 manna í Járngerdarstada sunde. Brotnade skip Þýdskra kaupmanna í Hrútafirde, stód þar um vet=urenn. Þad sumar kom til fullnadar dóms á Alþínge mál Biorns Magnússonar, um þad er hann hafde sókt Oddnýu dótt=ur Jóns Enarssonar heim á hanns heimile Gunnsteinsstade í Lángadal, og hafde hana ofan til Holltastada, til síns fodurbród=

urs

urs Teits Biorns sonar. Var med Birne hanns bróder Eiríkur, sem stúlkuna sette á bak med Birne; enn hennar fader Jón var ekke heima. Hafde nockuru fyrr beded Odduíar Jón Dan Magnússon af Vestfiördum, og var hún hönum heitenn; enn kynníng var á sogd med Birne og Odduíu. Var þetta mál miog hátt reist af hennar fodur Jóne Einarssyne, sem og Magnússonum Jóne Dan og hanns brædurum. Reid Jóhann Buchhollt hirdstióre nordur i land um sumared fyrer, ad þínga um þetta mál á Sveinstødum, voru þar og nockrer Magnússyner ásamt Jóne logmanne, sem og þeir brædur Biørn og Eríkur ásamt Teite Biornssyne. Geck so dómur þar, og þókte mønnum hann hardmælltur uppá Biorn og hanns fylgiara, var og so mannhelgis grein innsett í dómenn til ályktunar, er hlíder uppá þá menn er hlaupa á burt med egennkonur edur frændkonur manna, ad þeir seu óbota menn, og so þeir er þeim lid veita. Sídan á fyrerfarande sumre sigldu þeir brædur Biorn og Eríkur, einnen þeirra fodurbróder Teitur. Komu so út þetta sumar, og skodadez máled so á Alþínge, og nefner Þordur Gudmundsson logmadur þá 12 menn í dóm, um þau óbóta mál. Seiga þeir sem Biorn Magnússon og hanns fylgare eru um klagader: í fyrstu segia þeir Johann Buchhollt hafe birt Kongl. Mayst. bref, ad kóngurenn baud honum ad láta ransaka á Islande mál þessa Biarna, einnen hanns bródur Eiríks, einnen hafe þeim birst sú Supplicatia, sem þeir brædur hafe fyrer kóngenn bored, hver þeim virdiz ei rett bevísaz í þeirre grein, ad Oddný Jónsdótter hafe vered trúlofud Birne, enn sídur hún være hanns festarmeý; og lítez þeim hafa rángt fyrer kóngenn bóred. J þridiu grein seiga þeir fyrer sig komed hafe dómur Johanns Búchollts, er hann hafe dæma láted, med innsetníng þeirrar logmáls grein-

ar, ad hvorium sem ad slíkum óknittum verda kender, ad þeir hlaupa burt med egenkonur eda frændkonur manna, seu óbótamenn, og hvorier sem veita lid til þess; enn áliktan seinasta dóms hafe so vered, ad þeir Biorn, Eiríkur, og Teitur Biorns son med þeirra fylgiurum, skylldu seker epter þeirre somu logmáls grein, sem fluttu og sóktu Oddníu Jónsdóttur frá hennar fodurs heimile, enn þeir hafe hverke nefnt þá útlæga ne óbótamenn. Enn þesser Alþíngis dómsmenn segia, ad þad kome fram, ad stúlkann hafe ecke naudug vered burtflutt, helldur med hennar liúfum vilia, enn þad stande lióslega í logum, ad þeir seu óbótamenn, sem take konur naudugar med ráne og herfánge, hvert sem þeir tæke frændkonur manna edur dætur fyrer utan vilia þeirra manna, er forræde ega á þeim ad logum og so siálfra þeirra. Þar fyrer líst þeim ei þetta mál óbótamál, ne helldur útlegdar verk fyrer Biorn Magnússon; enn vegna þess Biorn hafe rangt mál fyrer kóngenn bored, leist þeim hann sína reisu forgefins fared hafa, og hann skyllde nú útlægur til kóngsins náda under slíka miskun og fridkaup sem kóngur vill giort hafa, enn Eiríkur skyllde hallda landsvist og greida kónge 10 merkur, enn Jóne Einarssyne fullrette, einkum fyrer þá grein: **hefde hann ecke arfborenn vered.** Epter þetta sigldé Biorn og feck qvittun þessara mála bæde utanlands og innan, giftiz sídan Oddníu, untuz vel, áttu born saman. [Dreckt konu á Backarhollte í Olvese, átte barn med tveimur brædrum, þeir frelsuduz og helldu lífe. O. E. S.] Friderichus son Christians 4da fæddur í Friderichsborg þann 15da Augusti. Fridur í trúarlærdóminum í Frankaríke. Christenna luckusamur framgángur í Ungaria. Hertoge Carl í Svíaríke helldur herradag, og verdur ríkesens Gubernator. Kalmar inntekenn af hertoga Carl. Herradagur í Stockhólm, hvar und-

úndersátarner uppseiga kóng Sigismundo þeirra hlídne. Hollendsker, og þeir sem med þeim vóru í sambande, útbúa móte Sponskum og þar underliggiande eyum einn flóta, sem voru 100 skip.

Anno 1600. Brotnade annad skip í Hrútafirde sem hugde sækia hid fyrra. Stódu þá tvo skip þar, var mællt þad være giorníngar galldra-kvinnu Þýdskrar. [* Þann 14 Septembris giftiz Ragneidur Pálsdótter andru sinne Síra Sveine Símons syne prófaste, hellt Hollt í Onundarfirde, med ráde Ara Magnússonar, hvern hún kiore fyrer giftínga mann. Þeirra brúdkaup stód á Núpe í Dyrafirde, þau áttu nockur baurn saman, sum dón úng. Meistare Brinjúlfur var þeirra yngste son, biskup í Schálhollte, giftiz Margretu Halldórsdóttur logmanns. Síra Gissur Sveinsson var elldre, hellt Alftamýre í Arnarfirde. Hañs kvinna Gudrún Finnsdótter. Þá Gissur sáluge Þórláksson andadiz, fyrre-madur Ragneidar, var Jón son þeirra 7 vetra edur 8ta, enn Magnús 2. vetrum ýngre.]

Doct. Niels Hemíngsson deyr í Roskild þann 23 May, þegar hann var 87 ára. Vardbergs slot byggiz herlega á einum háfum klett. Greife Rantzow, sídan riddare, verdur statholder. Kóng Christians 4da bref um 400 dale til 4ra stúdenta utanlands, ad hallda árlega á hvorre Kindelmessu í Kaupenhafn ad skyllde nidurleggiaz. Júbílár í Róm med stór Solennitet, hvar páve Clemens 8de med einum gullhamre upplætur Ste. Peturs kyrkiu. Stríd millum greifa Mauritz og Albertum, Albertus flýde undan, greifenn helldur sigre. Greife Alexander af Genue og hanns bróder villdu med svikum fyr-



*] Tillagt þad sem i parenthesi stendur af Síra Torfa Jónssyne í Gaulver, iabæ.

fyrekoma kóng Jacob í Skotlande, enn kóngurinn fríadiz med stórum jardteiknum. Fridur mille hertogans af Sophien og kóngsens í Frankaríke. [Sáz í Sikeley hrædelegur dreke, med sínum blæstre drap 15 menn. O. E. S.]

Anno 1601. Skiptape á Hópe (Hofi) í Grindavík, druknudu 9 menn. Jón Teitsson, sonur Sira Teits Helgasonar á Reinevollum, bónde á Járngerdastodum, skadade sig siálfañ med því móte: elldur kom í tioru fyrer honum, hann var ad skipa brædslu, og logade so allt á honum, lifde í tvær nætur. Hallur Magnússon skálld dó í brennevíns of-dryckiu. Kom þridia skip á Hrútafiord, sókte annad fyrra, þridia sundurdreged. Sorte á sólu um middegisleite. [Skede hrædeleg formyrkvan á sólunne á Magnús-messu fyrer jól, stód yfer lenge dags edur mest allann dagenn, so sólenn vard aull svort, sem bodade epterkomande óáran og hardinde, og strax med þeim dege skyptiz um til hardinda. O. E. S.] Vestnade vedurátta, giørde hardinde, byriadiz harde vetur, sá er kalladur var Lurkur. (*Þesse vetur var aftaka hardur um allt Island, almennelegur peninga feller, aungver menn mundu þvílíkann hárdenda vetur frá jólum og til Jóns messu, so þá vard hid fyrsta saud-gródur. Lá ýs lángt fram á sumar. Grasleyse miked. Tók frá fisk fyrer nordann. Þetta kolludu menn kynia-ár. Þá komu einger løgrettumenn til alþíngis ur nordlendínga fiórdúnge saukum hardenda forfalla. Sýslumenn ridu nordan Holltavorduheide til þíngs, sem voru: Jón Sigurdsson frá Svalbarde, er umbod hafde í Þíngeyar þínge, Benedict bónde hinn ríke frá Modruvollum í Horgárdal, er hafde Vodlusýslu, Sigurdur Jónsson frá Reinestad, er hafde Skag-

*) Þad sem stendur í Parenthesi setur annad exemplar vid næst epterfylgiande ár.

Skágafiardar sýslu, enn Jón Jónsson lögmadur, sem hafde Húnavatns sýslu, kom fra Stapa, því hann hafde einnen Stapa umbod allt og sýslu, þar med Þíngeyra klaustur og Húnavatns sýslu).

Tycho Brahe deyr til Prage 24 Octobris, offat sig vid keysarans bord so hann sprack. Academied uppgefed fyrer pestilentiu í Kaupenhafn. Christopher Valkendorf hofmeistare deyr í Kaupenhafn 4de Januarii. Ostende umleggz sterklega af Spannskum. Pólenskt stríds fólk med miked lid innreiser í Svíaríke, enn útdrifed af hertoga Carl. Uppreisn í Englande af greifanum af Oster; hann sídan halshoggvenn 7 Martii.

Anno 1602. Byriadiz gódur vetur. Þá var mannfall so miked bæde í sótt og hallære. Tekenn af á Alþínge Biorn Þorleifsson fyrer kvennamál og svall, feck góda ydran. Biskupinn Herra Oddur áminte hann siálfur. Kvadde menn med handabande ádur sig nidurlagde á hoggstofninn, og band so aullum góda nótt, var hann med aullu óbundenn. Jón bodull er hauggva skyllde var þá ordenn gamall og slæmur, og krassade í hauggunum; enn Biorn lág kyrr á grúfu, og þá 6 hoggenn voru á komenn, leit Biorn vid og mællte: hogg þú betur madur. Lág hann so grafkyrr; enn sá slæme skálkur krassade ein 30 hogg, ádur af fór hofudid, og var þad hriggelegt ad siá. Voru þá áminníngar giordar yfervaulldunum þeim veralldlegu, ad hafa órugga menn til þess embættis, so landed yrde ei ad spotte í þeirre grein. Brotnade feria Schálhollts stadar fyrer Grinda-

 vík

vík, druknudu 24 menn. [Druknade stóra farma skiped Schálholltsstadar, á því 24 menn med einne stúlku, fyrer framan Þorkotlustade í Grindavík. Formadur fyrer því var Þoraren Stephansson, bróder Síra Hallkels Stephans sonar, sem var sídar á Seltiarnanese. Voru þeir flester jardader í bænhúsinu á Hraune í Grindavík. Laugdu þeir af Eyrarbacka fostudaginn fyrstan í Þorra í uppgángs land-nyrdíngs vedre, geck ad fiúk og myrkur, urdu grunt fyrer framan Þorkotlustade. Og sídan hefur ecke farma skip vered haft frá Schálhollte til Grindavíkur. O. E. S.] Dó Jóhan Bucholt utanlands, sem lenge hafde vered hirdstióre yfer Islande. Kel 2 menn til dauds á Holltavaurduheide. Deyde Sigurdur bónde, Jóns son á Reinestad þann 16 Septembris, sem var fimtudagur í ymbruviku; feck gódann og hægann afgáng ad kvollde fyrer dagsetur, hellt Reinestad 25 ár. [Hans kvinna Gudný dótter Jóns Grímssonar og Þóru Tómasdóttur. O. E. S.] Kom fyrst sú Danska siglíng; hafde fenged af kónge hafnirnar. Urdu þá mikel og vond umskipte til kauphaundlunar, þó passbref þeirra være aullu gott af kónginum gefed. Var þad 14 ára passe, skylde endaz 1616. Skyllde 3 borger hafa landed, Kaupenhafn, Helsingeyre, Málmey, og sigla uppá 20 hafner kríngum landed, fleire ef þurfa þækte; og koma so i hvoria hofn, sem passbref þeirra endudu, sem ádur haft hofdu, Hamborgarar, Bremsker, Lybsker og hvadan være; og getur kóngurenn þess ad hann þykiz án efa þenkia ad sliker kaupmenn hafe ei haft allíted gagn af landinu, enn hann sæe giarnan ad hanns ríkis undersátar yrde helldur þess niótande, því þeir væru so megande ad skipum og vauru, ad þeir gætu þetta ad ser teked. Skylldu þeir pligtuger vera ad forsorga Island med góda og ófalsada kaupmanns vauru, serdeiles

miol

miol, biór, mallt, vín, miod, brennevín, klæde, lereft, og annad því um naudsyniande. Alþýdan mætte fá med mogulegu verde og christelegu, hvad þorf giordiz; enn være þad ei hallded, þá skyllde sá borggre, er þad giorde, svara kónginum þar fyrer. Þar næst skylldu þeir til landsins flytia ei annad enn kaupmañs vauru; enn hvad dugnadarlaust være, skylldu þeir ei híngad færa. Ei skylldu þeir helldur meiga hæcka verd á sinne vauru, epter sínum egen vilia, helldur skylldu selia hana, sem fordum hefde plagaz, epter gamallre vísu og landsins vana. Somuleidis skylldu þeir ei tídka adra alen, mæler, eda vigt í kaupum og saulum enn retta Islendska alen, mæler og vigt. Enn verde nockur ágreiníngur mille nockurs kaupmanns og Islendskra um slíka vigt, edur annad sem kaupmannenn áhrærde, þá skyllde kaupmadurinn skylldugur ad framselia sinn undara, stiku edur hvad annad þad kynne ad vera, sem í soddann máta þyrfte leidrettíngar vid fyrer logmannenn og logrettuna í þeirre sýsslu, sem hofninn være, og skylldu hvorutveggiu sig epter þeirra dome retta. Einnen skylldu logdómar ágánga skickanlega, ef kaupmadurenn ætte einhvorium til ad tala; enn ei skylldu þeir med herfánge ógnan edur hripse, taka ad ser nockud, edur ser ei rett skicka. So og ad kaupmanne se ei tregdun giord í loga dómenum saker þeirra efna í herverunne. Þar næst skipar þeim ad hafa lensmenn landsens í ehru og agtan í aullum málaferlum. Einnen skipar þeim ad umgángaz vinsamlega og gódsamlega vid landsins innbyggiara andlega og veralldlega, so eingiun kynne med rettu þad ad anklaga. Þarnæst talaz um margslags biór, sem fyrre kaupmenn hafe til landsens flutt, hvad kóngurinn þá med aullu af skipar, og þesser skule til landsens flytia alleinasta Danskt ol, serlega gott bruggad og velsmackande, sem so være vel bruggad og til-

tilbúed, ad þad mætte geymaz óskemt veturinn í gegnum fyrer þá, sem efne hefdu þad ad kaupa og betala. Somuleidis bannar þeim ad hafa til epterlegu her í landinu fiollda sinna undermanna um vetrar tímann, sem landsfólked heimsókte med sinne vauru, og gæfe efne til dryckiuskapar edur annara ónytsamlegra hluta, helldur skyllde þeim leyfaz einn þenara edur tvo í hvorre haufn ad hafa, ad útretta þeirra erende og vera lítelsháttar, þar þeir læge, innbyggiurunum landsens til gagns, víst færre til skada. Skylldu 20 skip til landsens koma árlega, og hafner upptalldar, hveriar hvor borg af þremur hafa skyllde, enn ef þaurf giordiz ad fleire skip kæmu, skylldu þeir til þess skylduger epter naudsynium, sem þeim yrde þá af kónginum tilsagt. Skylldu þeir gefa fyrer hveria haufn 16 Juchum dale, og afhenda þá her leusmanninum, ádur hedan sigldu, og taka hanns medkenníng, enn annars brióte af ser veitínguna. Bref þetta endaz sem fyrr seger, med fleirum adhnígande greinum, sem greint bref hermer.

Kóng Christian 4de sigler um kríng allan Norveg inn til Ryslands. Hertoge Hans, kóngl. M. bróder, reiser frá Kaupenhafn annann Augusti til Moscow, og deyde þar 28da Octobris, grafenn til Slabodde þann 28da Novembris. Fyrstenn af Sophien, um nótt lætur uppleggia 200 stiga, og kemz yfer múrinn Gieniwe sem fólked svaf; var einn partur í helsleginn, og annar partur fángadur af borgurunum.

Anno 1603. Deyde Gudrún Arnadótter á Grund í Eyafirde, kvinna Jóns Biornssonar. Mannfall af fátæku fólke um allt Island af hardindum og sullte. Geck og blódsótt, dó og mannfólk úr heime, maurgum taúgum nidur í hvorre kyrkiusókn, eyddu bæer. Item fisklepse. Danskir komu í allar hafner; ecke halldeð

halldeð kóngs bref, misgreiníngur með Islendskum og kaupmaunn-um. Drepenn kokkurinn í Hofsós af kaupmanninum Jacob Vynoch. Brotnade þar epter kaupskipið í spón, náðiz góts. Let Jón Sigurðsson frá Reinestað, sýsslumaður í Skagafirðe, taka Jacob Vynoch, og þíngaðe um hann á Vallualaug, dæmdur fram̃ og hanns mál, sigldе á Akureyre. Þetta kallað blóðsóttar ár.

Fæddur Christianus 10da Aprilis, annar son Christians 4da í Kaupenhafn, sem síðar var útvalenn til Danmerkur og Norvegs konúngs. Kóngsins í Skotlande skrift um furstanna uppfræðíng útgengur, kónginum óvitande. Jacobus 6te kóngur í Skotlande afleggur allar comediur um sunnudaga. Þeir af Genive innfalla í Sophien. Drottníngin af Englande kallar á sinne sóttarsæng kóng Jacob í Skotlande til Englands kóngs epter hennar dauða. Deyðe drottníng Elizabeth þann 24 Martii [á 65 áre síns alldurs enn 45 síns ríkis, gaf mannlegt an-svar 3 legatum á einum dege serhvorium í sínu móðurmále, Látínu, Fraunsku og Italiensku. O. E. S.] Jacobus 6te út-hrópaz af aullum, að vera kóngur í Englande, hvað og skeðe. Hertug Ulrich í Mekelborg deyr. Margreifenn af Brandenborg deyr, Gregorius Friderichus þann 6. Aprilis.

Anno 1604. Geck blóðsóttin, fellu yferferðar-menn. Hluta vetur syðra. Fiskleyse fyrer norðan. Kom ís. Rak hvale Sel-reke mikell. Þetta var kallað Eymdar ár. A þessum tveimur fyrerfarande haurðu árum með því fyrsta haurku árinu, sem mest underbió, fellu í Hegraness þínge 8. hundruð manna, það

 var

var bæde yferferda fólk og fáræker barnamenn, sem inne lágu. So hafa menn reiknad, ad um allt Island hafe á þessum 3 árum falled 9000 manna. A Skinnastaudum í Asum í Húnavatns þinge skadade kona sig á liáum til davds, reid frá smidiu, fell af bake.

Kónglegt mandat í Danmørk, ad eingenn stúdere í Jesuitiskum skólum. Ein ný stiarna sien í Octobri mánude. Kóng Christian 4de reiser til Biorgvinar, ad halda herradag. Kóngurinn í Englande kemur til Lundún med stórre kónglegre pragt. Jacobus 6te kemur í stóru Britannia, og er hann hafde um hríd kóngur vered, lætur hann burtvísa Jesúitum og Pápiskum prestum af sínu ríke, hvorier nockrum sinnum med svikum haufdu leynelega seted um hanns líf. Fabula um einn Júda, þar skyllde lifa sídan Christi daga. Hertog Carl í Svíaríke stríder í mót Lislande, og leggz um Vitteftein. Ostenda inntekz af Spínola og þeim Spaunsku, epter ad þeir haufdu leged þar fyrer 3 ár. Fridur millum Spanien og Englands.

Anno 1605. Vetur hardur. Hluter í útverum litler, fyrer nordan eingenn fiskur. Is kom mikell, hann kom fyrer avstan land, rak allt umkríng ad avstán og sunnan ofan fyrer Grindavík um vertídar lok. Rak undan 2 vertídarskip under Jokle. Deyde sá fróme sæmdarmann Benedict bónde hinn ríke Halldórsson ad Modruvollum í Horgárdal, it. Gunnar bónde Gísla son ad Vídevollum í Skagafirde. Heingder 2 þiófar vid Blaundu

á

á Svarthámre. Sen hvítur hráfn lenge sumars í Skagafirde, í Hofsós og Oslandshlíd, villde Hr. Gudbrandur láta ná hannum í nete, og vard ei, hefur hann komed á íse frá Grænlande edur Nordur oræfum.

Þriú kóngsins skip af Danmork, epter þad þau hausðu funded Grænland; komu til Kaupenhafnar, eitt þann 28 Júnii, annad 7da Augusti, hausðu med ser 5 menn og nockra grænlendska vauru. Brúnsvík umleggz af Henrich Júlio. Sá Spanske flote yferunnen af Hollendskum. Kóngsins bref af Englande móte sióreifurum. Riga í Líflande umleggz af hertoga Carl. Sigesmundus kóngur í Pólen tók sinnar daudu hússfrúr systur til egta, sem var Archiducis Græciensis dótter. Páve Clemens 8de deyr þann 5ta Februarii. Epter Clemens 8da útvalen Leo 11de 1. Aprílis, dó þann 26ta edur 27da sama mánadar. [Deyde Síra Einar Hallgríms son 76 ára. O. E. S.]

Anno 1606. Kom út híngad fyrer alþíng hyrdstióre Herluffda. Hann sende strax vestur til Stapa mann epter Jóne logmanne, þad hann kæme strax til fundar vid hann, hvad Jón logmadur giörde, reid í snoggum svip sudur á Nes, var hann þá ordenn stirdur madur til fóta og annara burda, hann kom til Bessastada um kvolld, og var fast drucked, þvi Herluffda hafde gott og ríflegt hofdíngs sinne til veitínga. Enn um morguninn var Jón Jóns son logmadur*] andadur í sínu

 tialde

*) Jón logmadur dó á Jóns-messu, siotugur ad alldre. Sumer segia hann hafe í koddanum kafnad druckenn.

tialde, sem stód vid kyrkiugardinn þar á Bessastaudum, lágu menn hanns sofande kríngum hann, enn Daunsk kona kom í tialded, og sagde til, var hann þá andadur, var Jón løgmadur sidan grafenn í kór þar virduglega, og hanns líkkista sett nidur hiá kistu hirdstiórans Páls Stígs sonar, er þar var grafenn fyrer 40 árum. Þordur Gudmunds son sagde af ser løgmanns dæmid fyrer elle saker. Kiørenn Gísle til løgmanns, sonur Þordar løgmanns, fyrer sunnan og avstan, enn um løgmanns dæmid fyrer nordan og vestan voru 4 í kiørunum, Biørn Benedicts son, Jón Magnús son elldre, Are Magnús son og Jón Sigurds son, og haft hlutfall, hlotnadiz Jone Sigurds syne, bródursyne þess hinns fráfallna. Aftekenn madur á alþínge, Biarne ad nafne, falled med systrum. Brotnade skip í Grindavík Danskra, rak mest allt gótsid til hafs. Þann 23 Augusti sáz vígahnottur, hvor er hrapade frá nordre til suđurs. Páll Gudbrands son feck Þíngeyra klaustur og Húnavatns sýsslu. [Midvikudaginn nærstann fyrer Þorláksmessu andadiz Yngebiorg Þorsteins dótter kvinna Þormóds Asmunds sonar í Brædratúngu. O. E. S.]

Epter kóngsins befalníngu gáfu þeir hálærdu í Kaupenhafn frá ser þeirra meiníng um særíngina í skírninne, fyrer kónginn. Kóng Christian 4de gaf til háskólans eitt kostulegt sigurverk, sem vísade bæde plánetanna og stiarnanna gang, og stendur í sínu serlegu húse. Kóng Christian 4de med 7 skip útsilgde þann 10 Júnii frá Kaupenhafn til Englands med miklu faurneyte og kónglegre prakt, ad finna kóng Jacob og sína systur

drott-

drottninguna. Kom í England 13 Júlii, kom aptur þadann til Helsingia-eyrar med heilbrigde þann 24 Augusti. Þeir Persar aflífa 30000 Tyrkia. Fridur mille keysarans og Tyrkians 20 ár framgengur 9 Novembris. Þriátíu og sex tunnur púdurs settar under parlamented í Lundún af pápiskum, þar med ad deyda kónginn og rádid, openberaz, og forrædararnir straffaz. (Til Amsterdam í Hollande fædde ein erleg kvinna stúlkubarn med svíns hofde. O. E. S.)

Anno 1607. Kom Herlufsda út med kóngs bref, ad veita lífs-bref landsmannnum fyrer kóngs lenum. Reid Herlufsda nordur í land fyrer alþíng til Hóla, og med hannum bónde Biorn Benedicts son, ad reka nockur serleg kóngs eyrinde vid Hr. Gudbrand, epterleifar af misgreiníngum Jóns fráfallna løgmanns og biskupsins. Sídan reid hirdstiórinn þadan sudur Kiøl og í Skálholt, þadan til alþíngis. Sáz ormurinn í Lagarflióte avstur, med þremur bugtum so háum, ad madur med langvopnum mátte underganga, hefde á lande vered. Lestiz skip Grindvíkínga, undu upp og bættu.

Kóng Christian 4de reiser til Stafangurs til herradags Nordskra. Ordinantian gengur á prent. Af predikunar stólnum í Kavpenhafn forboded, ad einginn skule borga Stúdentum vín ellegar annann dryck epter þeirra navdsyn, utan þeir vilie missa þeirra tilstandande gialld, 20 Júlii. Vatnsflód burttók í Englande bæde menn og fe miked.

Anno 1608. Skiptape á Hópe í Grindavík, drucknudu 10 menn, mánudagenn epter Pálmadag. Vetur var miøg góður, spillte med sumrinu, kom þá ís og mikil hardinde. Lá ís fram til Jóns-messu. Brende ein kona barn í grabtar katle nordur í Þíngeyar þínge, het Gudrún Þorsteinns dótter, hún feck ydran, var brend. Þorbergur og Sigurdur Hrólfs syner voru sýsslumenn þar. Rignde orme vida miøg, mest fyrer austan, eydde tvo Bæe. Sór Þórdís Halldors dotter eid fyrir alla menn, og var þá med barne, hún var til heimilis á þeim bæ Sólheimum í Sæmundarhlíd, hiá Thómáse Bodvars syne hennar systurmanne. Deyde sá fróme heidursmann Hákon bónde Arnason.

*) Christian 5te útvalenn til kóngs yfer Danmerkur og Norvegs ríke 27. Maji. Churfurst í Brandenborg Joachim Friderich, fader drottníngarinnar Anna Chatarina, deyr þann 18. Július. Epter hann kom hanns son Johan Sigismundus. Hertug Friderich af Wittenberg deyr til Stutgard þann 29 Januarii.

Anno 1609. Vetur i medallage frá jólum. Hlutaleyse í útverum. Skipskadar, tveir seræríngar, annar á Akranese, annar á Alftanese, 6 menn á hvoriu. [Skiptape fyrer Eyasande, drucknudu 5 menn, einn af þeim var Simon, hálfbróder Sira Sveinns Simonar sonar í Hollte í Ønundarfirde.] Drucknan Dada Arna sonar, Wigfusa Bodvars sonar, og Sira Jóns Jóns sonar (er kalladur var Prinne) af Siglunese í Hravna óse. Hann sagde fyrer hvar hann munde liggia í Bards kyrkiu, þá hann reid út um þann sama dag. Skridur fellu vida, og snió-

*] Þetta setur Hans Nanson vid annum 1607.

sniófloð á bæum. Að Leifstaudum í Svartárdal þann 10 Februarii tók hálfann bæinn og fiósið, þó ecke allt, letuz 5 menn. Búandinn með sinne konu lág í baðstofu, það hús stóð kyrrt. Í skála aundudz 4 menn, hión þaug er ecke haufðu fulla viku saman vered, barn og pilltur, og vinnukona í fiósi, ecke uppstaðenn um morguninn. Brotnaðe kaupskipið í Grindavík í spón, góts áður í land komed. Brotnaðe og skip Hafnfirðínga suður fyrer Garðe, náðiz góts, haft síðan skipið í Hafnarfiord og uppunded, stóð þar um veturinn, bætt so um sumarið epter, og siglde fram. Kom Herlufsða með nockur kóngs bref út, 1. Það leysaz mættu inventaria klaustranna, 2. að sýsslumaður være í Westmanna-eyum, 3. að lögmenn væru í æru og aktan hafðer, 4. það einginn dauður uppgrafiz á Íslande, sem giort hefðe vered við Svend Loka. Þórðísar mále skoted á frest til annars alþíngis. Vetur stórfiúkasamur til jóla, með laungum hríðviðrum, fellu sniófloð víða, þrír menn urðu under sniófloðe á Urðum í Svarfárdal, tveir í Langadal. It. varð úte maður í Slettuhlíð á jóla nóttina. Gengu stórfiúk í viku um Andris-messu leite. Lestiz þá kyrkian á Hólum 2ann Decembris, geck nærre 3 álner úr farveg sínum. Sáuz 6 sóler á himne. Brann fiárhúsið og fed allt, 120 sauðer í Brennuborg í Skagafirðe, skar datt af liósi.

Deyðe Þórður lögmann Guðmunds son [giorðe áður sitt testamentum guðrækelega.]

Fæddur Friderich son kóngs Christians 4ða í Hadersleu 18 Martii, sem síðar varð kóngur í Danmörk. Í Hollande

fæddiz

fæddiz af einne erlegre kvinnu óskaplegur burdur, þad var í hunds líke. Aunnur kvinna fædde barn med tveimur hofdum, sitt á hvorre auxl. Þridia fædde barn med einu skaplegu hofde framan, enn aunnur ásióna bak til. Um veturinn í Málmey í Skáney í Danmork umsneriz blátt stífelse í blód, hvort er stód í mundlaug um nótt. Í brúdkaupe nockru til Erfurt, í Ofur-Þýdskalande, fell hús ofan, og urdu under 30 persónur, ein ambátt hellt á barne, og kastade því út um vindaugad. 10 álna, kom lifande nidur, og sakade ecke. Í því húsid hrapade, limlestuz 20 persónur. Nær Magdeburg sock í jardskiálfta eitt hof, og sez ofan á þad háfu tre, vatn kom þar upp, vellur og sydur, enn er þó blákaldt. Kóng Christian 4de útgefur fríheit, ad þeir hálærdu í Kaupenhafn, seu frý fyrer skatte og álaugum, fyrer þeirra hús, sem þeir áttu þar nálægt. Kóngsius í Frankaríke mandat móte þeim, sem vanbrúka guds nafn. Þýdsk predíkun fyrsta sinne til Prag. Ein kellda, sem hefur lækuisdóm í ser, sprettur upp til Cassel. Ríg fríaz af hertoga Carls umsátre. Ertz hertug Matthias krýniz og smyrz til kóngs í Ungaria. Stilling millum hollendskra og spanskra 12 ár.

[Bóndinn Besse á Urdum miste allt sitt fe. Í Skards sókn austur í Medallande fædde ein kona tvo baurn, þad fyrra á fimtudag, án sóttar, sofande í sænginne, þad var andvana, og ei stærra enn hálf stuttspannn, fæturnir ecke digrare enn legg- ur í hana fæte. Seinnra barnid fæddiz á laugardags kvolldid

epter, lifande og fullaldra. Þetta skrifade Hr. Odde prestur, er þá var í Medallande, Síra Þorkell. O. E. S.]

Anno 1610. Vetur hardur og langhrídasamur. Kom fiúk á Einmánude á Geirþrúdardag, og hafa marger þann bil kallad Geirþrúdar bil. Þá urdu marger menn úte med fe sínu í Midfirde, einnin 14 menn í Borgarfirde, og so vestur í Kolbeinstada hrepp, og ógurleg fiártión um þessar allar sveiter, og vídar annarstadar, og miog vída fellu peníngar. Ek mundu menn slíkann skada orded hafa í eins dags vedre á lande. Í þeim sama bil forgeingu vid England 500 skip. Druknun Olafs Clementz sonar í Stadarsunde í Grindavík med 9 sína háseta. Kona vard úte á kiaum gegnt Miklabæ í Blaunduhlíd í Skagafirde. Hrapade smásteinn á mann í Enne vestur í hofudid, var strax orendur í saudlinum. Tókz upp hvala-skutlan á Vestfiordum. Fell Jón Odds son med Sigríde Halldórs dóttur, systur konu hanns, fyrerfóru barninu, hliop Jón sídan burt med hana. [Biarne Brands son logrettumadur ad vestan, dó á Lunde í sydre Reykiadal af munnbita á Þíngmariu-messu. Ein kona til Siebenborg fædde 8 baurn í einu, aull lifande. Þorsteinn sonur Gudmundar Andres sonar og Jardþrúdar Þorleifs dóttur, þridie og sídaste madur Þórunnar á Grund, dóttur Jóns biskups Ara sonar, átte 5 eda 6 lavn-baurn. Eitt af þeim var Síra Oddur Þorsteins son, sem átte Geirdíse dóttur Síra Torfa Jóns sonar í Savrbæ nordur, systur Malmfrídar Torfa dóttur, konu Síra Biorns Gísla sonar. Hann fell med systur sinne Arnfríde, sem þá var

A a barn

bárn ad alldre. Var sagt hann hefde komiz yfer hana med konst=rum, og navdgad henne. Herfyrir var Síra Oddur dæmdur af Odde løgmanne Gottschalks syne Anno 1554 á Spialldhaga í Eyafirde, nálægt Laurentii-messu, útlægur af Nordlendínga fiórd=únge, alla sína æfe, og af haunum hægre hondin, nema valldsmadur vilde meire miskun ágiora, og skera af haunum bæde eyrun, ef hann gyllde ecke rádspiaullin fyrer þessa stúlku. Hún giptiz sídan Halle Magnús syne. Enn hofudsmadurinn Páll Stígs son nádade Síra Odd, so hann hellt lífinu, og feck seinnra aptur prestskapinn, hellt hann þá Túngu í Steingrímsfirde, og dó þar.

Segia sumer, hann hafe eignaz aptur Sigþrúde Magnús dóttur, og vid henne átt Síra Þorstein, Nikulás og Jon, Sigríde og Gudrúnu. Síra Þorsteinn hellt Túngu=stad epter fodur sinn, fell og so med úngre stúlku ómaga í hór=dóm, og miste prestinn, veiktiz hún af þeirra vidskiptum. Hann siglde og var nádadur af kónge, helldt þar epter Skards þíng vestur, hann fell þrisvar í hórdóm. Nikulás Odds son bród=er hanns var løgrettumadur, giftiz Gudrúnu, lavndóttur Biarna Odds sonar í Skarde. Þeirra dætur Gúdrún móder Hákonar Arna sonar í Gaurdum, og Halldóra kona Síra Vigfúsa Hel=ga sonar vid Hellna. Nikulás átte og 4. lavn-baurn, eitt af þeim var Barbara, móder Magnúsar Hrómunds sonar, sysslumañs í Hnappadals sýslu. Þridie bródurinn var Jón Odds son, sem fell í óbótamál med Sigríde, sýstur konu sinnar Steinunnar, dætra Haldórs Jóns sonar á Fródá og Ragnhilldar Eigils dóttur. Þridia syster þeirra het og so Steinunn, og var fyrre kona

Síra

Sira Þorsteins Oddssonar, bródur Jóns. Sagt er ad þessꝛer 3 brædur hafe teked sig til med fleirum ødrum, ad brióta upp Mókolls havg vestra, og þegar þeir haufdu funded kistuna í havginum med stórum hríng í lokinu, og unded hana upp med baundum, so hún var á lopt komen, hafe sagt einn af þem,: **Nuu tekz, ef gud vill**, þar til hafe annar svarad, **Nuu tekz, hvørt gud vill edur ei.** Enn strax slapp hríngurinn ur kistulokinu, litu þeir þá heim til bæarins, og sýndiz þeim hann allur í einum loga, hlupu þeir þá aller heim med skynde og, vildu hiálpa bænum, og var ecke, sem þeim sýndiz. Samstundis vitindu þeir aptur havgsins, og var hann aptur sem ádur. Epter þad vilde þeim brædrum soddan slis, ad þeir fellu í kvenna mál. Mælt er og, ad ødrum fylgiurum þeirra, hafe sitt viliad til hvørium fyrer sig. O. E. S.]

Utvalenn kóng Christian 5te, hylltur med stórre vegsemd í Danmork og Norveg. Hertoge Ulrich fæddur í Kaupenhafn, þann 2 Februarii. Jesuitar og Pápisker múkar burtdrifner af øllu Englande, og frá þeim tekenn øll þeirra vopn og verjur. Kóng Henrich 4de í Frankaríke med skamar giorníng slæz í hel þann 14 Maji. Delphin kóngsins son samþyckiz til kóngs í Frankaríke. Friderich 4de Pfaltz greife deyr 19. Septembris. Lodvík í Frankaríke krýniz á sínu 9da alldurs áre.

Anno 1611. Vetur gódur, havst miøg votsamt. Dreckt á Vestfiordum Sigríde Haldórs dóttur, enn Jón siglde med Englskum. Skadade sig madur med mat-hníf fyrer sunnan. Avstur í Vopnafirde skulu tveir menn hafa myrdt einn mann í sió,

þeir tveir aftekner. Unned víg í Steingrímsfirde, sá madur aftekenn. Mord og ófridur hvervetna ad spyria um allt Ísland. Menn og vída brádkvadder. Síra Stephan Gudmundsson á Underfelle í Vatnsdal stack sig med mat-knífe af vondre freistíng, andadiz sídan. Ungmenne dreckte ser í gravtar katle sudur í Nordurárdal. Í Diúpadal nordur í Skagafirde skadade sig madur Biarne ad nafne Magnús son á liá í lángorfe ófyrer syniu, blædde til ólífis. Þá var kallad skridna-havst, þær fellu vída. Tók bæinn á Hiallalande í Vatnsdal, og voll nærre allann. Brunnu hús á Litíngsstaudum í Skagafirde. Apturganga þreifanleg á Vestfiordum. (Druknan tveggia manna í vatna ágange á ísunum gegnt Reinestad, í Skagafirde. Mikil hvala-skutlan á Vestfiordum.)

Hellt kóng Christian 4de siálfur til strívs í Svíþióð, og so sende her sióleidis. Calmar legraz fyrst þann 4. Maji, innteken 25 Júnii, slotid þann 3. Augusti, Gullborg þann 1. Júnii. Kóng Carl 9de í Svíarike dó. Christian 2. curfurste af Saxen deyr. Kóng Matthias í Ungaria krýniz.

Anno 1612. Kom ís. Hardinda vor mikid. Hrafladiz um savdfe miog so. Sienar 4. sóler. Enn sáz ormurinn í Lagarfliótе avstur. Regn stór fyrer Jónsmessu um sumarid. Jardfellis ógángur í Avsturdaulum í Skagafirde, eyddu 2 bæer, sórz med af peníngum, hlupu fram yfred mikler skogar, rak af þeim vide ofan í Hólm, og vídar um Skagafiord, því Heradsvautn steinde upp. Sprack fram Eyafialla jøkull avstur allt í sió. Kom þar upp elldur, sem sáz nær allstadar fyrer nordan land. Dreckt einnre kvinnu á Vestfiardum

um; er fell med tveimur fedgum. Kom út Herlufsda hirdstióre, siglde aptur. Juren Daniel var umbodsmadur; reid nordur í land um sumarid.

Var þíng sett vid Vallnalavg í Skagafirde af Jóne løgmanne Sigurds syne. Þar var Hr. Gudbrandur biskup og Juren Daniel. Medgeck þá Þordís Halldors dótter, ad hún hefde falled med Tomase Bødvars syne, hennar systurmanne, hliöp Tomas þá af þínginu, var elltur og nádiz ei, stravk hann avstur um land, siglde sídan til Englands. Hans kvinna Bergliót giftiz aptur á Vestfiordum. Kom Tumas sídar, og vilde sækia hana, enn hún vilde ecki fara.

Deyde drottníng Anna Catharina í Danmørk, 29 Martii, sett nidur 4da dag Páska, sem var 15 Aprilis, haufdu þavg átt 6 baurn, lifdu 3 syner. Stríd þá allramest millum Dana og Svía. Elsborg inntekin 23 Maji. Danskra og Svenskra legata samfundur. J því slage í Hallande fellu Frantz Ranso, Christian Bernebow, Sten Rosenspar, ypparleger Dansker herramenn. Miked vatnsflód í Italien. Hrædelegur jardskiálfte til Birchfold og annarstadar þann 9 Novembris. Hrædelegur stormur og óvedur þann 1ta Januarii. Keysare Rudolphus II. til Pragh deyr 10 Januarii. Matthias krýniz til keysara til Franchfurt 14 Januarii. Hollendsker giøra samband móte Tyrkianum.

Anno 1613. Vedurátta stormasaum, med sióargange. Hluter um Sudurnes. Drucknudu 2. menn under Jokle vestur, item 2 menn under Eyafiaullum. Skiptape í Garde sudur, þar á 5. menn. Skiptape í Kollafirde, sexæríngur. Drucknan Jóns skútu formanns í Selvoge, og tveggia annara, þridie lifde viku. Lágu Spansker hval=skutlarar kríngum allt Island á 18 skipum, giordu glettíngar sumstadar. Einer fyrer Vestfiordum fengu hafvillu, sigldu í Vesturhaf, rautudu í ís, voru í haunum 9 daga, komu ad Grænlande [sem sumer hallda] med haurku braugdum, skutu landsmenn af þeim 3 meñ til davds, med sínum bogum og bein=pílum, enn hiner Spannsku sáu þó avngvann, helldu sídan med þad frá lande, og fangdu happ, enn sem fram̃ á sió komu, sáu þeir ógrynne lids á lande, þeir sigldu sídan til Islands, undu upp skip sitt, og giordu ad því sem lest var orded, helldu burt um vetur=nætur. Gísle Þórdar son logmann mætte hirdstióra óvild. Deyde sá virduglege hefdínge Jón Biorns son á Grund í Eyafirde. Geck ein þúng og almenneleg landfars sótt um allt Island, stigu fáer fram̃, hardtnær frá havste og fram̃ ad nýárs dege.

Fridar stillíng millum kóng Christian 4da af Danmork, og þess útvalda kóngs Gustavi af Svíaríke þann 20 Januarii. Eitt miog furdanlegt teikn sed á himninum til Þesor. Teikn á himninum sed til Prag og annarstadar. Henricus Július hertoge til Brunsvík deyr til Prag. Margreife Ernest af Brandenborg deyr.

Anno 1614. Vetur gódur til Luciu=messu, spilltiz þá.

Heyadiz

Heyadiz miog litt Nordanlands fyrir votvidrum. Drucknun 5 manna í Vestmanna-eyum, annara 5 á Breidafirde, item 5 á Vestfiordum. Tveir menn drucknudu í Jokuls á í Skagafirde lavgardaginn fyrir Páska. Sigvallde Eyríks son á Kaldrana skadade síg á auxe, hann fór til smída, því hann datt, skarz inn í hofudid, mædde blódrás, andadiz sama dags. Þrír menn urdu under snióflóde vestur í Fiordum. Landskiálftinn mikle sydra, hrundu bæer. [Í þeim landskiálfta fell Fiall á Skeidum ad mestu. Þar á hladinu lá reidíngs torfa, sem hvarf í jardskiálftanum, so hún sáz ei aptur, meinaz í jaurd hafe horfed. O. E. S.] Rán og skemd peninga í Vestmanna eyum, og so vídar kríngum Ísland, af útlendskum sióreifurum.

[Sá het Jón Gientelmann, sem rænte Vestmanna eyar, hann tók þá stóru klucku frá Landakyrkiu, feste hana upp í kadlana á skipinu, hvoriu hann rænt og stoled hafde, siglde sídan út med hana, enn þá hann kom út til Englands, var hann drepenn, og aller hans menn. Enn med því á þessare klucku stód, hvorre kyrkiu hún tilheyrde á Íslande, var hún af Englands kónge send aptur til Vestmannaeya, epter þad hún hafde vered þar í 3 ár, og er sú stóra klucka á landakyrkiu ennú í dag. O. E. S.]

Rænt kavpmannafar í Diúpavoge avstur. Herlufsda hirdstióre kom út, hafde Gísla Þordarson logmann í málum, þad samed med fe. Kom Gísle logmadur ei til alþíngis, var hann þá veikur madur ordenn af elle. Var til logmanns kiorinn Gísle Hákonar son fyrer sunnan og avstan. Upplesed á alþínge

þínge pass-bref Danskra fyrer þessum haufnum 11. ár, þóttuz nú Íslendíngar sakna þeirrar kavptídar, sem ádur hafde vered her á lande. Þesser sendemenn þeirra Daunsku reidara, sem híngad komu, marger hvorier, hugsudu ecke miked um, hvort þeirra góts geck út edur ecke, haufdu þad sumtídis fram, stundum laugdu þad epter.

Kóng Christian 4de yfer Danmørk og Norvege siglde annad sinn til Englands. Christianstadur byggdiz og festiz af kóng Christian 4da, fyrer einn fastann stad, í Villands herade í Skáney. Aller biskupar í Danmørk samansafnaz til Kolding med háskólans meisturum þann 21 Februarii, hvar M. Olafur Kock, sem var sóknar Herra til Sti. Nicolai kyrkiu í Kavpenhafn, dæmiz einn falskennare, og gioriz útlægur þann 23. Februarii. Þann 4da Júlii, samansaufnuduz aller biskupar í Kavpenhafn, ad segia þeirra meiníng um apologiam Resenii. D. Petrus Vinstrúp, biskup í Sellande, deyr. Í hanns stad kom D. Hans Resen, sem var ordineradur af M. Pále Marteins syne biskupe í Skáney, þann 21 Maji. Þad bar til í Þýdskalande, ad einn prestur helgade fyrer altarinu, gengu til altaris fáeiner menn, medal hvorra var einn 15 vetra gamall madur, og sem presturinn bar haunum víned í kaleiknum, sá presturinn þad var blód edur med blódslit, þá aptrade hann ser ad gefa pilltinum, og feck sem ótta nockurn, og snere ser ad alltarinu, bendte þá einum herramanne til tals, sá hinn same herramadur sá líka sem presturinn blódid í kaleiknum, og epter stund lidna vard víns litur aptur, og sídan gaf presturinn þeim únga manne

manne, hvör ecke hafde fyr altaris sacramentum medteked. It. á sama áre á Islande, þann 14 Martii, sem var Góu-þrælliñ, rett um hádege, sáuz margar sóler, med ýmislegum hríngum, varde um eina klucku-stund, hvarf sídan smámsaman, ad lidnum midium deginum.

Anno 1615. Vetur hardur, med miklum jardbaunnum. Þá fellu nær aller útegangs peníngar, sem ecke hausdu hey, um allt Island. Rak inn ís á Þorra fyrer nordan land, þá krýngde hafís um allt Island, og lá til Fardaga fyrer nordan. Kom ís sudavstan fyrer Island, hann rak ofan fyrer Reykianess-Raust, og inn á Voga, og fyrer aull Sudurnes, avngver mundu þá ísrek sked hafa suñan fyrer Raust. Seladráp á íse um Sudurnes. [Hafís so mikill fyrer sunnan, ad ecke vard róed fyrer sunnan Skaga, á haunum drucknudu 2 menn, er fóru ad drepa sele. E. O. S.] Drucknun Skáldstada Eyrîks úr Eyafirde, fyrer Stafnese. A þessum vetre vard mest peninga hrun umvanalegar gód-sveiter. Þá komuz allfáer menn sudur yfer heidar í verferd fyrer ófærdum snióar, sneru heim í sveiter. Brotnudu hafskip vída í íse. Þann vetur sáz sialldan ein sól, so ei væru 2 edur þrávallt 3, og furdu opt 4, item alltídum 5, so líka 6, senar voru og 7, einnum 8, nockrer menn litu og 9. Þessar sóler sáuz í hríngum á loptinu, med ýmislegum teiknum og líkíngum. Þá sáz og sem annar regnboge móte sólunne, þótt harda frost være.

Biarndýr gengu þá vída um landed, giordu ecke mein, þau voru unnen margt avstur og sudur á landinu, eitt var unned med skotum og slaungum á Hólum í Hialtadal. Atta skiptapar

  ar

ar urdu vestur á Breidafirde á tveggia Postula=messu, þá kom suaugglegt áhlavpa vedur. Drucknun Hannesar bónda Biorns-sonar, hann reid druckenn úr kavpstad. A Hvanndaulum nordur stack madur sig ófyrersyniu á vetlínga=prióne inn í baked, Tomas Gunnlavgs son ad nafne, dó litlu sídar. Ein kona, er het Ragnheidur Magnús dótter, fyrerfór barne sínu 5. vikna gaumlu í læk einum nordur á Svalbardsstraund, þeirre dreckt á Helgastaudum í Þíngeyar þínge, feck ydrau. So bar vid þann sama dag, sem þesse forblindada kona let barn sitt ofan í foss nockurn á þeirre litlu árspræuu, sem Gelldíngs=á er nefnd, og hún heyrde til þessa síns barns þriú hlióð, sem hún seinna siálf fráſagde, ad menn sáu út í Lavfáss=hverfe himininn ravdann sem blód, í súdurátt, og heyrdu þeir í loptinu 3 hlióð í saumu átt og sama púnkt, sem barned drecktiz. Fædd Margret Hall=dorsdótter logmans Olafs sonar, Sigurds sonar Odds sonar Tom=as sonar, og Haldóru Jóns dóttur Biorns sonar prests Jóns sonar biskups Ara sonar, á Grund í Eyafirde, um messudag Barbaru meyar á Fimtudege. [Þann 1. Octobris kom so miked flód í Slesvík, ad marger menn drucknudu, og so mikell fenadur. Þá urdu vestra 15. skiptapar. O. E. S.]

Veiddur vid Kalmar einn fásedur fiskur, tveggia álna láng=ur, skaptur sem lánga nær so, stódu nidur úr midium haunum sem tveir manns fætur upp ad midium kálfa, enn þriú spiót upp úr midiu bake, enn sem sverd ígegnum hnackann, og horf=de hiollturinn nidur enn oddurinn upp, og þesse ord sáuz á haunum: VÆ VÆ VÆ *) DÆ OC MÆNS.

*) Al. DÆN; Byr=

Byriaz sólar aulld, sem næst er sinne seinustu til alldamóts. Kóng Christians 4da nýr Recess útgengur. Til kóngsins nýrrar capellu í Roschild leggz grunndvollur á þessu áre, sem ysred mæt og kostuleg bygging er.

Anno 1616. Vetur skorpusamur. Hluter í útverum. Vedur miked á vestan Jóladag hinn fyrsta nordannlands. Skiptape á Stafnese. Geck mikla bóla, dó margt fólk úngt innan þrítugs alldurs. [Engelskt skip kom á Hiallasande. A því var Islendskur madur, Olafur Gottschalks son frá Hundadal, var hann bólusiúkur í land fluttur, sló þeirre sótt strax á landsfólked, so miked mannfall vard í kríngum Snæfells=jokul. I Ingialdshóls sókn dóu 70 menn. Þesse er af maurgum kaullud mikla bóla.] Þá geck og annar kránkleike af take, af því dóu marger, Jón prentare Jóns son Svenska Matthias sonar og Kolbiorn Hiálms son bartskere. Sú bóla kom út híngad á Engelsku skipe under Jokle, og dó þar sídan undra margt fólk. I Arnes=þínge dó 300 manns, í Húnavatns=þínge 150 manns, í Hegranes=þínge 200 manns, í Vodlu=þínge nær 200 manns.

(Margur drengur og stelpa voru á þessu áre og á nockrum epterkomande árum flutt ad sunnan Nordur og í Austfirde af sýslumanne, vegna manndavda og fólks fæckunar, drenger selder, sumer fyrer 60, og 80 álner, enn stelpur 40 álner. O. E. S.) Sigler Þorlákur Skúla son fyrst (er sídar vard biskup

biſkup) og fær bólu í þeirre ſinne reiſu, var hann þá 18 ára ad alldre, og var utan 3 ár. Forgeck farmaſkip Jóns Magnúsſonar elldra, drucknudu 15. menn, fóru med góts úr kaupſtad. Brotnade Engelſkt ſkip í Þíngeyar-þínge ſeinnt um hauſtid, viſtudu þeir ſig þar um veturinn 9.

Uppleſed kóngsbref á alþínge, ad leggia fé til Beſſaſtada kyrkiu uppbyggíngar af aullum kyrkium á Islande epter ſiár-megne kyrknanna, þeſſu framfylgdu ſýsſlumenn um landid. Ad þeſſu voru hallden rád og underrót Júrens Daniels ſonar, umbodsmanns á Beſſaſtaudum, kvolldade og illa.

Þad bar til veſtur í Gufudal, ad þrír menn þar deydu í bólu, og ſýnduz vera á felle, og ſáuz almennelega, þad vóru tvær konur, og hafde hvor heitaz vid adra, þridie var úngur madur, ſem het Steindór, hann hafde haft leik og glens vid ſtúlku eina þar, þá lifde, ad henne ſókte hann. Þeſſer aller ſpilltu verke og vefnade, med ſkrækium og ſkellum og hwiſlegum látum, ſtódu ad meſſu og leſtrum bæde úte og inne. Item, ad þar veſtur ſkede, ad 3. menn ſátu hiá ſiám ſínum í ſiúkgeiſu aller til ſamans, ad þeim kom einn bilur, ſá þá alla nidurſló til jardar. Einn komz heim til ſín med illann leik, ſtirdur og laminn, annar fannz vitlaus, ſá þridie var daudur, og í burt hanns hálft hofud, og lágu hiá haunum tveir dauder ſauder. Villtiz madur einn í ſiúkgeiſu, Gudmundur ad nafne Erlendsſon, um kvolldtíma á Langholte í Skagafirde, hann fannz daudur í einum litlum foſſe í Vídemírar á. A Veſtfiordum brotnudu 2 ſkip Spaunſk, ſem ádur med fleirum haufdu þar á hvalveidum vered, í Stranda ſýsſlu, og ſtoled ſaudum og ſmiere

frá

frá búendum þar, einnin vide og audru, þetta var seinnt um havsttíma, giorde þad Spanska folk stórar óspekter í ránum og audrum tiltektum. Tók sig þá mannfólk saman med ráde yfermannsinns Ara bónda Magnús sonar, sýsslumanns yfer Isafiardar og Stranda sýsslum á Vestfiordum, og Spansker 18. slegner til davds af maunnum Ara á Sandeyre og Ædey, þaradavk 13 á Skaga í Dýrafirde, sem ádur ræntu og stálu frá búendum. Hvort Spanskra slag til land-hreinsunar virdtiz, sem dómar þar um gengner, gengu og votta, og á alþínge var yfersed. Um þetta slag finnz gior skrifad á Vestfiordum, hvoria sem þad girner ad lesa. Sende kóng Jacob af Englande strídsskip under Island, til varnar vid fiske-duggur, þadan frá lande, móte Spaunskum og audrum síóreifurum, þeir tóku 2. reifara skip fyrer Garde sudur. So og sende kóng Christian 4de af Danmork strídsskip under Island, til hlífdar kavpskipum og landinu.

Christian Frys til Borrebye canceller deyr vid Opslo í Norvege þann 29 Júlii, á strídsskipinu Fides, 60 ára gamall, var 20 ár cancellere. Herra Christian Frys til Kragerup verdur canceller til Colding, og þar med 11. nafnkunnuger nienn af adal sláz til riddara þann 2. Decembris. Jardskiálfte í Svitzerland og Spanien. Marcus Antonius de Dominis, einn erchebiskup af Spalatro, fellur frá pávadóminum og til þeirra Reformerudu, lætur útganga*) smáskrifter móte þeim Pápisku trúarbraugdum. I Danmork í Skáney bar þad vid, ad eitt kvíga fædde tvo Mey-baurn, og hlutu bæde skírn, enn sá bónde sem kúna átte heingde sig.

 Anno

*) Sínar.

Anno 1617. [Settur Brinjólfur Sveins son í Skálholts skóla, (er þar vard biskup epter Herra Gísla Odds son) var þá skólameistare Síra Torfe Finns son, var hann þá í skóla 6. ár. Þann 9. Octobris er fæddur Torfe Jóns son, Gissur sonar, Þorláks sonar, Einar sonar, Sigvalda sonar, ad Núpe í Dýrafirde á Vestfiordum, þad skede snemma morguns.] Vetur gódur til Jóla. Hluter góder allstadar í útverum, og ár gott uppá landid, heyskapur mjög gódur. Geck bólan um avsturlandid, dó margt fólk. Drucknún tveggia manna vestur í Lóne. Drucknun tveggia manna í Hafnarfirde. Drucknun 30. manna avstur vid Eyasand. Einn rak þar upp davdann med barn sitt í fanginu, hellt því so davdahallde.

Drucknun Biarna Tomas sonar med annann mann, í Skagafirde, þeir fóru fram á haf til fiske tveir, sem Biarne hafde opt ádur leiked í stórum dirfsku sióferdum, frá því sem aller adrer menn um hanns daga, so sem þá hann fór til Kolbeinseyar. Drucknun Sigurdar Odds sonar biskups í Hvítá, hiá Oddgeirshólum í Flóa, og hanns manns, sem het Bergur. Skiptape í Eyrarsveit, 6 menn, segia menn ad hvalur hafe teked þá alla, serhvörn einn í senn, og gleipt.

Kom ecke út hingad hirdstiórinn Herlufsda, sende Jurin Daniel son. Bref kóngs upplesed í logrettu um Vellè í Holme, þeir skyldu leggiaz aptur under Hóla kyrkiu med dóme, hvad og framgeck. Item í því brefe, ad prófasts gardarner, edur kyrkiurnar á landinu skule avngvum veitaz ad þeim lifendum, sem þá halde, fyrrenn þeir afgange. Fimta dag Martii sáuz 4 sóler senn Nordanlands. Síra Þorsteinn Olafs son í

Vesturhóps, Hlum fell af hests bake, kom svartur fleckur á hálsiñ, hvaraf kom miked mein, deyde af því sama þann 11ta Martii, 55 ára.

Utflúttur vidur til Bessastada kyrkiu, og þá sídan reist og bygd, heldur hávaxen og stórt hús, bitalaust, sagde Jurin Daniel, ad slíkt hús kynne ecke ad forganga, enn Islendskur bilia-vindur sætte ecke því ravpe. Pad kyrkna-gialld kom saman og flutt framm, fiogur hundr. daler. Deyde Biorn bónde Benedicts son ad Múkaþverá, þann 21 Augusti, einn frómur hofdingsmadur, fridsamur og lítelátur, hanns kvinna var Elen Páls dótter frá Stadarhóle, Jóns sonar frá Svalbarde, Magnús sonar. Móder Elenar var Helga Ara dótter logmanns, Jóns sonar biskups Ara sonar. Sonur Biorns og Elenar var Magnús logmadur, er epter sinn fodur tók Múkaþverá og Vodlu sýslu, heidurlegur hofdings mann og skáldmenne miked. Hann átte Gudrúnu Gísla dóttur logmanns, Pordar sonar logmanns Gudmunds sonar, þeirra syner Gísle og Biorn Magnús syner.

[Gísle giptiz Prúdur Porleifs dóttur, Magnús sonar á Hlídarenda, hennar móder Gróa Gísla dótter bónda Arna sonar, er þar bió. Annar son Magnúsar logmanns var Biorn, sem eignadiz Helgu Gudmundar dóttur, Hákonar sonar á Píngeyrum, er bæde hellt Píngeyra klaustur og Húnavatns sýslu. Hennar móder Haldóra Ara dótter frá Ogre. Dætur, Helga Magnús dótter, hún giptiz Hákone Gísla syne logmanns, Hákonar sonar, Gísla sonar, er sat á Hlídarenda, epter Pál logmann Vigfús son. Aunnur þeirra dótter Jórun, hún giftiz Jóne Magnús syne frá Reykhólum, sonar syne Ara Magnús sonar frá Ogre á Vest-

Vestfiordum sýslumanns yfer Isafiardar sýslu. Þridia þeirra dótter Sólveig, hún giftiz Þorkele Gudmunds syne, er hellt Þíngeyra klaustur epter Pál Gudbrands son. Dætur Biorns og Elenar vóru Sigrídur, sem átte Pál, son Herra Gudbrands Hóla biskups, þaug áttu marga sonu. Gudrún þeirra dótter, hún átte Gísla biskup Odds son biskups, Einar sonar, þaug áttu ecke maurg baurn saman. *]

Þad kaupskip, sem koma skyllde á Eyrarbacka, þad fann alldrei Island um sumared, villtiz af þokum, ratáde fyrer hafís, komu í mikla neyd í margann máta, bæde saukum skipsins og siálfra þeirra, þeir urdu ad slá selinn á ísnum ser til fædis, komuz um síder med haurku og naudum úr ísnum, og sigldu so frañ aptur í Danmork, og saugdu happ. [Siglde Arne Odds son í annad sinn vegna fodur síns Hr. Odds. O. E. S.]

Evangeliskt fridar ár í Danmerkur og Norvegs ríkium, þann sídasta Octobris, forkostulega hallded í heila viku. M. Isaac biskup í Þrándheime deyde 27. Júnii. Þad Evangeliska fridar ár hallded allstadar í Þýdskalande móte Páfistum. Kóngsins bref í Danmork, hann bannar allt kukl og galdra, sem þad bref hliódar.

Anno 1618. Var breñd kona fyrer nordan, fyrer þad, hún fargade barne sínu med bruna. Vetur gódur frá Jólum, kom ís um vored. Hætt maunnum bæde í sió og vautnum. Druck-

*] Vidbætt af Síra Torfa Jóns syne.

Drucknan 8. manna under Eyafiaullum. Skiptape vestur á Hiallasande, drucknudu þar menn 7. Drucknun 3ia manna í Hafnarfirde Gudmundur Gudmunds son logrettumadur drucknade í Borgarfirde, og adrer 6 menn fyrer Seltiarnarnese. Drucknun Gunnlaugs Gríms sonar, og annara 7. manna á Grímseyar sunde. Drucknun 8. manna í Þiórsá ávstur. Drucknade einn madur í Jokulsá nordur. Einn madur drucknade í Blaundu. Einn madur drucknade í Fliótum. Einn madur drucknade í Þverá í Borgarfirde.

I Þverárdal í Húnavatns-þinge brann veturgamallt barn í gravtarkatle, og dó litlu sídar. Hrapade ein kona fyrer biaurg á Skagastraund nordur, lá þar þriú dægur, dó þegar menn komu til, og ætludu hana heim ad færa. Þann tíma var hennar madur uppyfer henne á einnre hillu, hún hafde átt ad vera vid festarhæl, enn hrapade ofan, hann komz hvörge þad dægur, þar til menn hiálpudu haunum. Þann 10. Júnii voru skruggur miog miklar, fyrer nordan land, í landsudurs átt, í því kom reidarslag, og dó einn madur á Briámsnese vid Mývatn, datt til jardar strax orendur orkumslalaus. Stúlka ein var og hiá haunum á enginu, datt til jardar, dó ecke. Þá fellu og adrer 3 menn af hestum þar í nálægd, sakade avngvann. Gengu jardskiálftar alltídum, bæde nótt og dag, um havsted og fram ad Jólum, hraupudu i einum þeirra 4. bæer nordur í Þíngeyar þinge, þar sprack og jaurd í sundur, so varla vard yferkomiz. I einum stad under breckum á Tiornese Hvarf ein stúlka frá Eydstaudum í Blaundudal, 30 ára ad alldre, hún fanniz áre sídar, davd fram á fialle þar. Einn

 mad-

madur, Þorgeir ad nafne, vard í snióflóde í Austurdaulum í Skagafirde. Í Deildardal í Skagafirde hlióp skrida ad 4. baurnum, hún náde 2. so dóu, eitt leste hid þridia, þad hid ýngsta komz undan og heim til bæarinns, þad voru ad smára lestre um vorid. Urdu tveir pilltar í Flókadal fyrer nordan under snióflóde, komuz menn á slód þeirra fram í skriduna, og gróf til, fundu sídan riúpna tog mille þeirra, var raked og grafed epter því, lifde annar, enn annar var fiórum faudmum nedar látenn.

Sáz ein cometa fyrer nordan land, um veturinn fyrer Jóla-faustu inngang, nær í mánud, hún hafde ecke so edlelegañ gang sem adrar stiaurnur, undan henne geck fyrst þegar hún sáz, so sem einn langur stafur, enn þá sídar, móte því hún hvarf, kvísladiz sú rák, og vard ad siá sem vondur. Sáz ormurinn í Lagarflióte. Brann Bægisá hin vestare í Øxnadal allur giorsamlega, fólk var í sele.

Kom út kóngs skip sendt af kóng Christian 4da, þad átte ad taka reisara, ef vid landid lægi, so og annarstadar nálægt stravmana ad hreinsa. Á því skipe voru tveir herramenn, sender á Ísland, ad nafne Friderich Friis og Juren Windt, þeir haufdu kóngs bref ad dæma yfer aullum málum, hvört sem klagad være á hofudsmanninn Herlufda, biskupa, løgmenn, sysslumenn, presta edur útlenda kavpmenn. Þeir dæmdu tveir í løgrettu allra manna mál þad sumar, og þóttuz þá flester ecke ná Íslendskum løgum. Þeir dæmdu líf af Þórdíse Haldórs dóttur, henne dreckt á alþínge. Item dreckt annare konu ad

avstan, hún sagde barn uppá sinn systurson, hann þverneitade, og feck ecke eida-menn, af þeim bádum dæmdu þeir líf, madur sá hálshøggvenn á alþínge. Item høggvenn madur á Akranese epter þeirra skipun, falled med systrum. Þeir dæmdu logmannsdæmed af Jóne Sigurds syne fyrer barneign. Item stad og prestskap af Síra Gudmunde Einars syne, er átte Elenu systur Jóns logmanns, helldu hann hefde hyllt med haunum barneign, hvad hvøruger vildu medganga um lavnúng, þá siglde Síra Gudmundur. Marger menn báru fyrer þessa herramenn sín mál, um gamlar jarda klaganer og fleira annad, vildu þeir fá mál þesse uppskrifud, hvad og skede, og komu þeir því ecke aullu vid edur fyrer á þessu alþínge.

Forgengu tvø *) skip vid Eyafiaull avstur, komuz af nockrer menn. Item forgeck ein Engelsk dugga fyrer Vestfiordum, komz af einn madur. Bát med einum manne fleit frá duggu á Breidafirde, sá druckuade. Misgreiníngar voru millum Hr. Odds biskups Einars sonar, og hirdstióra Herlufsda, og hafde Arne Odds son (er logmadur vard sídar) siglt vegna fødur síns, geck máled á Herlufsda, vard fyrer stóru fegalde vid kónginn, og vard orsnavdur ad fe, hafde lofad her á lande þrímennings hiúskap, og fleira var til í þeim kærumálum.

[Herlufsda hafde gefed Jóne Biorns syne, er hellt Skriduklavstur, og Margrete Odds dóttur frá Hofe í Vopnafirde þrímennings leyfe, til ad giftaz, á móte §) rádum Hr. Odds. Vóru

 og

*) Engelsk skip vid Eyafiaull.
§) (Vidvaurun.)

og fleire mál og ákærur þeirra á mille, hvorium Arne Oddsson gat vel til leidar komed, vegna fodur síns, hvar af hann feck miked nafn. Eitt sinn um Jónsmessu leited hellt Herlufsda Hr. Odde á Bessastaudum mikla veitslu, var þá uppsettur kongsins bikar, hvorn hirdstiórinn drack af fyrst siálfur, sídan var hann fenginn biskupinum, enn Hr. Oddur sá ad af annare kaunnu var hellt á hann, helldur enn þá Herlufsda drack af, sagde biskup þesse ord yfer skálinne, **hoo þeir drecke nockud bannvænlegt, þa skal þad þeim ecke granda n.** Epter þad leid hann nidur, var borenn af sveinum sínum í hans tiälld, med litlu líse, lá þar 2. edur 3. nætur, hrestiz vid aptur. O. E. S.]

Tyrknesker siöreisarar í Midjardar-siónum og þvi stóra hafe yfervinnaz og takaz til fanga af Hollendskum.

Anno 1619. Vetur gódur, vor gott, sumar þurkasamt, Heyadiz lítid, hluter í betra lage. Avstanvedur miked þann 8 Novembris, geck úr farveg kórinn og kyrkian ad Hólum í Hialtadal, unden aptur ad. Þar rasf og hús. Skipbrot í Skagafirde, avstanfram. Drucknun Olafs Peturs sonar og 7 hanns háseta í Haufnum sudur, 4da dag Páska, sem var sídaste Martii, 3 komuz af. Drucknun 4 manna vestur í Bervík, komuz af þrír. Drucknun einnrar konu á Skaga nordur í fosse á fauslúdaginn í Fardaugum. Madur einn skar sig á háls á Hlidarenda í Fliótshlíd og dó. Annar í Landeyum stack sig davdann. Elldur í Heklu-fialle sáz nordur um landid í marga daga, sídan kom vindur af landsudre,

lagde

lagde þá nordur myrkur og myſtur, ſo furda þótte. Þetta var á þeim 6 ſeinuſtu daugum Júlii mánadar, heyrduz og ſkiálftar, item undergangur. Sandfall ſo miked kom í Bárdardal og vídar, þar ecke vard ſleged í viku fyrer ſandinum.

Skickadur Friderich Friis ad vera hirdſtióre Jſlands, feck ſiúkdóm í hafinu, dó þegar 3 nætur hafde á landinu vered, grafinn á Beſſaſtaudum. Einnin dó í hafinu einn hans ſveinn, herramanns ſon. Bartſkere hanns drucknade á þeim granda, úr kavpſtadnum Hólme er rided. Síra Gudmundur *) kom út aptur med Friderich, hafde fenged kóngs bref fyrer preſtſkap aptur og ſtad. Friderich Friis medtók af Síra Gudmunde altareſins ſacramente, ádur enn hann deyde. Andres Hansſon var umbodsmadur. Voru nefnd 16. kóngsbref út hefde komed med Friderich Friis, hann hafde miked í ſinne, avdnadiz lítted ad útretta á þeſſu lande.

1.) Eitt kóngs bref var um þann prent-bækling, ſem biſkup Gudbrandur let þryckia um mordbrefin, og kennt þav þeim brædrum Markúſe, davdum þá, og Jóne Olafsſonum. Sætt biſkups og Jóns og nidia Markúſar þá á alþinge. 2.) Jtem tiltalad Herra Gudbrande þá í kóngs brefe, um halld ó-duglegs ſkólameiſtara. 3.) Bref um jardar ſaulur undan ſtólnum. 4.) Jtem kóngs bref, Herra §] Odde tiltalad, þad hañ under ſig dreged hafe Chriſtſiár-jarder á Jſlande. 5.) Bref um preſtſkap og ſtad Síra Gudmunde Einars ſyne aptur veitt 6.) Bref um §§] løgmannsdæmid og affetníng Jóns Sigurds

 ſon

*) Einars ſon. §) Biſkupe.

§§] Løgmannsdæmis affetníng.

sónar. 7.) Ad menn færu af Íslande ad áre ad leita Grænlands á því kóngs skipe, er þá sendt yrde, og þeir menn skyldu forsorgader til upphelldis þadan í frá. 8.) Bref um thunder, ad þær gyldtuz sem bære, enn herdtiz ecke á kotúnginum. 9.) Um giaf-tolla, ad sýsslumenn stande reikníng af þeim á Bessastaudum. 10.) Ad sýsslumenn sværu ad giøra *] hvøriúm manne løg og rett. 11.) Ad lausamenn væru aungver í landinu, utan þeir sem med bændum ynnu, og væru til adstodar, ellegar hefduz fram̃, og ynnu þar. 12.) Ad kvielldin settuz ecke á kotúnginn fleire, enn þá væru haunum til þýngsla. 13.) Ad 4. skinsaumustu menn þeir bestu silgdu af landinu, ad mæta til svars þessum Íslands reidurum í Danmork, um þeirra kaupskap. 14.) Bref kóngs gefed Friderich Friis, ad hann hellde oss vid Íslendsk løg. 15.) Item bref ad hvør skylde búa á þeirre jaurdu, sem þá bygge, þeirra lífstíd, og þeirra baurn epter þá. 16.) Item ad ecke hæckuduz landskullder frá þeim tíma á kóngs og krúnunnar jaurdum.

Fióver menn vóru í kiorum, og under hlutfalle til løgmannsdæmisins á alþínge, Are Magnús son, Jón Magnús son elldre, Magnús Biorns son og Haldór Olafs son. Hlotnádiz Haldóre løgmannsdæmid nordan og vestan á Íslande, hanns eidur skyllde til árs bída. Fengner 4. menn til fram̃siglíngar af landinu, utanfaur þeirra, Jóns Magnús sonar elldra fyrer vestan, Henrichs Gísla sonar fyrer sunnan, §) Þorsteins Magnús

*) Løg og rett landsins.

§) Þorsteinn Magnús son tók Þyckvabæar klaustur og þess jarder Anno 1612, enn dó 8. Júnii 1655, løgvitraste madur einn her í lande.

nús-sonar fyrer avstan, Dada Arna sonar fyrer nordan, hann andadiz í Kaupenhafn um veturinn. Brann Hialtabacka kyrkia um nótt án manna vitundar. Let Páll bónde Gudbrands son, er Þíngeyra klaustur hellt, smída kyrkiu ad Þíngeyrum. Kom ís fyrer nordan land á Mariu-messu fyrre, hafþak, gagnlaus, sáz á haunum eingen lifande kind. Þetta sumar kom út úr síglíngu Þorlákur Skúla son (er biskup vard sídan), hafde hann þá alldur 22 ár. Eitt Biarndýr var unned á Slettu, þad hafde vered her áred fyrer. Hrapade nidur sú nýa Bessastada kyrkia giorvaull í storme.

Uppgrafinn af Daunskum Friderich Friis, og fluttur fram. Þad ár geck yfer brádur manndavde í Danmork, dó fólk hundrudum saman. Academiet uppgefed, fyrer þad pestin hún geisade frá þeim 27. Martii til epterkomande árs 13 Martii. I Halmstad funduz þeir tveir stórmektugu kóngar, Christian 4. til Danmerkur og Norvegs, og kóng *)Gustavus af Svíaríke þann 25 Februarii, og voru so til samans. Þann 3. Martii skildu kóngarner, var kóng Gustavus med maurgum Daunskum riddurum og strídsmaunnum leidsagdur til Sviarikis aptur í sitt land. Deyde Drottníng Anna kóngs Jacobs í Englande, syster Christians 4da, var nidursett 13da Martii. Keysare Matthias deyr þann 10 Martii. Kóng Ferdinandus útvalinn til keysara, krýniz þann 30. Augusti. Curfurste Friderich 5te af Phalsten krýniz til keysara í §) Religionen, hvar af kom miked stríd og blóds úthellíng í Þýdskalande, sem her er oflangt ad skrifa.

Anno 1620. Vetur gódur frá Jólum, sumar æskelegt, og havst godt. Drucknun 7 manna á Alftanese. Drucknun Erlends

*) Geste. §) Al. Religinen; enn á ad vera Prag.

Erlends Erlends sonar med audrum 8. maunnum í Stadarsunde í Grindavík. Item úr Stadar sunde drucknun tveggia manna í Járngerdarstada sunde, er þar vildu lenda. Drucknun eins manns í vatna ágange í Skagafirde. Item drucknade pilltur í Sævarlands-krók. Item í Skagafiardardaulum drucknade madur.

Kom út Holgeir Rosenkrans med hirdstiórn. Jacob Petur son var umbodsmadur. Sor Haldór Olafs son sinn logmanns eid á alþínge. Þá sóru og sýslumenn eida á þínginu, epter því sem kóngsins Recess hliódar, sem voru þesser: Are, Jón elldre, Biorn, Þorleifur brædur Magnús syner, Henrich Gísla son, Páll Gudbrands son, Magnús Biorns son, og Sigurdur *] Hrólfs son, og Þorbergur hanns bróder, Arne Magnús son og Einar Hákonar son. Þá geck dómur af 24 maunnum um prent-bæklínginn, dæmdur rógur, og til kóngsins náda og ónáda. Komu út híngad aptur Jón Magnús son, Henrich Gísla son og Þorsteinn Magnús son, enn Dade deyde þar út í pest. Þá kom út taxeríng edur nidurlag um kaupskap millum Danskra og Íslendskra. Hausdu þeir, sem hedan sigldu, avngvu getad til vegar komed, helldu þó ecke kaupmenn marger-hverier þá taxeríng, helldur keyptu epter sínum vilia. Máttu skipmenn eckert góts hafa, skipherrar edur stýremenn. Kaupenhavnar borgarar hausdu þá einer Íslands hafner, enn frá hinar borgirnar, Helsingeyre og Málmey. Þá var og hausd varúd á, ad Íslendsker keyptu ecke vid Engelska. Sendt skip af Danmork, ad vita hvort ecke fyndiz Íslendsk vara hiá fiskeduggum Engelskra manna. Þad skip var vid Ísland framm ad veturnóttum, edur vel so, og kannudu duggurnar, og fluttu framm

*] Sigurdur og Þorbergur Hrólfs syner.

framm í Danmork nockra menn, þá er sultar mune vixlad hausdu. Siglde framm Þorlákur Skúla son, er þad ár var her skólameistare, med bref síns afa Hr. Gudbrands, alldurs 23 ár. Brann Sumarlidabær í *) Holtum, seint í Januario, og þar inne 7. menn. Let umbodsmadurinn Jacob Petur son uppsmída Bessastada kyrkiu, úr vide hinnar hraupudu, med torfveggium og torfþake.

Einn Júde Daniel skýrdur í Vorfrúr kyrkiu í Kaupenhafn Allra heilagra-messu, og kalladur Hans. Jubil-edur fridar-ár uppsett í Rom, og páinn lofar afláte. Strid mille keysarans og þeirra §] í Behemen hellz samt vid. Kóngs §§] Gustavi brullaup í Svíaríke halded þann 25. Novembris. Drottníng Maria Eleonora krýniz þann 29. Novembris. Prag inntekin af keysara Ferdinando. Hamborgarar senda sína legata til Kaupenhafnar fyrer kóng Christian 4da, um þad þeir fenge ecke ad kaupa Íslands vauru, og um tumuleg á elvenne, og fleira, fengu svar aptur, rettiz líted.

Anno 1621. Vetur gódur bæde frá Jólum, og so edlismætur til Jóla. Heyskapur í minnalage. Hluter vída. Sumar-stormar og Dimmvidre, votsamt alþíng. Drucknun 8. manna og einnrar konu á Vestfiordum. Drucknun Jóns Olafs sonar, hvalfangara, og tveggia annara á Vestfiordum í Arnarfirde. Einn madur fórz í snióflóde um vorid under Breckum á Tiornnese. Tveir menn urdu í snióflóde í Audbrecku-fialle í Hörgárdal um haustid. Drucknade Barn í ... Reyk-

*] Al. í Fliótshlíd.

§) Al. Behemer. §§) Gestis.

Reykiadal um snióbrú. *) Arne Eysteinns son datt davdur nidur á Lavgarbrecku þínge. Atte hann mále ad skipta vid Danskann epterlegu-dreng, og vilde málid ganga á Arna. Þá sagdiz hann heldur vilia falla í hendur drottins, enn rangt mál genge á sig, hnêg. sídan nidur, og strax davdur. Item þar í Stadarsveit hengde sig einn madur Tyrfíngur ad nafne. Holgeir Rosenkrantz var samt hirdstióre her. Samed mál Herra Gudbrands med fegialde. Hann reid siálfur til alþíngis, og var þá áttrædur ad alldre, og vel einn. Brotnade kavpskip í spón sudur í Keblavík af óvedre, tveimur daugum fyrer Jóns messu, týndiz allt góts. Forgeck hafskip í íse nordur undan Íslande, er kóng Christian 4de sende ad veida hvale vid Grænland. Haufdu þeir þar hvale veidt hid fyrra sumarid vid land, og. sáu þá ecke nema snió á landinu, haufdu haufn góda, komu nú í dimu og villtuz sídan, rak so ad þeim ís, tóku sídan báta og settu um ísinn, og gengu so frá skipinu, dóu tveir menn í þeim kialar drætte. Komz einn bátur þesse í Grímsey, og þadan á Eyafiord, annar á Tiornnes, þridie á Slettu. Dóu 2 menn af þeim, þegar á land komu. Lágu 9. af þeim skipbrotsmaunnum Norsker her í lande um veturinn, fiórer kalder, hiner sigldu aller.

Þetta sumar kom út aptur híngad Þorlákur Skúla son, skólameistare, alldur 24 ár, var þá her i lande fiogur ár. Deyde Páll bónde

*) Þesse Arne var hid mesta fiórmenne á vœxt og afl, var búdarmadur vid Hellna, vandade um vegna dóttur sinnar edur frændstúlku vid Danskann mann.

bónde Gúdbrandsson frá Þíngeyrum á Víðemýre í Skagafirde viku epter hanns heimanreid hinn 10da Novembris, fluttur til Þíngeyra, og grafenn þar, virduglegur madur og veitíngasamur, hellt Þíngeyra klaustur 15 ár, átti húsfreyan Sigrídur og hann 5 sonu, og var hún þá med barne, ól son, var hann látenn heita epter fodur sínum, enn andadiz úngur. Skipt þar umbodum, og deilt fe sundur. Deyde Petur Páls son á Stadarhóle í Saurbæ, hann átte epter 2 baurn. Þeirra umbod tók bóndinn Magnús Biornsson á Múkaþverá, epter dóme. Pad sama ár deyde Biarne Odds son á Skarde á Skardstraund. [* Deyde Síra Jón Þormóds son, prestur á Helgafelle, sonur Þormóds Ásmunds sonar í Brædratúngu og Ingebiargar Þorsteinns dóttur. O. E. S.]

Reiste Christian Fiórde af Danmork med stríds-her mikenn, var mælt 40000 manns, enn hans orlaug-skip ad sió til Þýdskalands.

Anno 1622. Vetur gódur frá Jólum. Vor hardt. Kom ís, á haunum mikel sela rekia. Senar 5 sóler á himne. Þann 27da Martii drucknade einn madur í Laxá á Skagastraund, annar í Giliá í Vatnsdal. Drucknun Síra Gísla Arna sonar í Markarfliote, Þíngmaríumessu, häfde fenged stadinn Hollt under Eyafiaullum af Daunskum fyrer tvær lester skreidar, sem mælt var, og druknade, þá hann ætlade ad afhenda skreidina. Haufudsmadur var hinn same. Kóngs bref um stadfestu logmannsdæmis Haldórs Olafs sonar. Annad bref um sýsslu

 veit-

*) Síra Jón Þormóds son dó Anno 1622.

veiting Jóns Sigurdssonar, sem løgmadur hafde vered, og þá veitt Húnavatns sýssla, var teken af Gudmunde Hákonar syne, er hana hafde næsta ár fyrer, enn Haldór løgmadur feck Hegraness sýsslu, sem Jón Sigurds son ádur hafde. Gudmundur Hákonar son feck Þíngeyra klaustur af Haufudsmanne, qvongadiz um haustid fyrer, feck Haldóru, dóttur Ara Magnús sonar sýsslumanns yfer Isafiardar sýsslu á Vestfiordum, hafde hún uppaliz á Hólum, og var þar þeirra brullaup halded, stórt og virduglegt hóf.

Fáheyrt mál slæmt, ómannlegt til alþíngis dæmt úr Arness sýsslu, madur einn Magnús Erlings son barde kvennsnipt med tre (skamorfe) á hennar leyndar stad. Haunum dæmd ressíng til 13 marka, enn vid konuna samed, skyllde fá 4 hundr. (hvad valla mátte minna vera fyrer slíkt nídings stycke.)

Anno 1623. Vetur gódur, vor hardt, sumar votsamt, gras líted, heyadiz miog lítt. Fiórer skiptapar urdu á Sudurnesum, og á þeim drucknm 40 manna. Deyde Arne son Sæmundar Arna sonar fliótlega, bió á Arnarstapa, hafde kóngs umbod þar. Biarne Hákonar son deyde og skyndelega sydra, Hirdstióre hinn same. Kom kóngs bref, ad hvor ættmadur selde audrum sínar jarder, enn ei vandalausum, ef selia þirste, edur vilde, og sá capitule inn í løgbók settur og skipadur, er hlýder um løgbodníng á jaurdum, med því fleira, sem þad bref vottar. Annad bref um prestanna kallan, hegdan og vanskickan, og tilskickar ad retta sig epter þeirre ordinantiu, sem í Norvegs ríke gengur, og þangad gefen er, sem í því brefe lesa

má

má. Kom snogg hláka og ofanfall 5ta í Jólum, urdu vatnsflód mikel fyrer nordan land. Drucknade madur í Vatnsdals á í Vatnsdal. Sáz í Vatnsdal í loptinu um morguninn, þann 5ta dag Decembris, kross allur med blód.

Brann upp stadurinn Biorgvin í Norvege miøg so allur, furdanlega stór skade. I Englande var einn prestur ad prediska, og talade lastsamlega um forelldra D. Mart. Lutheri, og í því bile datt bitinn úr kyrkiunne á háls haunum, so af fór hofudid.

Anno 1624. Vetur afbragds gódur frá Jólum. Fliótur og mikell grasvauxtur, vaxed sóleyar gras í Skagafirde í sídustu viku vetrar, og þá hausdu fuglar vorped, nógleg egg fundin. Krankſamt sumar og votsamt, dó margur madur, heyadiz lítt. Vetur hardur til Jóla, jardleyse, fellu útegangs peníngar. Drucknun tveggia manna under Jokle. Drucknade madur vestur á Stadarstad, hann geck stáande framm í torfgrauf. Drucknun Síra Sigurdar Jóns sonar á Helgafelle, og tveggia stúlkna med haunum í vatninu þar hiá vellinum hinn 9da Júlii. Þau vildu sækia hvanner og egg í hólmann, þar var slæmur og lekur bátur, geck vatn í, enn stúlkurnar hlupu á prestinn, og heldu haunum, og drucknudu so aull. Hann átte Olufu dóttur Jóns Sigurds sonar frá Reynestad nordur, þau hausdu saman vered í hiónabande ecke fullar 10 vikur.

Drucknade madur, sá Páll het, í Kolbeinsdals á í Skagafirde. Js kom um vorid fyrer nordan land. Hardinde nordavstan á landinu, gengu 40 búendur frá sínum hýbýlum. [Siglde Brinjólfur Sveinns son (er sídan vard biskup í Skálhollte epter Hr. Gísla Odds son) til Danmerkur, ad stúdera í Kaupenhafnar academie, og var þar 5 ár, heyrde þar kenníngar þeirra hálærdu, *] og studerade miøg vel. §] [Þá siglde og Síra Jón Ara son Magnús sonar sýsslumanns, kom aptur epter nockur ár, vard skólameistare í Skálhollte, og þar epter §§) vígdiz, og feck Vatnsfiord í Jsafirde á Vestfiördum. †] [Þá siglde og Biorn Snæbiorns son, og stúderade í Kaupenhafn nockur ár, vard lenge skólameistare epter Síra Jón Ara son, og sídan feck hann Stad á Aulduhrigg, og vígdiz ad Síra Gudmunde Einars syne lifande, sem skaumu þar epter í gude burtsofnade] Snió-

*) Nefnel. D. Caspari Bartholini, er var hanns privatus præceptor, Doct. Caspari Brochmanni, er sídan vard Superintendens Sælandiæ, D. Olai Wormii þá Physici, M Johannis Erasmii Brochmanni Metaphysici, M Petri Gelstrupii þá Logic, og M. Jacobi Engelberti Collegium privatum Græcæ lingvæ og doctrinæ sphæricæ, og M. Nicolai Petræi Collegium Hebræum. Fór sídan til Jslands, og tók af Academienu vitnisburd rectoris M. Wolfgangi, rectoris Kumanni og síns skólameistara Bartholini.

§] Vidbætt af M. Brinjólfe.

§§) Al. var hann prestur ad Holte og prófastur í Jsafiardar sýslu.

†) Vidbætt af Síra Jóne Arasyne.

Snióflód tók einn bæ under Eyafiaullum, letuz 8. menn, komuz 2 frá. Ein kvinna hengde sig þar avstur. Eitt barn hengdiz ofyrersyniu í þvi bande, þad var med bunded á palle því til forvaurunar. Ein kvinna ól barn, og kennde huldumanne, sú kom til alþíngis, stód á sama, þad var í Rangárvalla sýsslu. Tekenn af madur á alþínge úr Isafiardar sýsslu, Hildebrandur ad nafne, fell med systur konu hanns. Votvidre geysemiked ofárla Júnii, so á 14. Júnii fellu allmiklar skridur vída um landid, fyrer einne vard madur í Eyafirde, og dó.

Síkellder jardskiálftar frá Allraheilagra-messu til Andres-messu, og þó vard vart vid þá lengur, fellu í þeim tveir bæer sudur í Flóa, fleire lestuz. Vígde Hr. Gudbrandur biskup Þorlák Skúla son, skólameistara, sinn dóttur-son, til prests um vorid, hanns aldur 27 ár. Veikleike Hr. Gudbrands biskups feck aflleyse í hægre haundina, og túnguna, so hann talade ecke í senn fiórum ordum fleira, og þad bar vid fyrst þridia í Hvítadaugum, lá so þad ár út. Fell nidur kyrkian ad Hólum aull giorsamlega sudur í gardinn í nordan fiúkvidre miklu þann 16da Novembris, snemma á þridiudags morgun. Hafde þá lided, sídan sú fyrre kyrkia (sem Jorundur biskup lét smída) nidurhrapade, (er Petur biskup var á Hólum) 230 ár, epter því sem Flateyar annáll greiner.

So bar vid avstur í Kyrkiubæar Þíngá, á þeim bæ er heiter Litlebacke, bió sá madur, het Sigvarde, hann hafde kvígu kálf-

kálfbæra í elde, só hún bióz til, og sem hún feck sótt, gengu menn burt frá henne, so eingeñ vard epter, enn epter stund lidna, komu þeir aptur, og þá var af henne aull sótt, og var þá kálflavs med aullu, og sáuz eingen líkinde til, ad hún hefde kálf átt. Hún miólkade uppfrá því ad vonum, og hafde allt nátturlegt edle, so hún geck innan hálfs mánadar, enn avngver vissu med hvorium hætte edur atburdum þad skede, marger meina ad huldu-fólk mune hafa kálfiñ teked, og haft til sín. [Þennann adburd feck Birne Jóns syne uppskrifadañ; Síra Oddur Odds son á Reynevollum, enn haunum feck hanns systur-sonur Síra Marteinn, sem þar var nálægt, er þetta skede. O. E. S.]

Gefur hirdstiórinn Holgeir Rosenkrantz til *) Frolinge Síra Arngríme Jóns syne bref út, og befalar haunum, med því drottinn heimsæke med ellinne og annare veike þann heidurlega Herra Gudbrand, eñ hann hefde fyrer nockrum árum af Kóngel. Majst. fenged, ad Síra Arngrímur skylde haunum í hanns elle þena, sem eiñ medhiálpare, ad hann skule nú kóngsins vegna vera rettur inspector og fullmindugur biskupsins vegna, ad visitera prestana, og þess andlega embættis umsión ad hafa, einnveg med skólameistarans ráde skólann ad umsiá, ad allt gange þar vel til epter fundatiunnar innehalde, item med skólameistarans, rádsmannsins og kyrkiu prestsins ráde og vidurvist ad samansafna aullum dóm-kyrkiunnar og stólsins brefum, og í góda geymslu iñ ad leggia, so eckert forsómiz í því efne, þar til gud giorde góda endíng epter sínum þægelegum vilia um Herra biskupsins rád, hans mindugheitum og bestillíng í allann máta ófor-

*) Al. til Frilinge.

óförkreinktum, so lenge sem hann lifde, og girntiz þad siálfur ad skicka, og því forstaudu ad veita, og ad Síra Arngrímur hefde sig þess á mille epter K. M. brefe ad retra, sem hann vilde forsvara, áltaude þad være K. M. vilie og befalníng, um slîk efue tilsión ad hafá, so allt genge rettelega til í þessum efnum. Á Bessastaudum 2. Júlii, med fleirum audrum, sem þad bref inneheldur. Kemur Hóls málid gamla under 24 manna dóm á alþínge, er Are Magnús son hafde þá frame haft, og stefnt Jóne Olafs syne í Skagafirde, og kom málid þar til dóms á fyrra áre fyrer Haldóre logmanne, og dæmde þad so allt til alþíngis fyrer 24, og nú lyktadiz, ad Herra Gudbrandur og hanns epterkomendur skyldu auldúngis frá því mále, þad ad sækia epter þann dag.

Ósátt millum Svía og Dana. Gustavus Svía kóngur heriade á Danmork bæde til sios og lands. Flýdu Skáneyíngar. Her Svía í Norveg sendur. Fiórer herramenn komu af Englande í Danmork, sættu kóngana med ráde kóngs Jacobs í Englande. Á því áre deyde kóng Jacob í Englande, vard kóngur sóme hans Carolus. Deyde og greife Mauritz í Hollande, vann ádur gódann sigur á Spaunskum, hafde ætíd vered sigursæll herra. Í hans stad kom greife Jacob hanns bróder. Funded silfurberg í Norvege, hvort kóng Christian 4de í Danmork egnadiz.

Anno 1625. Jardbanns vetur mikell, kalladur svella vetur, med spillíngar blotum. Dó allt kvik-fe manna vídast um Ísland, sem ei hafde hey, færleikar átu vegge og velle, hræ og havga, stoder og stocka. Kom ís á Góe, lág til alþíngis. Hvalrek nockur. Linun kom fyrst þann 5ta Martii, þó spill-

te aptur. Kom fiúkhrid Matthias messudag. Vard úte og kól til davds Sira Jón Gíslason kyrkiu=prest á Modruvollum í Horgárdal. Tvo menn kól á Tiornese, annann til davds, annann til orkumsla. Snióflód fell í Bárdardal á Stóruvelle, tók 3: hús, vard under ein stúlka og dó, búandinn komz undan orkumsladur. Alls urdu úte 9 menn þar nordur, sumer dóu, sumer orkumsludur. Tveir skiptapar under Jokle. Einn madur drucknade ofanum sió=ís í Midfirde Helge ad nafne. Drucknade Jón Gudmundsson í Wídeness á hiá Hóla stad, it. einn madur í Nordurá á Skagastraund. Drucknade einn madur í Vatnsdals ár=óse, reid fyrer nete. Gras=sumar miked. Brann 4ra vetra gamallt barn sudur í Stafholltstúngum til davds í miólk. Drucknan Sigurdar Arna sonar á Hravne í Olvese fyrer alþíng, hann átte þá jaurd. Sótt og manndavde í Múla=þínge, dó 100 alls, urdu 70 hiónaskilnader

Breñdur til davds í Eyafirde epter dóme Jón Rogvallds son úr Svarfadardal fyrer fiolkíngis hátt. Hann hafde uppvaked einn davdañ, hvered sókte ad pilte á Urdum, drap þar hesta og giorde adrar skráveifur. Brann ein skemma sudur á *] Signharstaudum, hana átte Biorgólfur Asgeirs son, þar inne til 20 hundrada.

Andadiz sú fróma sæmda kvinna Ragnheidur Sigurdar dótter í Glavmbæ þann 4da í Jólum í brióst=meine. Deyde sá fróme mann Þorkell Gamla son, Hóla stadar rádsmann, 14. Decembris

*] Al. Stafholltr.

Decembris. Herra Gudbrandur lá samt. Hafde Halldóra dótter hanns yferrád og umsiá Hóla stadar, og sende framm í Danmörk sinn-systur-son Sïra Þorlák Skúla son (hans alldur þá 28 ár) epter vidum.

Var þá vor nádugé Herra og Kóngur í strïde úti Þýdskalande; enn hafde sett sinn son Christian Fimta til stiórnara í ríkinu medan strídid yferstæde. Og gaf printzinn til kyrkiunnar á Hólum 18 tylfter med Gavtlendsk bord, 6 tylfter stórra biálka og 6 tunnur biks. Reistur og smídadur kór ad Hólum, item reister undervider framkyrkiunnar, minnkud kyrkia og kór.

Kom í Hofsós Gydíngur sá, er skírdur var til Kaupenhafnar, og Daniel hafde heited, enn gefed hans nafn í skírnine. Haufudsmadur var hinn same, Holgeir Rosenkrantz. Kom kóngs bréf, ad landid legde til þess strïds, sem halded var í Þýdskalande vegna Evangelii lærdóms, fyrer hvoriu strïde vór náduge herra og kóngur Christian 4de var, því hann var kosenn til einns general-strïdshaufdíngia móte pávanum og keysaranum. Bediz var vægdar um þad strïds tillag vegna neydar hardinda, er á landinu lágu. Einnen kom bref biskupunum tilskrifad, ad þeir og prestarner legdu þeim prestum, er út vóru rymder úr Þýdskalande, þar og bediz vægdar á.

Sáz um vorid teikn á sólunne, sem var mikell hríngur kríngum hana, og annar hríngur út úr midre sólunne, og nidur frá henne, og þar hríngur sinn á hvorre sídu útundan, sem skynaz kann uppdreged, fyrer nockurn siá. Þesser hrínger sáuz frá

 dag=

dagmálum allt til midmunda. Annann dag Septembris heyr- duz nordur í landid skruggur. Vída brá fyrer elde nordur- undan. Skruggur og eldgangur þesse komu úr Mýrdals jokle.

Avstur úr joklinum kom fyrst vatns hlavp ógnarlegt og ís- reke, so umkrýngde klavstrid Þickvabæ, og hiáleigur þar, so ein þeirra fylltiz upp, enn fólkid komz burt og uppá einn hávann hól, enn stadurinn vard varenn med tilhiálp drottins. Síd- an komu skruggur og myrkur yfer allt med eldgange, brake og brestum, líkt ad heyra, og allt loptid vilde sundur sprýnga og hús sín ofan hrynia, og aldrei hafde so lenge hlie á orded, ad mad- ur mætte þorsta dryck taka, enn eldurinn flavg úr loptinu í kríngum mennina á jaurdina, so ad siá, sem aller væru í ein- um loga. Sandurinn og askan kom so mikel, ad hulde gras, so peníngar þar nálægt fengu avngva biaurg. Hlupu upp og ofan navt og savder, navt med grenie, hross med fríse og hneggian, og vard hey ad gefa. Þegar myrkur þesse adkomu med auskn og sandfalle, í hvorium stad, epter því sem vindu- rinn því feykte, þá sá eingenn annann, þó í hendur helduz, þá hæstur dagur var. Þesse ógnarleg undur gengu allt fram til þess 14da Septembris.

Herum skrifar greinelega, hvad vid bar á serhvorium dege, sá vitre og vîse mann Þorsteinn Magnús son, sem þá hellt Þickvabæar klavstur, og í hanns skrife má þar um lesa. Í nockrum staudum kom sandur og aska í leggband, í nockrum staudum í ökla, og þetta serdeilis um tvo hreppa í mesta lage,

so

so þar var á ad siá sem eydaz mundu. Og fell askan austur um allar sveiter. Spurdiz og ad utan frá Norvege, hiá Biørgvin var auskufall álíka og her var. Og einnin þeir sem sigldu hedan fyrer nordan, saugdu og auskufall hefde komed á sín skip í hafinu, so seglin urdu svaurt sem bik. Og hefur þesse aska úr þeim elldgange komed og undrum, er komu úr Mýrdals-jokle 2. dag Septembris.

Margt og miked má skrifa um þad mikla stríd í Þýdskalande, sem vor náduge kóngur þar átte, og hvornin keysarinn hafde sigurinn, og vor kóngur miste Holstein og Jutland, þó hann þad sídar aptur fenge, er sátt ákomz. Vil þar um her ecke innsetia. Var og um þennann tíma, til stríds og blóds-úthellíngar ad spyria úr aullum laundum. Kóngurinn af Svíaríke, Tartarar og Rússar stríddu med einu sambande uppá Pólen, og giordu þar stóran skada med elde, og fluttu burt allt þad sem yferkomuz. Kóngurinn af Englande og Holland med sinne stóru makt til sióar stríddu í mót Spanien, og einnen Frankaríke á Spanien til lands. Voru á eina sídu Betlehem Gabor af Ungaria, Venetianer og þeir sem halda med Spaunskum, og audrum megen England, Franka ríke og Hollendsker. Tyrkinn og Persar stríddu sín á mille. Svíaríke og adrer stór-herrar af Þýdskalande og Hænsnastaudunum laugdu stirk til ad strída á móte keysaranum. Drepsótt í Danmork, dóu 1300 manna um Jól med brádum dauda. J Kaupenhaufn var stórlega mikel pestilentia, so þar í borginne burtdóu 4884 menn, medal hvorra voru marger fyrermenn, og um vorid dó margt gamallt fólk. Item er margt ad skrifa frá þeim múrmeistara Marteine í Eurlande, er engilinn skylde sed hafa, og vid talad. J Sælande í Danmork fell í einum stad blód af himne ofan á jaurdina, sosem hellt hefde vered med skiólum

um heilum. Plátsid var ei meir enn hálfr stofu=gólf, sem blódid fell á. Flód kom úr einu vatne í Þhdiskalande, flód í 3 nætur, drucknade margt fólk, flutu húsin úr stad. Einn uxe*) átte durbr kálf í Danmörk. Fleira er úr útlaundum ad skrifa, læt ad sinne hjálída.

Anno 1626. Vetur afbragds=gódur frá Jólum. Hardt vor. Sela-fengur á Skaga á íse. Deyde Síra Einar Sigurds son, er hellt Heydale. Þad vor veiktiz Síra Sigurdur Odds son prests Stepháns sonar í Arnarbæle, og lág so allann þennann vetur magnlaus og mállaus. Tveir skiptapar vestur, í Budlúngavík, á þeim skipum 11 menn. Drucknun 7 manna í Kyrkiuvoge. Drucknun 6 manna í Lóne, 2 komuz af. Drucknun Arna Geirmunds sonar á Eyafirde, og annara tveggia. Drucknade einn madur í Eyafiardar-á. Fell griót á einn mann í Drangehy, so dó af því. Okyrleike af stulde um landid vída. Hengdur einn madur under Iokle fyrer stuld. Hengde sig drengur á Hlídarenda, ádur strýktur og markadur. Sótt og manndavde nockur á nordavstur-landinu. Lág sá virduglege Herra biskup Gudbrandur samt med sinne veike. Reist yfergrind framkyrkiu á Hólum, og undervider stopulls um vorid. Kom út hingad Síra Þorlákur Skúla son um vorid, skólameistare, med þá vidu, er Herra prinzinn hafde tillagt og gefed kyrkiunne, allvurs 29 ár. Kom út hingad prinzins bref, ad Islendingar skyldu frí fyrer þeim skatte, er til strídsins átte ad leggiaz. Item annad bref hanns, ad þær konur, sem ei vildu segia til fadernis barna sinna, skyldu flytiaz í Kavpenhaufn. Skickad, ad Síra Arngrímur skylde vígia presta fyrer nordan. Hafde biskupinn Herra Oddur vígt 3 presta fyrer nordan, sídan Herra Gudbrandur sýktiz, og þá fleire er hann

*) Al. bar kálfe.

hann tók í sitt stipte. Vígde Síra Arngrímur 2 presta 19da Novembris. [Síra Arngrímur vígde alls 6 presta, Síra Gunnlaug Sigurds son í Saurbæ í Eyafirde, Síra Biarna Magnús son á Eyadalsá, Síra Gotskálk Jóns son á Barde í Fliótum, Síra Þórarinn Olafs son á Bægisá, Síra Þorvard Olafs son á Breidabólstad í Vesturhópe, og Síra Jón Þorgeirs son á Hvamme í Laxárdal. O. E. S.]

Kom hafskip inn á Skagafiord í Hofsós adfanga-dag fyrer Jól, voru Þýdsker úr borginne Strahlsund, og hafde þá híngad drifed austan-stormur og dimvidris villa. Var þad fyrna stórt skip med aullum stríds tilbúnínge. Menn á 26 med tveimur drengium. Þeir láu her til þess 16da Januarii 1627, sigldu so í burt med meinleyse. Þad skip var hladed med grene-bord, átte fara til Spanien epter salte.

Þesser brutu skipid er fram komu vid land, menn aller helldu líse. Yfermadurinn het Hans Schulerth, hann reid heim til Hóla, og einn madur med haunum. Þeim fylgde Biörn Magnús son, er þá bió á Hofe. Voru nótt heima, ridu so í burt med meinleyse.

Sáuz teikn á sólunne med hríngum í Februario, var eingenn hríngurinn kríngum hana, enn 4 út frá henne, sinn í hvorre átt. [Deyde sá gudhrædde kennemann Síra Bodvar Jóns son í Reykholte, var jardadur 13. sunnudag epter Trinitatis á áre sins alldurs 77da, heldt fyrst Stad í Grunnavík, og

sídan

sîdan Reykhollt epter faudur sinn Síra Jón Einarson, og var prófastur í þvi herade. O. E. S.]

[J Medalkande avstur hvarf einn madur, het Sverrer, fór á róta-fiall, og fannz ei aptur. Fyrer tveim árum ádur hvarf annar madur giptur á róta-fialle, og fannz ei heldur. Konu þess manns egnadiz Sverrer. Var meining, einhvorer óvætter hafe þeim grandad. Tvo varnar-skip frá Englande laugdu inná Diúpavogs haufn, ætludu ad taka kaupfarid, sem þar lág, enn sem þeir sáu kóngsins passa, giordu þeir því avngvann skada. Þeir haufdu teked 5 ræníngia skip í hafinu, og sendt til Englands. Þesse skip voru send, af því siô-reisarar giordu Engelskum stórann skada á því sumre. Um vorid drucknade rádskonan frá Bessastaudum Arnbiorg ad nafne, ætlade ad sækia savde í útsker, sem flædt haufdu. Madur hennar Hogne Sigurdsson, sem sîdar bió á Gufunese, var ei heima. O. E. S.]

Var kóng Christian 4de þetta allt ár med hernade í Þýdskalande, hafde misjafna lucku. Vil þarum her ei inn-setia. Tyrkinn leitar inní keysarans land, og var hindradur af Persum med stríde. Þó geck sú fretta saugn, ad hann vilde þreíngia ser inní Christendóminn med makt. Betle-hem Gabor af Ungaria var med kóng Christian Daumerkur kónge. Maurg laund, stader og borger lágu í eýde í lande Mähren, Schlesien-lande, Lüneborg-lande, Brunsvik og Pfaltz, og fleire aunnur herleg laund og heraud í eyde laugd, folkid

davdt, laundin óyrkt, so eitt steinhiarta mátte vidvikna og gráta. Og hvar sem keysarinn edur hanns her náde nockru plátse edur bý, þá píndu þeir avmlega þá fátæku Lutherana, so það var á ad sía, þó Tyrkinn yferynne, munde hann ei hatnrlegar breita, enn hvor Christinn þá audrum giörde, og hvornenn breitt var vid kvennfólkid er ei umskrifande. Spanster voru í mót Fraunskum, og forlíkudnz þó. Byriadiz ósamþycke med Fraunskum og Engelskum. Spanster og Polensker giördu hvorer audrum stóraun skada. Og var þad ad heyra um allaun heiminn, so laugt sem til spurdiz, stríd og styriauld og einn herra audrum á móte. Eingenn potentat sat med fride utan churfúrstinn af Saxen. Gott korn-ár í útlaundum.

Anno 1627. Afreda vetur haurku-mikell, hvorn marger kaulludu frosta hardindis-vetur. Heyleyse stríde. Vorhluter mikler sydra og vestra. Drucknun 7 manna under Jokle í Keblavík. Drucknun 10 manna í Kyrkinvoge. Tveir skiptapar á *) Flaukastaudum. Drucknun 10 manna á Kotferiu í Olvesá. Rak undan 4 skip á Sudurnesum, eitt komz vestur ad Jokle, ueinn aller komuz af. Drucknade ein stúlka í Laxá í Skagafirde. Piltur vard úte á Oxnadals-heyde. Geck mikell kraukleike fyrer nordan, dó margur madur, so og um vesturlandid. Einn madur drucknade í Blaundu. Drucknun Skúla Erlends sonar prests úr Felle í Grafará. Drucknade pilltur í Avsturdaulum í Skagafirde. Drucknade pilltur í Giliá í Húnavatns-þinge. Skridu-griót fell á mann

*) Flangastaudum.

Ff í Drang-

í Drangey, dó einn, orkumsluðuz 2. Dreckt konu í Dalasyslu, hún hafde dreckt úngbarne sínu, og sagde þad hefde vered andvana fædt.

Sunnan stormur ógurlegur 24da Januarii einn midvikudag. Sudvestan-stormur fyrna mikell hálfa adra eykt dags þann 7da Februarii, kalladur Ausskudags-bilur. Vard úte ein stúlka á Vatnsskarde. Þá hraktiz se vída, tók upp skip og brotnade fyrer nordan. Þann 27da Janúarii vard úte á Skagastraund ein búande kona med sínum syne úngum. Sumar-daginn fyrsta heyrdiz miked hliod, og í því sáz einn glóande hnottur fliúga, hvor ser í siódinn nidurkastade med ógnarlegum hliódum. Þann dag var madur rettadur á Heyneſe á Akraneſe.

Deyde sá heidurlege og hálærde Herra Gudbrandur Þorláks son, biskup ad Hólum, þann 20. Júlii um nón-bil, sem er Þorláks-messu, grafenn 25ta Júlii, sem er Jacobs messu. Hanns alldur 86 ár med þeim velfullum 3 árum, er hann lág siúkur, einn merkelegaste og nytsamlegaste madur á Íslande saker guds-ords útbreidslu í þeim bókum og bæklingum, er hann hafde um margt ár útlagt og láted prenta á Hólum, sem og binda og tilbúa, hvoriar nytsemdar bækur þá fyrer laungum tíma um allt Ísland komnar voru, og alltíd fyrer hende, so hanns minning má og mun á Íslande vera, á medan þad er bygdt og vor túnga vidheldz. Deyde sú sæmdar-kvinna Sólveg Gunnars dótter ad Miklabæ þann 22an Júnii, sem átte Síra Arn-

Arngrímur Jóns son. Þaug áttu epter 3 baurn, Jón, Gunnar og Helgu. Helgu átte bónde Biörn Magnús son ad Bæ á Raudasande epter Sigríde Dada dóttur. Jón giftiz dóttur Jóns Sigurds sonar frá Reyneſtad, ſem Oluf het, er átt hafde Síra Sigurdur Jóns ſon ad Helgafelle. Þeirra brúdkaup á Miklabæ Anno 1625. Þau fóru í bú ad Aukrum, fell þá miſlynde á med þeim næſta ſtrídt, og ſkildu þau ſo ſamſarer og ſamverur, fór Oluf til búſs og jardar ſinnar Wíkur, enn Jón var á Aukrum. Þangad reid Jón eitt ſinn ad bióda ſamviſter, ecke vard af því.

Samfundur kennemanna fyrer nordan á Flugumýre í Skagafirde 20. Auguſti um biſkups koſníng, og kiorenn Síra Þorlákur Skúla ſon ſkólameiſtare. Hann ſilgde í Hofsós, alldur 30 ár. [Fader Síra Þorláks var Skúle ſon Einars bónda Þorarinns ſonar í Bólſtadahlíd, og Gudrúnar Þorſteinns dóttur. Þau bugqu á Eyríkſtaudum í Svartárdal, þá jaurd átte Skúle og adrer fleire. Syſtkyn Hr. Þorláks voru, Einar, Þorvalldur, Ingun, Biarger tvær, Gudrún, Walgerdur, Helga, Halldóra, Cecelia. O. E. S.] Vígde Síra Arngrímur 2 preſta 11ta Martii, item enn ſeinna adra tvo. Smídadur ſtopull og kyrkia ad Hólum, og þá nær búen ad aullu inn-kyrkia. Var þad miked verk og koſtnadarſamt í haurdum árum ſlíkt húſe og bygg íngu af ſtad ad koma, þar einn kvennmadur átte yferſaugn. edur rád ad, ſem var Halldóra, dótter Hr. Gudbrands, er þá hafde um þann tíma yferrád aull Hóla-kyrkiu-umbods, epter Herra printzins og hyrdſtióra tilſkickan.

Þann 12. Júnii komu Tyrkneſker ræníngiar med ſkip í Grindavík, tóku þad Danſka ſkip, er þar lág, med nockrum

 maun-

maunnum og gótse, kaupmadurinn flýde. Einnen her-tóku þeir kvinnu Jóns Gudlaugs sonar, Gudrúnu ad nafne, búande á Járngerdarstaudum med 3. hennar sonum og 2 brædrum, enn huggu þann 3ia *] til skemda. Þar til ræntu þeir audrum 6 maunnum. Þetta sama ræníngia-skip tók og annad Danskt skip, sem Kaupenhafnar reidarar haufdu híngad til landsins sendt, og sigla átte uppá Isafiord, þad tóku þeir fyrer Grindavík, og gyntu ad ser med flagge edur merke þess skips, sem teked haufdu, og sendu annad þeirra fram med ránfengis farm. Hin tvo laugdu ofan fyrer Nes og inn ad Seilu.

Haufudsmadur Islands, Holgeir Rosenkrantz, sem þá hafde sitt skip í Seilu vid Bessastade, er hann spurde rán í Grindavík, stefnde til sín skipe úr Keblavík og audru úr Hafnarfirde, enn hid þridia úr Hólminum duldiz inn vid Leiru voga. Let hyrdstiórinn tilbúa í Seilunne virke edur skans [sumer saugdu af fiske-bauggum] og seta á byssur, þær fáar til voru. Þar voru í virkinu Islendíngar marger, Jón er lögmadur hafde vered Sigurds son, Sira Þorlákur Skúla son biskups efne, Þorbergur og Sigurdur Hrólfs syner. Þesser voru ad nordan med sínum maunnum. Og þegar þesse tvo skip sigldu framan ad Seilunne, skutu hvorer um sig nockrum byssum þeir Tyrkneski og landsmenn, og staunsudu þá ílvirkiar sig, sneru vid, og hytte annad skipid grunn, og stód á klett, fluttu þá fánga af

þvi

*) Þesse meina menn vered hafe Halldór, fader Jóns Halldórs sonar lögrettumanns, er bió í Innre-Nordvík. Enn kona Halldórs var Gudbiaurg, dotter Sira Odds Odds sonar á Reynevöllum.

þvi og á hitt skipid, og komu so bádum í burt, og heldu frá. Enn þeir Daunsku fengu stórt ámæle fyrer þad, ad þeir laungdu ei ad þeim strákum, medan í því svámle voru ad flytia góts millum skipanna, hvad Islendíngum þótte þó avdveldt vered hafa. Þetta var fyrer siálft alþíng. Og reid ecke hirdstiórinn uppá þíngid. Uggur og ótte var þá mikell um aull Sudurnes, fluttar kvinnur og baurn, fe og búsmale á efre bygder. Rán í Avstfiordum af Tyrkium, tóku kavpmanna-far í Diúpavoge, í Berufirde og allt góts. Einnin ræntu þeir fe og maunnum um Berufiord og Berufiardar-straund, ráku fe og menn til skips, drápu menn og líka saurudu, og sundurhuggu. So hefur sá fróme mann Claus Eiólfs son þarum skrifad, ad þeir hafe drepeð þar 9 menn, enn rænt 110. Einnen sídar í Júlio mánude komu 3 ræníngia-skip Tyrknesk ad Westmannaeyum, fyrst sunnan ad eyunum, letu þar út 3 stóra báta, fulla af maunnum, og fóru þar uppá eyarnar óvanalega uppgaungu. Skrifar Síra Olafur Egils son þad mune hafa vered 300 manns. Þeir skiptu ser í hópa um eyarnar med sínum ravdum merkium, her-búnade, her-ópe og óhliódum, innlóku þær allar, ráku fólkid og fe ad Daunsku húsum, drápu sumt og saurudu í sundur, suma skutu þeir til davds. Þad merkelega skálld Jón prest Þorsteinus son ísletu þeir, enn ræntu á burt hanns konu, syne og dóttur. Síra Olaf tóku þeir hanns konu og baurn, ræntu kyrkiuna, og brendu þar epterá, og aull Daunsku hús þar, fluttu fólk og fe til skipa. Og hvornen þeir hafe þar hrædelega og háduglega fared med karlfólk og kvennfólk, má lesa í skrife Cláusar og reisu-bók Síra Olafs. Þeir hiner Daunsku komuz med flótta til megenlands á bátum ad því sem næst var. Um fiolda á þeim man-

manneskium, sem funduz í eyunum davdar, og ecke voru aull-dúngis uppbrenndar, voru 34, enn þeir burtrœntu, so menn vissu, 242. Danser reidarar sendu kavp-skip á Vest-firde síd sumars í stad þess sem rœnt var, og þar med kom varnar-skip. Engelskt varnar-skip vid duggur Enskar var fyrer vestur-landinu. Þad tók Franskt hval-fangara-skip eitt fyrer Vestfiordum, komuz af skipinu á báte og í land Franskar menn 16. Þeir komu 2 til alþíngis, og sigldu í Seilu. Skede minneleg dravm-vitran á Akraneſe, læt her undan lída.

Keysarans her inntók med þeirra stríds-makt land Holstein, Ditmersken og Jutland.

Anno 1628. Þá skedu miklar vitraner, sjóner og dravmar á Sídu avstur. Og á Kyrkiubœar-klavstre sáz blód-teikn á kyrkiu-hurdinne og fyrer dyrunum, einen heyrduz þar hríngíngar um nóttina. Frosta-vetur mikell hardur fyrer Jól, og epter kom ís á Góe, hafþauk, eingenn afle. Sá ís lág til 12ta Augusti. Sulltar neyd á allmaurgum. Gras líted. Gott sumar til vedur-áttu. Urdu fátæker menn vída úte, og í Borgarfirde med fe menn. Drucknun Sveinus Jóns sonar í Fliótum med audrum 4um. Drucknun 11 manna á Akranese. Skip-tape í Eyrar-sveit. Drucknun 3ia manna sudur í Hravnum. Skip-tape á Vestfiordum. Drucknun 12 manna med teinæríng vid Geirfugla sker. Drucknun 3 manna í Eyafirde. Drucknade Oddur Jóns son med syne sínum í læk litlum fyrer utan Navtabú í Skagafirde, þar hann bió, næsta dag fyrer Skírdag, flód kom í lækinn. Á Skírdag,

sem

sem var rode, var miked fiúk fyrer avstan. Vard úte Þorsteinn Magnús son í Medallande. Vígdur! Hr. Þorlákur Skúlason til biskups yfer Hóla-stipte, kom út sydra í Seilu med hirdstióranum epter alþíng á Islands varnar-skipe Daunsku. Hann kom heim til Hóla á Maríu-messu Magdalenæ, alldurs 31 ár. Voru vid landid varnar skíp Daunsk og Engelsk. Ecke vard vart vid ófridar=menn kríngum Island þad Sumar. Kom ecke skip á Eyafiord. Hafde Hofsóss skip skiled vid þad avstan=under Islande í íse. Pad komz úr ísnum um síder med illann leik, og siglde fram aptur óhindrad. Kavpmadur var Matthias Hans son. Kom Just kavpmadur híngad tveim daugum fyrer Bartolomei messu inn á Hofsós. Kom út aptur híngad Síra Olafur, sem tekenn var í Vestmannaeyum, sem lesa má í hanns reisu-bók og skrife. Sýn og dravm Síra Magnúsar Peturs sonar læt hiálída her innsetia. Geckdómur á Akrum í Skagafirde um havstid af prestum og leikmannum, yferdómendur Herra Þorlákur Skúla son og Hr. Halldór logmadur Olafs son, mille Jóns Arngríms sonar og Olufar Jóns dóttur. Sór hún þá eid fyrer alla menn nema sinn sál. mann Síra Sigurd Jóns son. Pav dæmd adskilen. Tvær konur sóru med henne.

[Gísle Hákonar son var þad ár umbods-madur haufuds-mannsins yfer Islande. Hann tók Skagafiardar-sýsslu af Halldóre logmanne epter haufudsmannsins skickan, og veitte hana Jóne Sigurds syne á Reynestad og Modruvalla klavstur, veitte þad þó kvinnu hanns. Halldóra Jóns dótter elldre orsauk hertil, voru gamlar og nýar skulder vid Danska. O. E. S.]

Anno 1629. Vetur gódur frá Jólum til veduráttu. Grassumar gott. Heyadiz vel hákalla-fengur fyrer nordan. Fiskeleyse

leyse, hardt til matar. Umferd undra mikel af fátæku fólke, dó margt af biargleyse. Kom fiúk-bilur fyrer nordan 24da Januarii. Urdu úte og kól til davds 9 fátæka menn, 4 fyrer nordan Vatns-skard, 5 fyrir vestan þad, fleire kól. Skóla-pillt med audrum manne kól til davds nordur á Reykia-heyde. í fiúke epter sumar-mál. Hluter mikler í úrverum sydra og vestra. Tveir skiptapar í Vestmannaeyum, og á 25 menn 30 Martii. Skiptape í Garde sudur, annar á Seltiarnar-nese, á þeim bádum 10 menn. Tveir menn dóu af griót-hrune í Drangey. Vard úte og kól til davds fyrer avstan Skra Sigurdur Olafs son med sínum syne 18 vetra gaumlum. Vinnu-kona á Stad á Aulldu-hrigg fór til brunns, og aunnur kona þar vestur fór frá messu, kól bádar til davds, og so fleire fátæka. Þetta var sunnudaginn nærstann fyrer Jól. Þá ørkumsludus og mistu af fótum upp yfer okla og so framanaf haunduuum syner Biarna Sigurds sonar ad Stocks-eyre, Gísle og Marcús, ridu á ís-vatn nockud, urdu voter, vildu ei til bygda snúa, helldu áfram.

[Þeir brædur Gísle og Marcús Biarna syner ridu um veturinn avstur yfer Fiall frá Fitium, hleyptu heste sínum ofan í Eyríks vatn, voknudu á haundum og fótum, og kól af þeim hvorumtveggia, so af þeim vorn sagader, fæturnir á Þíngvollum, hvar þeir lágu lenge um veturinn í grædslu. Slíkt frost hafde ei komed í manna-minne sem þann sunnudag nærstann fyrer Andres-messu. Epter þad þeir haufdu hestinn uppdreged, druckn

druckn þeir brennevîn, fengu slæma færd og däusuduz, sofnudu, og vauknudu vid frosen bein á Gagn-heyde, gátu sídan med harmkvælum vellt ser og skrided ad Svartagile, Þíngvalla kote einu, og sídan ad Þíngvollum. Þar bió þá Sira Engelbert Nicolaisson. Þeir gengu á tre-fótum epter þad til ellesdaga. Af Marcúse vóru flestaller fíngur, enn gat þó skrifad. O. E. S.]

Kom ís fyrer nordan, lá ei. Náduz seler. Fannz Biarndýr. Sleit upp kaupskipid í Spákonufells-hofda, ádurenn þeir haufdu af fenged gótsid, og rak vestur á Hegstadanes í Midfiord, og bravt þar, skemdiz gótsid, enn nádiz þó vott. Þá fengu Hollendsker ógurlega miked herfang af þeim Spanska skipa-flota hiá því merkelega eylande í America, sem heiter Cuba, nærre borginne Havana, þar sem sá Spanske skipa-flote safnadiz tüsamans, hvert herfang af gulle, silfre og annare kostulegre vauru ad var ein heil Million gulls, þad eru *) 300 tunnur gulls.

[Kom út Brinjólfur Sveinns son med testamenta academica, og var heima 2 árin ad Hollte í Onundarfirde hiá sínum forelldrum, og lagde sig til privatum studium Græcæ linguæ og lectionem auctorum bonorum, reid til alþíngis bæde árin um promotionem, enn feck aungva vidtauku af biskupe Hr. Odde. §]

Og Hall-

*] Rettara, 10 tunnur.

§) Þad sem stendur í undangangande parenthesi tillagt af Mag. B. S. S

Halldór lögmadur og hanns kvinna ridu sudur snemma umvorid til fundar vid hirdstiórann, og bidu í Skálkollte, þartil hann og aull skip komu. Náde lögmadur þá aptur aullum sínum lēnum. Hr. Oddur reid med þeim til Bessastada, og lagstillte þetta. Haufudsmadurinn hinn same kom í Seilu med stríds-skip. Voru þá og fleire varnar-skip í kríngum Ísland. Kom fiúk sunnudaginn í Ymbru-viku um haustid. Þaū snió tók alldrei upp þad ár út. Giorde stór hardinde med miklum blotum og austan-stormum fraū til Magnús-dags, kom þá útsunnan med blotum, og tók fyrer jarder.

Austur í Kyrkiubæ skylde hríngt hafa vered kluckum Þrettánda-dags nótt þrisvar, og sáuz um morguninn blód-ráker sín á hvorum dyru-staf edur kyrkiu, og þar nidurunder blód-hnöttur sem manns hnefe. Hvarf Jóns Gunnlaugs sonar í Lögmaūshlíd um veturinn. Hann hafde fared til fiár síns á Glerárdal, og var vid sel. Um sumarid epter fannz hann þar úte daudur, þá snió uppleyste.

Barn fædt í Flóa höfudlaust, hafde munn á brīngu, lifde viku. Kom híngad í landid prentud sáttargiord keysarans Ferdinandi og kóngs Christians 4da.

Anno 1630. Vetur hardur med áfredum, nefndu hann marger Jokul-vetur, fellu peníngar, enn í medallage vetur til Jóla. Sumar gott. Fiske-leyse fyrer nordan. Misjafner Hluter fyrer sunnan og vestan. Komu eingin skip fyrer al-

þing

þíng, því var alþíng ol=lavst. Hirdstiórinn kom ei til Íslands. Tveir pilltar urdu úte, einn í Sæmundarhlíd, annar á Laxárdals-heyde.

Brúllaúp Hr. Þorláks Skúla sonar halldeð í Brædra=túngu, hann feck til egta Christínu, dóttur Gísla Hákonar sonar logmanns. Þad var mikeð hóf. Vígde Hr. Þorlákur 2. presta. Utlagde Hr. Þorlákur og let prenta einn gódann nytsemdar bækling. Lét halda bænadag um vorid.

Brunnu í Skálhollte á Matthias-messu herbergia-hús, þar brunnu ad taulu 13 hús med aullu því sem inne var, kistum klædum, silfre, bókum, brefum og audru fleira, item visitatiu=bók Hr. Odds. Þetta var stór og mikell skade. Menn sakade avngva. Fólk var í kyrkiu under prediku biskupsins Hr. Odds Einars sonar. Þetta skede Ausku-daginn siálfann, því hann var vanur ad predika hvorn bæna-dag í Faustunne, og kom til af því efne, ad ein vinnukona átte ad kinda í kakalofninum í biskups-badstófunne um predikunina, og þegar hún hafde lagt elldinn í hann, var saugn hún hefde stocked burt uppí kyrkiu vid undergangs dyrnar, og sofnad helldur dádt, þar til kyrkian fylltiz af reyk. Enn þegar menn tilkomu, var elldurinn komenn í badstofuna. Vard so nær avngu hiálpad. Las elldurinn sig hús af húse, því herbergin vóru þilud, og lopt í þeim aullum. Brunnu aull þesse hús á hálfre annare eykt. Eingenn vard epter í kyrkiunne nema biskupinn einsamall. Hañ geck um gólf allann þann tíma, sem húsin brunnu, fyrer framan kór-dyrnar, í þeim stad, sem hann var jardadur veturinn epter. Var um vorid

 teked

teked til ad byggia upp aptur, so mikid sem vard. Um havstid var hallded brullavp Hr. Þorláks og Christínar Gísladóttur í Brædratúngu med mikille ravsn.

Tiauld Hr. Þorláks stódu langt nordur í holltum frá Brædratúngu. Þangad reid Hr. Oddur nedan úr Túnguſporde med ſinne fylgd frá tiauldunum. Var brúdguma-reidin heim ad stadnum á Lavgardags kvoldid, so nidurſkickud, ad jafnan ridu 3 og 3 ſamſída, þartil helmíngur fólks-fioldanns var afſtad kominn, og þar epter 2 og 2. Biſkuparner báder ridu ſídaſter, og voru hiner fyrſtu þá komner heim ad Túngu, þegar biſkuparner ridu frá tiauldunum. Ecke ſáz í volliñ fyrer heſtum og fólke, þegar aller voru ſtigner af heſt-bake. Hr. Gíſle Hákonarſon var mikell hofdínge og ravsnarmadur, ſagde alla ſína geſte velkomna, enn ſagdiz afſkilia alla nordlendſka hægverdſku. D. E. S.]

Brann ſtadurinn Hvanneyre í Borgarfirde giorſamlega allur, menn ſkadade avngva. Páll Gíſlaſon og hanns kvinna Ingebiorg Biarnadótter hausdu veturviſt epter bæar-brunann ad Vatnsenda í Skoradal hiá Birne Gíſlaſyne med úngu barne. Brann elda-ſkemma í Heradsdal í Skagafirde med því ſem þar inne var. Deyde ſá heidurlege og hálærde mann H. Oddur Einarsſon biſkup ad Skálhollte, adfara-nótt 3ia í Jólum, vered biſkup 41 ár, alldur *) 73, einn ítelátur og gudshacka-giarn herra. Ein ſtúlka Þorbiorg ad nafne hafde komed ad veſtan frá Helgafelle med Oluſu Jónsdóttur, epter þad hún hafde

*) Adrer ſegia 77.

de mist sinn mann, Sira Sigurd, er þar drucknade. Hún vistade hana í Heradsdal. Þar tók hún krankleika, og sáz á henne þickt, og sem konur nefndu vid hana, þad munde barns-þickt, varde hún þad og þrætte. Kreinktiz hún og vard ei vinnu-fær, og var hún þá hausd til Reyneſtadar til Olufar. Og alltíd varde hún þad ad med barne være, helldur være blód-þickt, og so sagde hún sínum preste í skriftar-málunum. Sídan tók hún harda sótt, enn sú tilskickada kona, sem henne skyldi þióna, mátte ecke nærre henne koma, því hún bar sig so illa, og bad þess. So andadiz þesse kona, og var jaurdud. Sídan funduz huldar í þeirre sæng, hún leged hafde, tvær barna-skepnur [stúlku-baurn tvo]. Drottinn gódur forde oss aullum diofulsins vêlum! Einn vondur ande edur dravgur sáz um Eyafiord, giorde stórar skelfíngar. Vildu sumer hallda uppvaked manns-hræ. Formyrkvan á túngle vard á mille 9da og 10da Novembris, 40 mínútum epter mid-nætte. Sóttar merke. Formyrkvan sólar mót kvølde þann 31. Maij ad mestu aullsaman, furdanlegt ad siá! vard svaurt, græn, og blód-ravd. Þad vard med hennar nidur-gange. Mann-fundur á Aukrum í Skagafirde, samde Halldór logmadur og adrer frómer menn med Jóne bónda Sigurds syne og Sira Arngríme vegna Jóns og Olufar, barna þeirra, um tilgiafar áklaugun, og skylde Oluf fá 24 hundr. jaurd, og þar med allt sátt og kvitt um þad mál, hvorin Jón Arngríms son sídar fullkomlega játade, og allt var þadanaf vel hallded. Jón giftiz áre sídar, og átte maurg baurn.

Kóngs Christians 4da missátt vid Hamborgara, sende á Elben þangad stríds-skip ad banna þeim tilflutníng. Þar var med Holgeir hirdstiore Íslands, kom því ecke út þad sumar.

Hamborgarar helldu slag vid kónginn á Elveñe, tauptu, viku því undan, urdu til frids, og guldu elvar-tollinn.

Anno 1631. Vetur midlúnge frá Jólum, enn gódur til Jóla. Krankleike vlda, dó margur madur, láu ei lenge; Gótt sumar, heyadiz vel. Skip-tape á Gufuskálum, drucknudu 7 menn. Drucknun 7 manna á Seltiarnarnese. Þruma sló stafn úr badstofunne á Brimnesſvollum vestra. Þar under dó ein kona. Sunnan-stormur keirde þar á sió út þriú hundrud fiár. A Mýrum keirde nordan-stormur á sió 60 fiár og 6 færleika. Einn madur vard under snióflóde í Diúpadal í Skagafirde um vorid. Sudur í Eskeholte sagt, vantade vinnukonu þad fyrra árid 1630, og nú hvarf annnur þar. Ein kvíga bar kálfe vestur í Króksfirde; hann var hálfur í sels mynd. Víg unned sudur í Garde. Sá bónde dæmdur útlægur á alþinge til kóngs náda og ónáda.

Kvinna ein miste mann sinn í Svarfárdal, sorgade hann ákaft, skar sig á hálsinn til bana, sókte sídan ad sinne mágkónu, sem hennar son átte, sem hún hafde heited, og spillte aullu því hún átte. Ad Benedict Þorleifs syne í Búdardal sókte einn ande edur dravgur. Sá skellde hann á hanns hold, hlióp undan holldid, og vard svart, sem brunned være, hann sókte ad haunum so ákaft, ad lá ímist mállavs edur vitlavs um nockurn tíma. Hann vilde hallda uppvaktann dravg. Þeim manne Magnúse, sem fyrer var hafdur, dæmt til siottar-eids, hvorn hann sór fyrer Jóne elldra Magnús syne, sýsslumanne í Dala sýsslu.

Deyde

Deydde Hr. Gísle Hákonar son, logmann í Bræđratúngu, 12ta Februarii, alldur 48 ár, vered 18 ár logmadur, lá 12 daga. Leid á millum andláts biskupsins Hr. Odds Einars sonar og hanns 6 vikur. Saugn var, hann hefde strax kendt sinnar bana-veike, er hann reid frá greftre biskupsins. Hañ var mikell hofdínge og velkunnande madur. Atte epter sig 4 baurn, Vigsús, Hákon, Christínu og Valgerde. Þad sídasta ár, sem hann sat í logmanns-sæte á alþínge, rifnade dóm-kluckan. Hirdstiórinn Holgeir Rosenkrantz kom ei á alþíng, því hann leste skipid vid Norveg.

Kom inn nýr taxte hardare hinum fyrra, og vildu Íslendíngar ei undirganga, helldur supplicerudu þad ómogulegt vera, ad hann være ei vid þá halldenn, vid hvorn þó vera vildu, báduz vægdar af kónge, ad ei være úr því frekad. Ei feckz af haufudsmanninum þá supplicatiu fram ad bera, og greida þetta fyrer Íslendíngum. Kiorenn til biskups í Skálhollte Síra Gísle Odds son frá Hollts stad under Eyafiaullum í sinns faudurs stad. Sumer vildu kiósa þann heidursama og vel-lærda mann Brinjólf Sveinns son, er sídar vard biskup, og þá var her í lande, og þetta sumar aptur framsiglde.

[Siglde Brinjólfur S. S. aptur med ráde og stirk Þorláks biskups Skúla sonar á Hólum og Vigfúsar Gísla sonar, og var enn eitt ár í Academia Havnienſi. Heyrde Resenium Seniorem, episcopum Brochmannum theologos, Wormium medicum, Resenium Juniorem &c. Promoveradiz sídan þadan og í dómskólann í Roskild í Siælande til Conrectorem af D. Resenio episcopo.] [Síra Gísle Odds son hafde vered kyrkiu-prestur í Skál-

Skálhollte, og eitt ár Rector scholæ, þar epter prestur í Stafhollte, og hafde Heyness umbod, enn nú var hann prestur í Hollte under Eyafiaullum, sigldi þad sumar, og med haunum Síra Ketill Jorunds son. O. E. S.] Voru 3 under hlutfalle á alþinge í logmanns kiorum, Arne Odds son biskups Einars sonar, Þorsteinn Magnús son og Þorleifur Magnús son, hlotnadiz Arna. Giordar ádur bæner af aullum þing-heime og avdmiúkur sermon af Herra biskupinum Þorláke Skúla syne og lítelátleg bæn, ad bidia gud um rád og ályktan um þann logmann. Sór Arne logmanns-eid med lítelæte á kniám, giordar fyrer haunum bæner. [Arne Odds son sigldi fyrst 1609, og stúderade utanlands þriú ár. Var sídan skólameistare í Skálhollte [2 ár ad meina.] Aptur sigldi hann vegna faudur síns, þegar hann átte í mále vid haufudsmanninn Herlufsda Anno 1617.] [Arne Odds son logmadur átte fyrst Helgu, dóttur Jóns Vigfúss sonar. Attu þad eitt barn, og dó þad fyrr enn módurin. Aptur giftiz hann Þórdíse, dóttur Jóns Jóns sonar og Sigrídar Þorgríms dóttur á Sióarborg. Hann var rádsmadur í Skálholte nockur ár. Hann bió í Midfelle, Holltastaudum, og seinast á Leyrá. Eitt ár hafde hann Arness sýsslu, feck sídan Reyneſtadar klavstur. O. E. S.]

Tekenn til þing-skrifara Páll Gísla son, og skylde eirn vera (ádur haufdu vered 2, sinn fyrer hvorn logmann.) Hann skylde fá í kavp dal af hvorium sýsslumanne og skrifara-lavn af þeim sem dómana girntuz. Ad þessu fylgde mest Olafur umbodsmadur á Bessastaudum. Formyrkvan á túngle hinn 5ta dag Maij, varade 4 stunder nær 12 mínútur. Aumur

for-

formyrkvan á túnglinu þann 29da Octobris, varade 4 stunder fyrer midnætte. Bærinn Húsey braun í Hólme í Skagafirde allur giorsamlega 11 hús med heye og fióse um nóttina fyrer hinn 8da dag Jóla, menn komuz undan og navtpeníngur. Þá var fiúk=hrid mikel. Dravma og Sióner í Eyafirde fyrer nordan læt hiálfda her innseta.

Fridar=stillíng med kóng Christian 4da og Hamborgurum, guldu Elvar=toll. Fridur gódur í Danmork. Líted korn. Ofridur millum keysarans og Svíaríkis. Svíar helldu her í Þýdskalande 40000 mañs, hiner haufdu ecke minna, Svíar fengu sigur og miked herfáng. J einu slage fellu af keysaranns lide 8000 manns. Og fengu Svíar 2000 hesta þarmed miked herfáng allra handa. Feck Svía kóngur mikenn stirk og vidfrægann prís. Sátt á mille Spanskra og Engelskra. Ofridur millum Hollendskra og Spanskra, haufdu Hollendsker sigur bæde til siós og lands. Rússar og Polensker stofna ófrid hvorer vid adra, því ad þeirra fridar=stillíng var þá endud. Ensker unnu 15 Tyrkia skip vid England. Sú frettasaga kom í England, ad 12 Tyrkia=skip ættu ad sendaz til Islands ad sækia fólk, og ákveded hvad margt takaz skylde úr hvorium fiórdúnge. Einnen kom skrif á Island úr Barbarienu af Islendskum þar, ad Tyrkiar hefdu til Islands ætlad í næstu fyrer farande 3 ár, og hefdu alltíd haumlun fenged. Kóng Christian 4de sende stríds skip til Islands móte Tyrkium, ef koma kynu.

Anno 1632. Vetur í medallage frá Jólum, so hluter ad midlúnge. Drucknun 14 manna úr Landeyum vid

Westmannaeyar. Brotnade skip á Hravne í Grindavík, drucknudu 2 menn. Pad mikla vatnsfall, sem kallad er Sog, og rennur úr Þíngvalla vatne, þornade upp, mátte taka og voru tekner silúngar á þuru úr því. Uthýse brann avstur hiá Clause Ejólfs syne, og þar inne til 7 hundrada. Siinbrune um vorid, og brunnu laundin vída miog til skemda og skada, skógar og hrís, því þad dar so til, eldurinn vard óvída stilltur. Þesser brunar urdu og af eldre þeim, sem med var fared mille bæa, og óvarlega nidurfelldur. Var teikn fyrer þeim harda vetre og penínga hrune, sem epter fór um veturinn. Drucknade barn í Laxá hiá Vindáse, enn módurin miste vitid, og dó um havstid.

J Majo á Villínga vatne í *) Grafnínge var eitt hrút-lamb svart-kápótt teked frá einne á, sem ecke kunne ad komaz frá sínu elde, og var skoren. Þar var á eitt haufud og átta fætur, og so allt samfast ad §) inniblum, og so tvo aptur frá, og horfdu hvorer fætur uppá annars hrigg.

Brinjólfur Sveinns son á Vestfiordum, er sídar vard biskup í Skálhollte epter Hr. Gísla Odds son biskups Einars sonar, vard Conrector í Roskild í Siælande í Danmork, og innsettur í þad embætte 1. Septembris, siálfann Dionisii dag, af D. Johanne Paulo Resenio, biskupe í Siælande, og var í því embætte

*) Al. Grímsnese.

§) Al. naublum.

embætte þar 6 ár. Hr. Gísle Oddsson kom út med biskups tign til Skálhollts á Vestfiordum á Þíngeyre í Dýrafirde, hafde vered vígdur á siálfann Skírdag um vorid. Hirdstiórinn kom ei á alþíng, helldur kom hann út nockru epter þíngid.

[Það havst settur Torfe Jónsson frá Núpe í Dýrafirde á Vestfiordum í Skálhollts skóla, hvar hann var 6 ár. Hafde hann nockur ár um vetrar-tímann vered til kenslu og Látínulærdóms hiá Sira Jóne Sveinnssyne, er sídan feck Hollt í Önundarfirde epter sinn faudur, því skólinn feckz ei fyrr af biskupe. Fór sonur hanns Jón Jónsson þá og í skóla, og fylgduz so báder þad árin sudur og sunnan.*]

Brandur, sá á manninum vann, feck landsvist, kom út, giordiz þenare haufudsmannsins, fór burt aptur med hannum. Kom kóngsbref, ad sá nýe taxte skylde oldúngis af, helldur hinn fyrre vidhalldaz. Hafde Hr. Gísle biskup siálfur fyrer kónginn böred supplicatiu Íslendínga um þann nýa taxta og haurd kaup Dana, og aungvum viliad hana fá, þó epter være margvíslega leitad, nema kónge siálfum, er hann fyrer hann kom.

Bannadur kaupskapur strengelega Íslendíngum vid nockrar þióder ad hafa, utan vid Danska reidara. Item bannad Engelskum ad liggia vid Ísland, so þeir keyptu ecke vid landsmenn. Dannsk varnarskip vid Ísland. Forgengu 8 Enskar duggur fyrer avstan um havstíd í stór-stormum, týnduz

 menn

*) Það sem stendur í undangángande parenthesi tillagt af Sira Torfa Jónssyne.

menn og allt annad af fiórum, enn mann=biaurg af himum. Brann elld-hús í Skaptatúngū í Húnavatns þinge, þar inne til 4ra hundrada. Skipte vedur-áttu, komu snióar mikler í Jóla=fanstu inngang, giørde daggar-blota med stormum, og fravs, so tók af jarder vídast um sveiter, og giørde mikel hardinde til Jóla. Enn grasleÿse var um sumarid med vot=vedurattu og stormum, heÿskapur nærsta litell. Bólu-havst.

Gift Oluf Jóns dótter Hallgríme Halldórs syne løgmanns, og áttu þav sídan maurg baurn til samans. Jón Asgríms son giftiz og áre fyrre Gunnhilde Olafs dóttur prests Jóns sonar, þav áttu og maurg baurn. Og fell vel á med þessum hvorutveggiu hiónum.

[A Faustu um veturinn dó Arne Magnús son, sÿsslumad=ur í Múla-þinge. Hann átte Gudrúnu Jóns dóttur frá Galtar=dalstúngu. O. E. S.]

Fell sá ágæte og loflege Herra Gustavus Svía kóngur, vann ádur mikenn sigur, enn er hann jagade epter óvinunum med nockru sínu stríds-fólke, og vilde aptur snúa ad sínum her=búdum, reid hann med sínu fólke óretta gautu og ad keysarans fólke, var þecktur af nockrum þeim, hann hafde ádur lavsa gef=ed, var so umkríngdur af sínum óvinum, og skotenn til davds, og lifde úr því tvo daga, sem lesa má giør í þeim Þÿdsku tíd=indum. Þetta slag skede med haunum og keysarans her hiá Leip=zig í Þÿdskalande þann 9da Novembris. Hanns lík med miklum kostnade flutt til Svíarikis. Þann 5ta Novembris, kluckan

11 um nóttina, drucknade í Kaupenhafn kóngsins hofmeistare Frans *) Ranzon í dýke stadarins. Item á þennann dag brañ til Kaupenhafn hid besta kóngsins brugg-hús. Svensker sendu til Kaupenhafnar, vildu ad Christian 4de være þeirra Schütz-herra edur ad audrum koste Prinżinn, enn Danmork vilde hvorugt þetta samþyckia. Soddan tilstand sem þar var, hafde ei vered sídan Þýdskaland bygdiz. Hvar sem hvoker nádu til, þar var brennt og brælt, spillt og fordiarfad, og nýu lide safnad.

Anno 1633. [Brinjólfur Sveinsson Islendingur var Conrector í Roskild, ferdadiz til Kaupenhafn þadan, og vard Magister, fór sídan til Roskild til saumu bestillíngar. M. B. S. S.] h) Vetur aftaka hardur um allt Island. Hrun og nidurfall penínga, og þegar á Jólum dóu peníngar, sem voru færleikar. Giorde spillíngar blota. Hey-leþse allstadar. Eckert fólk komz ad síonum fyrer ófærdum snióanna fyrer sud-avstan. Ecke vard vítad kyrkna fyrer ofhrune snióanna hvorke af prestum ne sóknarfólke, og ecke vatnad peníngum nema eitt sinn í viku á sumum bæum. Menn komuz valla mille fe-húsanna og bæanna. Fiár-húsin fennte med fiánum, og urdu ei funden. Fenite og hraunnum peníuginn, hundrad hesta sudur á Kialarnese, item taled 12 hundrud kúa úr Borgarfirde og avstur ad Rangá dáed hefde, einnen 153 færleikar under Eyafiaullum. Var og mælt, ad í Skálhollte hefdu epterlifad 7 færleikar. Var og einnen sagt hrun af hestum, navtum og savd-fe vestur um sveiter.

 [J.

*) Ranzow.

h) Þesse vetur var kalladur Hvíte-vetur, og kom á hálfreannare viku fyrer Jól.

[Å annare viku Þorra kom so mikell sniór, ad hesta kaf-fennte á slettum velle. Eingenn madur munde þvílíkt snió-fall. Fe og hestar átu tre og torf-vegge, og jafnvel hvad annad sem dáed var. O. E. S.]

Gras-sumar líted, góð vedur-átta. Land-skiálfte sydra, hrundu bæer í Olvese, ei sakade menn ne peninga. Ís kom á Þorra, lá allann veturin, og fram allt nær ad Jóns-messu. Eingen afle nein-stadar á ísum. Skútu-skipid úr Selvoge forgeck í Herdísarvík, druckudu 14 menn. [Það stóra skip tólf-æríngur, kallad Skúta, forgeck á Ausku-daginn, hafde lenge fylgt Straund í Selvoge, og vered smídad upp hvad epter annad, og alltíd halded heilla-skip, feck ætíd góda land-tauku, þó þad lendte seinast af aullum skipum. Formadur þess Gudmundur Peturs son lagde frá þess vanalegre lendíngu útí Herdísarvík, forgeck þar med 15 maunnum. Þad átte þá Hákon Biarna son í Nese. Þá nótt láu úte 2 skip í Selvoge, komuz af. A audru þeirra var Síra Jón Páls son. O. E. S.]

Vestan-vedur miked 2. dag Martii, hrauktuz sen allvorda, fórz og af þeim, láu og menn úte, skaududuz eige. Fornyrkvan túngls. Sáz siórinn sem blód vid Vestmannaeyar, sem fyrr hafde sked fyrer austan, ádur Tyrkiar komu og rændu þar. Aundudux þær tvær systur, dætur Biorns bónda Benedicts sonar, Gudrún, sem átte Hr. Gísle Odds son biskup, þáv barnlaus, voru saman 11 ár, og Sigrídur á Márstaudum, sem átte

átte Páll bónde Gudbrands son. Item deyde þá sonur hennar Hákon, eitt fróint og velsidugt úngmenne. Hann var á heimreisu af alþínge til sinnar módur, og hafde þenna fyrerfarande vetur vered í skóla ad Skálholite, andadiz nær þegar í bygd var komenn, tók sótt á Þíngvollum, 16 vetra ad alldre. Þad ár deyde og Dade bónde Biarnason á Skarde á Skardstraund, er átte Arnfríde Benedicts dóttur Haldórs sonar ríka frá Modruvollum í Haugárdal.. Þav voru þá barnlavs. Erfínge þeirra dóttur-son Eggert Biorns son. Deyde Ingebiorg Arna dótter, sem átte sál. Gísle Þórdar son logmañ, þav áttu margt barna. Tekenn Benedict Páls son med audrum skip-verium á Hamborgara skipe af Torkium, hvort sigla ætlade til Spanien, og halldenn þar í þrældóme. [Hann lærde bartskera íþrótt í Hamborg. O. E. S.]

Olafur Peturs son fógete hafde láted smída sér haf-færa duggu hér í lande, og let þad skip fara fram á haf til fiske um sumarid. Þad selde hann Daunskum Capitain, hann let á þad menn, og fyllte þad med skreid, og let só sigla því til Biorgvinar í Norvege.

Anno 1634. Vetur gódur nordanlands í sumum standsum. Gras-sumar líted, vót-vedrásamt, skemdiz hey; hehleyþse; dó peníngur. Fell fátækt fólk í húngre, vard og líka úte. Tvo systkyne áttu barn sín á mille sudur á Alftanese, madurinn flýde, konan líflátenn. Myrdtur madur á Langanese *] nordaystan-

*] Annad Exemplar: nordan-fram.

avstan-fram, sá flúde. Drap og myrdte sá vonde skálkur, er Gísle het, sinn faudur Tómas Þorkels son vestur í Daulum, epter það þeir haufdu stoled í Húnavatns-þinge, og Gísle var hýddur og markadur. Sá skálkur nádiz og var rettadur. Skulder mikler fyrer nordan land.

Heingdur Jón Orms son under Svart-hamre í Langadal fyrer stuld, dæmdur í Bólstadahlíd. Þesse Jón tók það bragd, þá menn komu til hanns ad vita þess sem stoled var, og vildu taka hann, því þeir haufdu þá funded fólann, hann greip knif, og skar skinnid á hálsinum inn á barkann, og kastade ser so nidur uppíloppt, og lét korra nidur í hálsinum, enn blód rann um hann allann úr áverkanum, hann var og ei litell. Þá ofbaud aullum, og gengu frá, nema einn, hann sá þetta bragd, og herdte hina upp, og var þá Jón tekenn og deyddur, sem fyrr seger. Þesse Jón var og í Vestmannaeyum, þá Tyrkiar rændu þar. Hann fann uppá það, ad hann lagde sig nidur hiá davdum maunnum, og þvode ser og velte í þeirra blóde, og lez davdur. Stúngu ræníngiar vid haunum med spiótum, og merktu ei annad enn davdur være. Og þegar Jón hafde so lenge leged, reis hann vid, og meinte óvinina alla fiærlæga, enn þegar hann uppstód, sáu þeir Jón. Tók hann þá á rás, enn þeir epter, so komz hann ofanfyrer biaurg, og slapp. Enn illa lendte um síder, so sem ádur er skrifad, enn þó dó hann skaplega og vel, það á var ad siá, medtók Sacramentum, og geck lidugur til aftauku-stadarins og í snauruna, befalande sig Gude. Brann bærinn *] Liáskógar í Haufda-hverfe, og miked

*) Al. Hlésskógar.

niked fé í davdum hlutum þar inne. Brann og annnur hiá-leiga fram í Hniójkadal, og þar brann inne forráda kona, einnen þad sem til var af kvikn og davdu. Brunnu hey í Glaumbæ í Skagafirde, litlu vard hiálpad. Þar kaufnudu og brunnu 13 kyr, so lited vard mannnum af þeim ætt. Brunnu hey á Skardsá í Sæmundarhlíd, nockru vard hiálpad. Þar kaufnudu 5 kyr og ein kvíga. Þesser elldar komu úr siálfum heyunum. Þann 13da Januarii sló elldíng edur reidarþruma lopt-húsin í Brædratúngu, er Hr. Gísle logmadur Hákonar son let smída. Er mælt sá skade hafe vered til 50 hundrada.

[Reidarslagid hlióp inn um portid, og ofan í gólfid fyrer framan stofu-dyrnar, bravt kistur og hirdslur, og hvad sem fyrer vard. O. E. S.]

Kom út med hirdstiórn Pros Mundt til Birkiswold. 1.) Hanns veitíngar-bref uppleſid á alþínge, hann skylde halda Islendíngum vid Islendsk log. 2.) Kóngs bref um Bavgstada mál, Arna logmanne tiltálad, ad hann vid einn Contract vered hafe, og nidurſleged kóngsins sak-eyrer, hvarum hanfudsmadur-inn tilnefnde 24 menn. 3.) Kóngs bref um Botns mál. Þar Arna logmanne tildreift, ad hann hafe ei giört Jóne Hannes syne log um þá jaurd. Enn ad skrifa um upptank þessara mála, vill verda helldurtil lang-ordt. 4.) Einnen kom kóngs bref um hvíta fálka, ad Kóngurinn vilde þá eignaz. 5.) Samuleidis eitt bref, sem birte þá supplicatiu, er hlýdde um kúgilda fiolda med jaurdum her á lande, og þar fyrer forminkuduz kóngs



sins

sins rettugheit, og þad være helst í Arnesß sýsslu á dóm kyrkiunnar jaurdum. Ovild millum Arna løgmanns Odds sonar og Vigfúsa Gísla sonar, því Arne þótte Vigfús sig rægt hafa fyrer kónge á fyrefarande vetre. Kom bref Benedicts Páls sonar híngad, sem hann hafde til Hamborgar sendt, ad hann bad ad leysa sig med 1000 daulum, og 400 daler sendust haunum adavke til tære-penings. Framsender peníngar til útlausnar Benedict Páls syne epterkomande ár.

Vatnsflód furdanlega miked í lande Holstein, hvad í burttók bæde menn og penínga ógrynne, bæe og kyrkiur, hvad her eige innsetst. [Dóu *] 6133 menn, (þar med talder 9 prestar og 12 skólameistarar) enn 1336 hús hraupudu, og meir enn 50000 af kvik-penínge dó. Þad flód kom um nóttina millum þess 11ta og 12ta Octobris. O. E. S.] Item skede þad her, ad Hausda skipid siglde út úr haufninne, og kom á þá vedur og dreif vestur á Strander í Trekillesvík ad Arnese, brutu þar skipid, nádist gótsid mestallt, sumt skemdist. Þar lá fyrer hvalfangara-skip af Danmork, hvort er flutte fram kavpmanninn Christian Jonas son, og adra skipmenn. Under-kavpmadurinn §]Wolffgang lá epter og madur annar med haunum hiá gótsinu, allt lá vid skemdum. Hertoge Uldrich, son kóngsins af Danmork, skoteun til davds af Svínum. Haufudsmanna skipte her í lande, Holgeir Rosenkrantz sleppte, kom aptur Pros Mundt. Þá sást víga-hnottur.

Þann 8da Novembris fæddist eitt ykku-barn undarlegt og vanskapad af einne lavsa-konu, sem het Anna Søfrins dótter, hvort

*] Annad: 6123. §] Al. Ulfgang.

hvort er bó epter tvær andvarpaner. A þess haufde var eingen haufud-skel, og eingenn hálsinn, axlirnar jafnháar eyrunum, andlitid yfrid breidt, og nefid miog breidt og blódugt. Pad hafde tennur í bádum gómum. A bakinu var laung leingia skinnlaus, og ei nema bert hold, og nær nockur vilde þad skoda, rodnade þad, enn var þó daut, sem þad bligdadiz sín, med fleiru audru, sem hér er oflangt ad skrifa.

Þann 22ann Martii var eitt svín bored í prests-gardinum í Risebergs sókn í Skáneÿ, 4 mílur frá Helsíngiaborg, med 6 audrum fullkomlegum grísum. Pad hafde ecke utan eitt auga, allt svart og raudt, framanf midiu haufdinu, langa trjónu framan úr haus-skelinne af kiote líka sem fíls rana med holu framan á endanum; og eckert hol á nausunum sem á audru svíne, og hafde breidañ munn líka sem apinia. Upp af fótunum stódu sem skeyte. Eckert hár hafde þad nema líted á hriggnum. Þetta skrímsle lifde eina stund.

Þann 22ann Martii var einn kálfur skorenn af einne kú 1 mílu frá Helsíngiaborg, svart-hjálmóttur, med tveimur haufdum saman-grónum og *] þrennum eÿrum.

Þann 2ann Aprilis var eitt lamb bored 2 mílur frá Helsíngiaborg med audru fullkomnu lambe. Pad hafde 5 legge og 6 fætur. Eitt bein edur leggur geck út af bríóstinu, og beygde sig ád munninum, hvar á ad voru 2 fætur. Eitt bein geck nidur úr kvidnum med háre, álíkt ad siá sem eitt sverd. Pad lifde eina stund.

Anno 1635. Vetur gódur fyrer nordan. Hluter góder sydra og líka vestra. Druckñun 14 manna úr Vestmannaeÿum. Drucknudu 3 meñn á Vatnsleÿsustraund. Brann bærinn Hlád-



*] Al. þremur.

Hladhamar í Hrútafirde, og allt þad inne var; fólk var í sele. Geck bóla, dó margt fólk úngt innan 19 ára alldurs, einnen þeir sem ecke hausdu feinged þá fyrre bólu, sem nærst þessare geck. Geck og landfar=sótt med take, andadiz í því margur alldradur madur.

Deyde úr bólu Magnús bónde Ara son á Reykhólum, er átte Þorunne Jóns dóttur, sem átt hafde sál. Sigurdur Odds son biskups Einars sonar ádur fyrre. Einnen deyde úr bólu Magnús Sæmunds son ad Hóle í Budlúngavík. Hann átte Sigríde Þorleifs dóttur frá Búdardal. Þad ár deyde sá ehrlege mann Jón Sigurds son á Reynestad, sem logmadur hafde vered, 70 ára, 26ta Maji, feck gódann og hægañ afgang, hafde halded Reyneстad 33 ár, vered logmadur 13 ár, enn sýsslur haft imsar alltíd frá úngdóme, Stapa umbod og þar sýsslu 3 ár med Reyneстadar klaustre og Skagafiardar sýsslu. Deyde Jón Sigurds son, sem átte Kristnes í Eyafirde, einn frómur og hógvær madur. Deyde sá fróme mann Sigurdur Hrólfs son á Marteins-messu kvold, sofnade sætt í Drottne 63 ára. Hann hafde haft Þíngeyar sýsslu 30 ár med Þorberge bródur sínum.

Stulder mikler á Sudurnesium. Voru tveir menn heingder í Gullbríngu sýsslu fyrer stuld sinn í hvorn tíma. Jens Sofrens son var þá umbodsmadur á Bessastaudum. Einn drengur 18 vetra heingdur fyrer stuld í Eyafirde, feck ydran.

Komu á land í Vestmannaeyum fiskar, sem aungver hausdu þvílíker fyrre sez, nær hundrad ad taulu, voru med tveimur

hauf=

haufdum, og hlóu med ámátlegum hliódum. Være til þeirra járn=
um lagt edur hogged, beit ecke á. Þeir fóru í sió aptur. Drógz
ein hámey*] á halldfære í Engey sudur. Utan á henne hêngu,
og helldu sig vid hana 4 fiskar. Þeir haufdu eina skál fram=
an á haufdinu, med hvorre þeir festu sig á, og var so sem hol
komed á hámeyuna. Og þegar sió=menn gátu slited nockurn
þenna fisk af henne, þá sette sá skálina á skip=bordid so hardt,
ad brakade og brast í aullu skipinu. Þó til þeirra fiska være
lagt edur hogged med sauxum, liáum, auxum edur audrum járn=
um, hvad allt var reynt, tók eckert á þá. Þeir dóu allet,
þegar á land komu. Pros Mundt var samt hirdstióre á Js=
lande. Voru á alþinge upplesen Kóngl. Mayts bref. 1.)
Ad kenne=lŷdurinu á Jslande kostgæfelega barna=lærdóminum fram=
fylge, og einn part af haunum upplese á sunnudaugunum epter
predikun, item kalle baurnin fyrer sig og yferheyre, þeim þarum
framvegis tiltaliz, ef forsómunarsamer eru. Item um prófasta=
na, ef þeir forsóma ad áminna prestana, stande þar fyrer retta.
2.) Annad bref, ad Kóngel. Mayst. befalar, ad af hvorre kyrkiu
á Jslande skylde gefaz dalur, ad sú nýa Biblia mætte prentaz,
og lenhs=mennirner, og fógetarner, og kyrkiuhalldararner hiálpudu
til ad þetta greiddiz af hvorre kyrkiu. J sama brefe var bók=
prentaranum unnt og veitt sú jaurd Gnúpufell til upphelldis.
3.) Einnen kóngs bref uppleſed, ad prestunum var fyrerboded, ad
hallda nockrum frá altaresins sacramente, sem sig forsæe med
savrlifnade edur audrum soddan misgiorníngum, þó þeir vegna
þeirra fátæktar gætu ecke borgad þeirra sekta=fe, og ad þeir heldu
angvum frá altarinu, þegar þeir giordu tilbærelega ydran. It=
em í sama brefe streingelega fyrerboded, ad kóngsins lehnsmenn
edur fógetar á Jslande keyptu jarder edur ódaul, edur ad bænd=

 urner

*) Al. háa mey.

urner skeinktu edur giæfu jarder edur jardar=parta, uppá þad þeir fylgdu þeirra málefnum. Var lýst á alþínge útlegd þess mañs Eyríks Sigurds sonar, er fargad hafde barne sínu vestur fyrer Jokle. Ovild samt med Arna logmanne og Vigfúse Gísla syne, vard ecke af, ad sætter samandragiz á alþínge. Hofsóss skipid sigldé hedan 12. dag Septembris, kom aptur í Siglufiord, og hausdu villz under Grænland í tvær reisur, sigldu hedan aptur þann 24. Octobris, komuz frañ og brutu þar skipid. Drucknudu af þeim 5 menn. Nádiz af gótse. Underkaupmadurinn drucknade, enn yferkaupmadurinn Hans Olafs son komz af. Hausda skipid komz og frañ og brotnade þar, drucknudu og 5 menn, týndiz góts. Kaupmadurinn var Christian Jonason. Skede formyrkvan 21. Februarii mikel og hrædeleg á heilu túnglinu, bæde svaurt og raud. Þá formyrkvadiz sólin 2. dag Augusti, og túnglid aptur ógnarlega 18. Augusti. Myrdte einn madur barn sitt under Jokle ad lidnum Jólum. Þá vard ein kona sínu barne ad skada í Dala sýslu, vard openbert, henne var dreckt. Þad sumar sáz ormurinn edur ókind í Hvítá, millum Oddgeirshóla og Arnarbælis opt. J Júnio mánude um vorid fyrer Jóns=messu miste sólin 3 kvold alla sína birtu, og vard raud sem blód. Þá var heingd kona úr Snæfells sýslu, aunnur hýdd og maurkud. Þá hvurfu tvo úng=meñe fyrer vestan vestarlega.

[Mikell þiófnadur í Olvese, hausdu þiófar sinn addrátt á Nesium í Grafnínge. Þeir stálu 4 gamlum nautum, 22 saudum, 5 fiórdúngum smiors og maurgu audru. Einn af þeim var heing=

hreingdur, annar hýddur og markadur, fleire hýdder. Bóndinn í Nesium var og so hýddur og markadur fyrer samhylling og og hýsing. O. E. S.]

[Frettasaugn úr Englande um þann mikla logn-snió, þar fiell. Hann lá frá Atta-dege til Mariu-messu. Voru af maurgsum mannum bravter mokadar frá staudunum til siáfarins. Dóu fuglar og fiskar um landid og í vautnunum. Eingenn munde þar slík fá-dæme, og fannz þad í Annálum þeirra í 800 ár hin nærstu ecke sked hafa. Svíar stríddu á Keysarann, haufdu jafnan sigur og unnu á. Fleira herum læt hiálída. B. S. S.]

Anno 1636. Geck bóla, dó margt fólk, so og dó þad úr landfar-sótt. Drucknuni Eggerts Sæmundssonar á Sæbóle á Ingialld-sande á Vestfiordum, og 5 manna. Drucknun 5 manna og einnrar konu úr Adaulum í Skagafirde í ise. Þeir voru ad sela-drápe og ofhlódu sig. Rafn het þeirra formadur. Einn madur drucknade í Eyafirde, var ad sel-skutlan, og steypte selurinn bátnum, annar madurinn nádiz. Dó Gudmundur Eyrīks son í Gaungu-skards-Ar-gile í Skagafirde. Skip rak undan í Grindavík, á því voru 5 menn. Þad skip rak ad aptur sídar broted. A Midnese drucknudu menn á sexæríng, og enn einn madur. Brotnudu 3 skip í Vestmannaeyum. Voru á þeim 45 menn, sem drucknudu aller. Formenn voru á tveimur Oddur Peturs son og Biarne Valda son, gamler formenn, og haufdu frelsaz frá Tyrkium, þá þeir ræntu

eyar-

eyarnar. Oddur var af Norskre ætt, frómur madur. Petur Lisi het hanns fader, gamall formadur fyrre þar í eyunum fyrer því skipe, er Biorninn het. Oddur hafde frelsaz úr siáfar-háska fyrer tveim árum fyrer serlegt Guds almætte. Hann dreif frá eyunum og avstur fyrer Mírdal í storme og bryme, og kom þar under há biaurg. Hafde þesse Oddur háft altíd serlega lucku í sió ferdum og afla-braugdum. Var þá olendande í aullum lendíngum, og eingenn kunne vita ad under þeim biaurgum hefde nockurn tíma skipe lendt vered fyrer hóla urd og stór-gryte í siorunne. Enn þá þetta skip bar þar ad, var þar komenn slettur sandur, so þeir gátu lendt og uppsett skipid. Enn á hamra fyrer ofan komuz menn upp, þó navmlega, því þeir í Vestmannaeyum eru vaner hamra-gaungum. Nú sem þesser menn voru so úr siáfar háskanum leyster, tók siórinn þeirra skip, og bravt í spón, og allur sandur fór í burt þadan, og var epter open urd sem ádur var. Epter þad áfall hafde Oddur afteked formenskv lengur ad reina, hvad hann ecke heldt, heldur endte sitt hlavp, sem ádur seger.

A Midnese sudur áttu tvø systkyn barn sín í mille, og fannz þad grafed. Þav bæde retkud. J Havkadals á vestur í Daulum fannz úngbarn, þad vard uppvíst, og kendiz módurinn barns mordid, enn bar undan manninn, sem barnid hafde vid henne átt í hórdóme, ad hann hefde hvorke vitad barn-egnína, ne útburdinn. Hún dæmd til davda, og dreckt, enn manninum siottar-eidur, ef á haunum felle, þá hanns mál til alþíngis dæmt.

Þeim

Þeim Jóne Páls syne dæmt á alþínge húdlát, sem bored gæte, med þad frí. Sá Jón deyde um sumarid ádur, fyrenn refsíngin áfell. Kona heingd fyrer þiófnad under Jokle vestur. Vard madur brádkvaddur á Dyrhólmum í Mýrdal. Madur sleigenn til davds under Eyafiaullum, meintu menn af vedre. Þann 8. Maji kom upp elldur í Heklu, varade langt fram̃ á vetur, giorde stórann skada þar í kríng.

Deyde Ragnheidur Páls dótter í Hollte í Önundarfirde þann 19da Novembris á faustudag epter mid-dege, lá 13 daga, tók sótt um sunnudag, andadiz christelega, segiande góda nótt aullum, og sóknina fyrergefníngar bidiande, stód uppe til sunnudags, og var so jaurdud epter embætte. Hún var vitur kona, mild, orlát, greind og diarfmannleg, skaurúngur mikell, og sagde meiníng sína, hvør sem í hlut átte.*)



*) Þetta hefur annad Exemplar soleidis: [Deyde sú sæmdar-kvinna Ragnheidur Páls dótter, Jóns sonar Magnús sonar á Svalbarde nordur fordum sitiande. Hún átte fyrst Gissur Þorláks son ad Núpe í Dýrafirde. Þeirra syner Jón og Magnús. Sídar giftiz hún Síra Sveine Símons syne, prófaste ad Hollte í Önundarfirde, hvar hún og deyde þann 19. Novembris, faustudag epter dag-setur. Hún þvíngadiz serdeilis af heima-konu tvø þav sídustu ár, er hún lifde. Hún lá 13 daga í tak sótt, var jaurdud sunnudag epter embætte, feck hægann og christelegan̄ afgang, medtók á sinne sóttarsæng h. sacramentum, segiande aullum góda nótt, og sóknina fyrergefníngar bidiande. Hún var vitur kona, mild, orlát, greind og diarfmannleg, skørúngur mikell, og sagde meiníng sína hvør sem í hlut átte. S. T. J. S.]

Fiórer Þiófar heingder á Sudur-landinu, enn maurgum refsad. Vestan-fram í Hrútafirdinum heingde sig madur Helge ad nafne Kráks son. Brunnu tveir bæer sudur í Túngum, het annar Yda, nærste bær Skálhollte fyrer sunnan Hvítá. Þar brann inne fader og dótter, kaufnudu inne 30 fauder. Brann einn bær á Alftanese, menn skadade avngva. Ein kvinna flutt fram, vilde ei segia faderne barns síns.

Elldur í Heklu med stórum ógange og miklum. Stódu 13 elldar úr fiallinu so taled vard. Heyrduz nockrar dunur Þadan. Sáz og einnen mystur og dimma, avstur um allar sveiter kom megen myrkur med frábæru auskn-falle, so tók fyrer iaurd, og dó peníngur, enn sumur vard vitlaus. Sá elldur kom upp 8. Maji, og varade allt sumarid og Þó lengur.

[Vetur miog hardur til sveita helst fyrer avstan med miklum sniónum og ísa-laugum, vard Þó ei peninga feller, Því vel hafde heyaz. Brann bær á Ydu hiá Skálhollts-hamre, og Þar inne kona Jóns Jóns sonar [sú fyrre het Borghildur] og fader hennar karlægur. Jón var sídar yfer-brite í Skálhollte, og hafde sídast Hamra umbod, var løgretlumadur. Þar brunnu og 30 laumb. Fólk var vid messu í Skálhollte, Þá Þetta skede. Item brunnu 6 navt á Gerde á Akranese, enn menn sakade ecke. Drucknun Síra Jóns Niculaus sonar í Hvítárnese, og bródur hanns med 4 maunnum. Þad havst fram ad

ad Jólum var eymuna góð vedurátta. O. E. S.] Triá-reke mikell under Eyafiaullum. Hardt vor fram á sumarid, kom snior fyrer nordan, þá sól sem hæst geck, dó vída af savdum. Bodullinn á Bessastaudum átte barn vid dóttur konu sinnar [sinne stiúp dóttur]. Þav bæde rettud á Kópavoge í Augusto. Brann stadurinn Glæsebær í Kraklíngahlíd og þar inne 50 fiár, menn sakade ecke, litlu af húsum vard-biargad. Brann smidia í Vídedalstúngu í Vídedal saumu nótt og Glæsebær. Serlegur navta-davde á Skálhollts búinu í Fialle allann þann vetur og um havstid, so og á nockrum bæum þar í kríng.

Hirdstiórinn Pros Mundt kom út á varnar-skipe. Þeir tóku af Engelskum maunnum, ef ofnærre Islande láu, og so af fálka-faungurum allt hvad haufdu. Kom og út kóngs-bref, ad í avngvann máta skylde vid þá kavpa. Einnin boded fálka-faungurum, ad þeir skyldu ei sigla nema med Daunskum skipum frá og til Islands. Olafur Peturs son, sem umbods-madur á Bessastaudum vered hafde, hafde skrifad fyrer Kóng, og rægt allar stetter á Islande vid hann, hvad óskickanlega tilgenge, og bavdz til og bad, hann mætte hafa landid í len, og skylde allt soddán vidretta. Hann komz fyrer þad í ógunst vid hyrd-stiórann Pros Mundt, og flýde Olafur úr Danmork avstur í Svía vellde. Hafde hirdstiórinn spurníngar framme vid Is-lendínga á alþínge, sem kom til af supplicatiu ádur nefnds Olafs, fyrst, epter hvorre log-bók Islendíngar dæmdu nú, eda hef-

 du

du dæmt, hvad hún hete eda nefnd være, og beiddiz svars þar uppá. Þeir saugdu, epter log bók Magnúsar kóngs Hákonar sonar, er inn kom med Jóne logmanne, sem Magnúsar bref hermde. Hann spurde og kennevaldid, epter hvorre þeir dæmdu. Biskupar saugdu, epter þeirre Norsku ordinantiu epter Kóngsins skickan, hvoria ordinantiu Hr. Þorlákur hafde þá prenta láted á Islendsku.

Einnen spurde Pros Mundt biskupana báda og adra yfervalldsmenn, hvornin hondlad være med Christ-fiár-jarder epter Kóngsins brefe, útgefnu og innsendtu med Friderich Friis, og girntiz svar fyrer Michaelis messu, hvorin þeir lofudu. Eiñen girntiz hann ad vita Kóngl. Mayts vegna af aullum klavstra- og kóngs jarda-hauldurum, sem nockurt inventarium være med fylgiande, hvornveg med sama inventarium være medhondlad, epter því kóngs brefe, sem med sál. Herlufsda var í landid innsendt, hvornveg þad være frá komed, edur hvad til reikníngskapar være komed fyrer Kóngl. Mayst, hvort þad være vyrdt, selt og til reikníngskapar fært. Þeir lofudu svare fyrer Mikilsmessu, þad best yrde her um. Hann vilde og endelega vita af klavstur-hauldurum og audrum, sem kóngdómsins jarder haufdu, hvorsu gamlar og ótídkanlegar kluckur være í þeirra umdæme, og girntiz þenna reiknings-skap í sama máta. Item vilde hann hafa sama reikníng og registur af klavstur-stada og bænda jarda kyrkium. Þessu var og lofad hvad mogulegt være. Heradavk befalade hirdstiórinn aullum sýsslumaunnum á Islande, ad hvor skylde grandvarlega ransaka, hvorsu margar kóngsjarder være í serhvors sýsslu, sem fallnar være under Kónginn í þeirra tíd edur þeirra forveriara tíd, og ransaka þad inn-

virð-

virduglega, svar skylde koma í sama tíma, sem fyrr seger, so og þeirra jarda og jardaparta naufu uppskrifud á reikníngs registur. Item ad þeir sýsslumenn letu hann fá ad vita Kóngsins vegna med þeirra egen hende uppskrifad, hvorsu miked þeir uppbæru og medtæku í serhvort hundrad óvíst sekta-fe, og hvorsu dýrt þeir stædu þar af reikníngskap aptur til Kóngsins. Ansvar aptur í sama tíma, hvoriu þeir svaurudu ad vildu giora. Item ad þíngskrifarinn fenge einn dal af hvorium sýsslumanne, enn hann afhendte þeim, þad þeim bære úr þíng-bókinne ad hafa. Greindur hirdstióre vilde her um veturinn epter á landinu vera sosem Kóngurinn haunum befalad hafde. Og meintu menn, ad þetta leidde allt af óþaurfu skrife og illum róg nefnds Olafs Peturs sonar, hver þó fór frá Íslendskum sem trúr vinur, enn reyndiz sídan sem óvinur. Fe Olafs tók haufudsmadurinn, hvar sem var her á lande, hvad mikell og stór penníngur var. Hallded fiórdúngs þíng á Kópavoge epter alþíng. Þar kom til greina um þad gamla Botns-mál, og þá sett fyrer Kónginn og Danmerkur ráð. Þar sættuz þeir Arne lögmadur og Vigfús Gísla son. Reid hirdstiórinn í Skálhollt, og so þadan nordur um land. Var sett fiórdúngs-þíng á Hofe á Haufdaströnd. Þar kom til tals um þá konu, er aled hafde barn vid manne sínum, er sitt líf hafde forbroted ádur med barn-egn vid hennar systur, hvor af var teken fyrr enn þetta þíng var. Hafde þesse madur Gudmundur á laun vered í heradinu, og so barnad konu sína. Vildu þeir Daunsku einkum fógetinn Jens Sofrens son, ad sú kona miste lífed, enn Hr. Þorlákur biskup vilde þad ei, helldur hún være siunsaka, sem hann þar og bevísade med Doctorum og lærdra manna skrifum. Var málinu skoted af haufudsmanninum til næsta alþíngis. Hirdstiórinn

Pros Mundt reid so sudur, og siglde ei um havstid, halldenn giaf-þægenn og egen-giarn.

Teken þá Skagafiardar sýslla af Halldóre logmanne, og veitt Benedict syne hanns, sór siñ sýsslumanns eid. Hrólfur feck Nordur-sýsslu epter faudur sinn Sigurd móts vid Þorberg sinn faudur-bródur, sór og sinn eid. Ormur Vigfúsſon lagde þá af hálfa Borgarfiardar sýsslu, sem hann haft hafde. Henrich Gísla son tók þá vid henne aptur. Ormur vard ráds-madur Skálhollts stadar. Eggert Biorns son og Magnús Jóns son fengu báder Bardastranda sýsslu, sem sál. Magnús Ara son ádur haft hafde, sóru siñ eid. Benedict Páls son kom til Íslands, leystur frá Tyrkium med gialde.

Strid samt millum Keysarans og Svía, unnu ætid Svenſker á. Ræníngiar af Dunkirchen tóku Hausda skip med manñum og gótse í fram-siglíngu. Þar dó hiá þeim Christian Jonas son kaupmadur.

Anno 1637. Svipul vedur-átta uppfrá Jólum og jard-bann allvída til Jóla, og misjafnt þerre-sumar, gras lited, enn vanz vel ad heyum. Fiórer skip-tapar sydra, tveir í Hausnum, þar á 19 menn, einn á Stafnese og einn fyrer Garde frá Hvaleyre, vildu fara á Stafnes. Á þessum skipum druknudu 38 menn. Skip-tape úr Vestmannaeyum. Einn madur búande, úr Oxnadal, sem vilde ganga í Túngu-sveit, fannz davdur í tví-stædu vatne á Jokulsá í Skagafirde vid Herpistanga nær Flatatúngu, enn hanns gaungu-stafur stód uppfrá hannum, og so faunz hann. Hugdu menn hann hefde lagt sig áfram

ad

ad drecka, og runned so affram. Hlióp upp stýflad vatn yfer tvær konur og einn pilt vid Keldulands lavg í Skagafirde, dó konan aunnur og pilturinn, aunnur fannz lifande illa til reika. Þær haufdu fared med þvotta til lavgarinnar, gengu sunnudags myrgin epter gaumlum vanda þeirra, og er slíkt vidvaurun fyrer þá epterlifande. Tóku þeir sýsslumeñ Þorbergur Hrólfs son og Hrólfur Sigurds son í Þíngeyar-þínge þann útlæga mann Gudmund Jóns son, sem duliz hafde um landid í nærstu 3 ár. Hafde hann tiald á fiaullum uppe moslitad sem steinana. Hann var færdur Magnúse Biorns syne sýsslumanne í Vaudlu-þínge, og var sá madur þar hoggenn af Bessastada bodle. [Hann var atgiorvis=madur í maurgu, var bróder Síra Haldórs Jóns sonar á Ferinbacka og Snorra á Hærîngsstaudum í Flóa. O. E. S.]

Jens fógete var þá komenn í Eyafiord, hann sigldе í Vopnafirde. 1.) Kóngs bref kom til alþíngis um Jón Gudmunds son, ad hanns mál kæme aptur til Islendskra laga. Hann var dæmdur annad sinn aptur útlægur af aullum vors Kóngs ríkium. Þad fannz hann hefde mót Lutheri lærdóme skrifad. 2.) Kóngs bref um prest-skap Gudmundar, sonar þessa Jóns, ad hanns mál skylde ad nýu ransakaz. Þad kom til greina á alþínge, hann átte aptur ad fá prest=skap. Olafur umbodsmadur á Bessastaudum, sem þá var, hafde þessa fedga báda í málum haft, med því sem fleire adstyrktu um Jón Gudmunds son, er marger kaulludu lærda Jón. Haufdu þeir fedgar báder siglt, og vered í Danmork um veturinn. Þesse Jón þótte maurgum fiolkunnugur, og ad stórum mis saugnum kendur. Var Jón samt í landinu epter þessa útlegdar dóma.

Vildu

Vildu Danſker hann ei flytia, hvorke hofudſ=madur ne adrer. Enn Engelſkum var bannad nærre landinu ad leggia, ſo ad útlæginn mætte med þeim komaz. Enn þad er af, ſem kunnugt er, þó midur fare, ad Íſlendíngar hafe haf=ſkip edur ege þeirra rád; og ad því verdur oſſ, ad forfedur vorer hafa orkviſaz upp í þeſſum efnum, hauſum nú þad adrer á leggia. 3.) Kóngsbref um þær jarder og góts, ſem koma undan kyrkium fyrer kyrkiuhalldaranna forſómun, dæmdiz, ad ſkylde epter Magnúſar kóngs brefe lavſa=avra med laga=ſóknum ſækia, enn jarder med landabrigdum. 4.) Bref til biſkupanna beggia, ad þeir framfylge þeim tveimur brefum, er hlióda um olmuſu=giord þeirra, ſem fangader voru í Barbarienu. 5.) Bref til almúganns á Íſlande, ad epter ſinne formegan vilde leggia til fánganna. 6.) Bref, ad kyrknanna lavſa=avra ſkylde gialda fyrer fangana, einnen kyrkna=jarda þriggia ára afgift ſkylde þar til leggiaz, enn af audrum kyrkiu=jaurdum gefaz tveggia edur þriggia ára afgift. 7.) Einnin um þad, ef madur dylde ſig, og vilde ei ſtefnur heyra, ad þá leſiz ſtefnan á herads=þínge, og ad ſo tilreknu ſkylde ſtefnan duga, þó ſo, ad hrópad være þriſvar á þann, ádur enn ſtefnaz ſkylde. Fleira kom ut í þeſſum brefum, ſoſem ef menn klaugudu fyrer því ædra yfervalde, hvornveg fara ſkylde. Vor náduge kóngur Chriſtian 4de hafde ſendt miked giald í Tyrkia velldid, og útleyſt fangana frá Tyrkium, og voru þeir 36. Af þeſſum maunnum komu þetta ſumar út híngad 13 Íſlendſker. Þar var ein med kvinna Síra Olafs, ſem áre nærſta epter ránid apturkom. Hirdſtiórinn Pros Mundt hafde vered her í lande þetta ár, hafde miked mannhalld á Beſſaſtaudum, veitte gódar aulmuſu=giafer fátækum maunnum. Benedict Pálsſon bartſkere var hiá haunum þann vet-

ur

ur. Um sumarid siglde Pros Mundt epter alþing. Jens umbodsmadur siglde um havstid í Vopnafirde. Þá sáz serlegt teikn á Stafnese á siónum í hæg=vidre, þvílikt sem hvirfel-vindur fyke á siónum, og var eins til ad siá, sem syde í hver edur vellande katle, þar sem saugd roka umgeck, til þess hvarf um sider. Enn um morguninn epter forgeck þar tein ærfngur med 12 mannnum. Þad ár medtók Greniadastad Sira Gudmundur Biarna son epter sinn faudur. Halldór logmadur kreinktiz epter alþing, og var miog veikur þad ár út, hafde nær avngva fóta=ferd, leyste blód af innbyrdis veike. Illhuge Jóns son, sem þá var Hóla stadar rádsmadur, andadiz, er hañ var skaũt á leid kominn úr kavpstadnum Hofsós frá Daunskum dreingum, miog brádlega þann 10da Augusti.

Báru vid þav miklu og skelfelegu tídende, fá=heyrdu og undrunarsamlegu í Axdbrecku í Horgárdal um þann mikla dravgagang, ára edur illsku=anda, er þá ásóktu helst Jón Þorvallds son, só hann mátte nálega hvorge frid hafa. Þesser andar sáuz í allra kinda líke inn í húsum, arnar, vals, hrafna, item flugna, ullar=hnodra, sallt=hnattar og ímisslegra hluta, sem ei er umskrifande. Af þessum skelfíngum feingu marger menn áráser, ei sízt þeir, sem med Jóne til Bustarfells ridu avstur. Þetta útbreidde síg vída, drepner og hestár og avmkvunarlega med saklavsar skepnur fared. Atte ad beraz í dravma, ad þesser andar og dravgar væru uppvakter, og sender ad avstan Jóne til fordiaurfunar. Hann hafde rided á þessu havste avstur til Bustarfells til kon=bæna, ad bidia dóttur Biarna Odds sonar er þá hafde Avstfiardar sýsslu. Biarne var heima, er Jón kom í fyrra sinn. Var honum vel teked og hanns mannnum veitt vel. Sídan gaf Biarne handskrift sína Jóne,

Ll og

og tók vel þessare málaleitan, var og tilsettur tíme, ad Jón skylde apturkoma um Michaelis-messu, og skylde þá frekara her um giort verda, epter ordinantiunnar hliódan. Reid Jón so heim til sinna forelldra, og beid þar um þann tíma heima, þar til hann reid avstur aptur. Sýktiz einn hanns manna og vard epter fyrer avstan, þar til Jón aptur kom. Vildu sumer halda, ad þessar sendíngar edur áráser hefdu fyrst niðurkomed á haunum. Hann lá 5 vikur nær davd-vona. Þesse madur het Biorn og var bróder Jóns. Kom Jón so aptur í tilsettann tíma til Bustarfells. Var Biarne þá og so heima, hann tók vel vid Jóne og hanns fylgiurum og var þeim vel veitt fyrstu nótt. Reid Biarne so í burt án þeirra vitundar snemma um myrgininn, og letz ætla ad rída ad næsta bæ ad fá mann, til ad senda eyrinda sinna út á Langanes. Hann kom aldrei aptur þad sinn til Bustarfells, helldur reid hann og so siálfur med sínum maunnum til sinna útrettínga. Jón og hanns menn bída nockurar nætur samt epter burtfaur Biarna á Bustarfelle, sídan reid Jón med sínum fylgiurum sína leid heim aptur til sinna heimkynna. Þóttiz hann þá alltíd verda meir og meir var vid áðurskrifadann dravga-gang og ónádan illra anda. Þetta varade langt fram á vor, þó nockud í minnkun være þegar á veturinn leid. Herum meir ad sinne læt hiá lída ad innseta, hvad Jón og hanns fólk og nákomner náúngar af þessum diofulsins áráſum lidu. Sorte á túngle 21ta Decembris um morguninn í út-nordre, þad var þá fullt, vard dockt nær allt, hvad þó Almanak Danskra affagde skede á því áre. Deyde sú fróma kvinna Gudrún Illuga dótter þann 21. Decembris, um kvolldid um dagsetur á Reikiarhóle í Skagafirde, allдurs 74 ára, kvinna Sira Þorsteins Olafssonar, sem var í Vesturhópshólum, góð kona

kona og guds=Packa=giaurn. [Miked Þurka-sumar frá alþinge til vetrar. O. E. S.]

Anno 1638. Vetur misjafn frá Jólum. Hluter miog mikler á Sudurnesum og avsturum; so i næstu 50 ár hausdu ei slíker hluter orded; skip fengu nær lestar hlut. Hluter góder og fyrer Jokle, þó ei slíker sem sydra. Tveir skip=tapar á Hiallásande, drucknun 13 manna, nádiz einn nær and=vana, lifnade vid. Drucknun 3 manna vid Arnarstapa. Ein kona drucknade í Hialtadals=á í Skagafirde. Drucknun 2ia brædra á einne slæmre flat-bytnu frá Hvalnese á Skaga nordur á Ølvers-vatne á Skaga-heide um vorid. Kvef=sótt mikel med take geck um landid, dó margur madur. Haum=sun og legur ferdamanna þar af, dóu tveir menn á sudur-vege, og grafner á Þíngvollum um alþíngis tíma.

Deyde Hr. Gísle Odds son biskup í Skálhollte á Þíng=vollum um alþíng þann 1.*] dag Júlii, fór veikur heiman til þíngsins, vered 6 ár biskup, fluttur í Skálhollt og þar grafenn fyre framan kór-dyr, hógvær og lítelátur herra. §]

Ll 2 Hirds=

*) Al. 2.

§] J audru Exemplare er eptersylgiande annoterad: Naufn þeirra presta, sem Hr. Gísle Odds son biskup alls vígde, af haunum siálfum til minnis uppteiknud þann 1ta. Maji Anni 1638.

J Avstfiordum:

| | |
|---|---|
| Síra Olafur Magnus son. | Síra Svondur Ketils son. |
| Ragvalldur Ormis son. | Halldór Ketils son. |
| Eyrikur Olafs son. | Einar Jóns son. |
| Eyvindur Biarna son. | Svondur Laurentius son. |

Síra

Hirdstiórinn Pros Mundt var á alþínge. Komu eingen kóngs bref þad sumar. Lagdiz sá heidursamlege Herra Halldór Olafs son logmadur á Þíngvelle, var ei fær til nordur-reidar. Hañ var fluttur á saunnu kvik-triám og Hr. Gísle Odds son í Skálholtt, og andadiz þar hinn 8da Júlii um sólar upprunna sunnudags myrgin (en Hr. Gísle Odds son andadiz um sól-setur hinn næsta sunnudag fyrer); þá hann hafde þar eina nótt vered, medtefed þar og h. sacramentum. Hafde hann þá vered 19 ár full logmadur, og seted 20 sumur alþíng med því seinasta. Hañ var einn frómur og gudhræddur herra.

Þetta sumar sáz blód á siónum í Avstfiordum, sem í fleckum eda leingium af hafinu og ad landinu. Madur átte barn vid systur konu sinnar á Seltiarnarnese, þav bæde rettud á Kópavoge. A Straundum avstur stöck einn madur í sió, og fyrefór ser siálfum. [Þá kom upp elldur fyrer avstan um veturinn um vertíd. O. E. S.]

Kom

| | |
|---|---|
| Síra Sigurdur Arna son. | Síra Sigurdur Biarna son. |
| Jón Hoskullds son. | |
| Fyrer sunnan: | Fyrer vestan: |
| Sigurdur Jóns son. | Halldór Marteinns son. |
| Arne Claus son. | Halldór Jóns son. |
| Biorn Hoskullds son. | Sigurdur Olafs son. |
| Magnús Páls son. | Gunnlavgur Snorra son. |
| Þórdur Gudmunds son. | Jón Magnús son. |
| Þorsteinn Biorns son. | Jón Ara son. |
| Olafur Gísla son. | Asgeir Einars son. |
| | Jón Brands son. |

Síra Þorbiorn Einars son og Síra Jón Dada son vígduz fyrer Nordan.

[Kóm út híngad Briniólfur Sveinsson í annad sinn epter sína 12 ára veru utanlands med aullu, 6 í academienu og 6 í dóm skólanum í Roskild, og ætlade ad selia sína arfa og egur her í lande, og reisa í framande laund til meire ydkana, hvar uppá hann hafde fenged og styrk capitulans af Roskild, sem lofade haunum árlega 60 rdm, og hafde hann medteked stipendium þess fyrsta árs, fyrr enn hann þadan reiste. Enn sem hann var á alþinge, deyde Hr. Gísle Oddsson þar á þinginu. Ferdadiz Briniólfur þadan vestur á leid síns eyrindis, enn er hañ kom í Stafhollt og tafdiz þar, komu haunum bref ad avstan úr Skálhollte um hanns kosníng í stadiñ Hr. Gísla, hvor hañn medtók ad óvilia sínum, og lofade frañ ad bera, enn hann sagde ser þetta frá-sinnis vera, og lofade þar í mót sitt afsaukunar bref ad innleggia. Reid hann sídan vestur af og í Onundarfiord, og fann sinn faudur þá í nockur ár karlægann í Hollte, og ferdadiz sídan epter hálfann mánud nordur á leid til útsiglíngar, og sigldе um Kross-messu-leite á Akureyre. Hanns alldur þá 33*) ár. M. B. S. S.]

Deyde Henrich Gísla son á Hólme, sýsslumadur í Borgarfirde fyrer sunnan Hvítá. Hanns son Þórdur feck sýsslu þar aptur. Sunnan-stormur á Sudurnesum þann 22. Júnii. Dó Tumás skálld Hallsson, og brotnade skip í Grindavík. Deyde sá fróme kennemann Síra Sæmúndur Kársson, prófastur í Skagafirde, þann 19. Júlii, alldur 82 ár, hellt Glaumbæar stad 44 ár, hellt sínum aullum burdum, heyrn, sýn og mále inn til dauda-dags, sofnade hæglega. Deyde Þórdur Þorláksson ad Mærd-



*) Al. 34.

Mærdargnúpe, bróder Hr. Gudbrands biskups, hálfſtrædur ad alldre, einn frómur madur og gud-þackar-giarn. Biskup Hr. Þorlákur stefnde saman um nordlendínga fiórdúng prófaustum og prestum um vorid á Flugumýre, ad samtaka hvad heutugast og hæfelegast være ad af peníngum legdiz frá kyrkiunum, þeirra iñtekt eda inventarium, þeim herteknu til lausnar, so Kóngsins nádar-brefum være fullnægia giord hvad frekast mætte. Peníngar þesser frañsender í kaup-staudunum um havstid, einnen og frañsendt þgd almúginn tillet. Forgeck skip á Siglunese, druckuudu 4 menn. Druckuun 8 manna í Flatey nordur á skipe. Druckuun manna á Sudurnesium í sýru-ferd. Brann bærinn á Tindum í Húnavatns-þinge af voda-ellde. Rak óvanalega fiska á Vestfiordum med undarlegre mynd. Deyde sú sæmdar-kvinna Elen Páls dótter á Modruvollum í Eyafirde, alldur 67 ár, er átt hafde sá heidurlege mañn Biorn bónde Benedicts son. Varnar-skipid, sem í Seylunne lá, og Hirdstiórinn siglde hingad á og so burt, átte ad koma aptur um sumarid, enn kom ei, hvad haufudsmadurinn hafde þó rád fyrer giort, og lá hanns kaupmadur her um veturinn og adrer 8, sem skipsins bída áttu. Kom ís fyrer nordan, þá hálfur mánudur var af vetre, hann vofrade fyrer lande þennann vetur gagnlaus til afla. Stór stúk 4 dægur med haurkum þann 13. og 14. Novembris, urdu fiár-skadar um Sudur-landid vída. Þá dóu og fuglar sydra, suku til jardar og væng-brotnudu hrafnar og riúpur.

[Þann 14. dag Septembris deyde Hans Resen biskup í Sælande. Vard aptur í hanns stad biskup Doct. Jesper Brochmann. M.B.S.]

Anno 1639. Vetur hardur frá Jólum. Is vofrade kríng-

kríngum landid þann allann vetur, kom avstatt fyrer land og so fyrer Sudurnes, hardinde mikel stódu af haunum, hann gagnlavs í alla stade. Sela-tekía eingen fyrer nordan land. Vída penínga feller af stormum og jard-banne. Hluter sydra og vestra mikler. Fiogur skip fóru af Sudurnesum í Geyrfuglasker til afla-fánga um sumarid aundverdt, forgeingu 2 med aullum maunnum, hin komuz ad lande umsíder med mikille neyd. Dó einn madur af audru, er í land kom. J sama vedre forgeck og skip med aullum maunnum fyrer Garde. Voru á þessum skipum 32 menn, sem líse tíndu. Kvein og grátur mikell var af þessu á Sudurnesum, þadan var flest fólk. Þar voru epter 18 eckiur, sumar med miklum barna-fiolda, sú med fæstum er tvo átte. Drucknade madur einn í Kolbeinnsdals-á í Skagafirde.

Drucknudu 4 *) menn á Vestfiordum í Arnarfirde, sóktu hey, duttu sofande útbyrdis af dysinne, hún leystiz sundur under þeim, og dreckttuz so. Þeir haufdu fared á helgum dege til þessa síns starfs, hvad stór vidvaurun er. Madur einn átte barn vid stiúpdóttur sinne í Vodlu-þínge. Hann tekenn og rettadur, einnen var konunne dreckt. Sáz víga-brandur á loptinu oftar enn einu sinne um Borgarfiord og vídar. Gras-ár líted fyrer saker frosta og nordan-kulda-vedra. Vavlu-havstr hardt til jardar fram ad Jólum, lógndu marger fiám. Ofanfalla-regnid mikla á Góu-þræl, og fiogur dægur í samt, so aldrei vard upprof. Fengu marger menn þar af stórann skada á heyum og húsum, og nyt-spilling kú-fenadar, er ei hellz vid í fe-

*) Al. 3.

fe-húsum. Einnen fellu í því stór-regne skridur yfda med vatna og leirs yferfalle, so laundin, tún og enge mættu stór-skemdum, og þetta geck nálega um allar sveiter. Bæna-dagar hálldner Nordan-lands epter bodan og tilsaugn Hr. Þorláks biskups þann 6. 13. og 20. Novembris.

[Afhendte Mag. Brinjólfur Sveinsson bref landsmanna um hans kosning og þarmed sitt afsaukunar bref þar á móte Cancelleranum Christián Frís, er þad skylde fyrer Kongl. Mayst frambera, og beid so ansvars í Kaupenhafn í herberge hiá Jacob Peturssyne, her í lande fordum umbodsmanne. Feck um vorid í Aprili aptur bod, ad serdeilis skolans vegna yrde *) landsmanna kosningu gegnt ad verda, um hvorn þeir þó ei eitt ord gátu, og skylde hann því á Kóngs fund (er var í Gluckstad) sækia. Feck því af Cancellera frí vega-bref, um Sæland, Fión og Jútland ad ferdaz á vagne. Hafde þetta mál komed fyrer hálærda til ransaks á Consistorium, og haufdu þeir adstúnged um skóla þaurfina Cancelleranum. Fór hann so hálfum mánude fyrer Páska af Kaupenhafn til Roskild, þadan til Ringstad, so til Kross-eyar yfer land, sídan á skipe yfer Belltis sund til Nyborgar á Fióne, þadan á vagne til Odinseyar, og só til Medalfars og yfer sundid, sídan til Kolding, þadan til Hadersleif í Holstein-lande, þadan til Flensborgar, Rensborgar Jetzoh, og so til Luckustadar. Giorde Mag. Brinjólfur sinn biskups eid fyrer Kónge þann 15. Aprilis á faustudag fyrer middege, og var sídan á þeim dege til bords bodenn yfer Kongl. Maysts egen borde, og sat þar ad máltíd. Reiste sama dag

*) Annad tilleggur: ei lavs yrde.

dag frá Luchustad heimleidis aptur um Holsetuland, Jútland og Fión, og var í Odensey gestbodenn af biskupinum Doct. Hans Michelsfyne, fór sídan yfer til Sælands, og kom til Sorey, og var ad herberge hiá Mag. Stephan Hans syne, Professore, sínum gódum lang-vin, fór þadan til Ringstad, og var til herbergis hiá Jorgen Seefelld, herra-manne og lands-dómara í Sælande, um alla Páskana, og fór sídan þadan til Roskildar og so til Kaupenhafnar. Þann 29. Aprilis var M. Briniólfur Sveinsson examineradur af Doct. Jesper Brochmann biskupe í Sælande, og medtók af Cancellario sitt embættis-bref. Þann 5. Maji, sem var Dominica Jubilate, var Mag. Briniólfur S. S. vígdur og ordineradur til biskups í Skálhollte af Doct. Casparo Erasmio Brochmanno, hver og sama ár vard biskup í Sælande í stadinn Doct. Johannis Pauli Resenii, og var hann sá fyrste biskup sem hann vígde í Worfrúr-kyrkiu í Kaupenhafn. Þar stódu yfer vígslu; M. Olaus Wind, M. Nicolaus Paulinus, hic divæ Virginis, ille Sancti Spiritus Ecclesiastes primarius, M. Balthazar, Dominus Nicolaus Janus &c. Viku þar epter ferdadiz biskup til skips, kom út á Eyrarbacka litlu fyrer alþíng og til stólsins í Skálhollte 27. Junii um sólar uppkomu, sem var sunnudag, reid sídan uppá alþíng. Þann 6ta Júlii var afhendtur stadurinn í Skálholte af erfíngium Hr. Gísla sál. Oddssonar, Síra Sigurde Oddssyne, sem vered hafde Officialis dóm-kyrkiunnar, og Hr. Arna Odds syne, logmanne sunnan og austan á Íslande, í vidurvist Orms Vigfússonar og Jóns Gissurs sonar, sem þar finnz í registrum. Viku epter Þorláks-messu reid Mag. Briniólfur Sveinsson sína fyrstu visitatiu-reid yfer Vestfirdínga fiórdúng, og kom aptur heim

Mm viku

viku epter Kroſſmeſſu, tók þá gloggvann reikníng kyrkna, ſem ſiáz má í hanns máldaga-bók. M. B. S. S.]

[J þeirre viſitatiu viſtadiz Torfe Jónsſon frá Núpe í Dýrafirde til ſíns faudur-brodurs Biſkupſins, epter þad hann hafde vered 6. ár í Skálhollts ſkóla. Hanns ſkólameiſtarar voru þeir Síra Jón Araſon og Síra Biorn Snæbiornsſon. Var hann ſo hiá biſkupinum tvo ár, kreinktiz þad ſídara, ſo hann vard ei fær til framſiglíngar. Síra Torfe J. S.]

Vard Magnús Biornsſon logmadur á alþínge med vilia og hardfylge hirdſtiórans Pros Mundt, sór eid í logrettu med kne-falle. Kom út kóngs-bref, ad óſka peninga af Jſlande, verda mætte ófridar være von í ríkinu. Herad fylgdu Danſker ſtórlega, og ſkautrudu Sudurneſínga, enn ſýsſlumenn ſkyldu þínga her um á landinu, hvad þeir og giordu um ſumarid. Og voru framſender peníngar í kavpſtaudunum epter Kóngſins bón, þó minna være af þeim ríku, enn Hirdſtiórinn áſette. Einnenn var miked adfylge af Haufudsmanninum um framſærſlu á Kóngſins lenum um þann fiórda dal hvors hundrads, er þeir helldu ecke hefde vered reikníngur af-ſtadenn. Her ímót ſtód helſt landſins vegna til ſvars og afſaukunar ſá heidurlege mann Gudmundur Hákonarſon innan logrettu og utan, og færde framm ſkrifleg anſvaur uppá hvoria grein þá prentudu, ſem fyrra árid útkom, og leik-maunnum ſerdeilis tilhlýdde, med ſamantekinne ſupplicatiu, er til vors nádugaſta Kóngs ſendaz ſkylde, med avdmiúkre afbeidne um þá framſærſlu. Hvoria ſupplicatiu ſá heidurlege mann let ſeta á Daunſku, og kom henne ſiálfur á Hird-

Hirdstiórann til framfærslu; þó tregt geinge. Hvaraf sá virduglege mann feck miked lof og mætañ orstír. Brullaupid á Modruvollum í Eyafirde, er Magnús løgmadur hellt dóttur sinnar Helgu. Hennar feck Hákon Gíslason, sonur Gísla løgmañs Hákonar sonar. I því brullaupe var biskup Þorlákur og hañs kvinna Christín Gísla dótter og margt vildar-manna.

Nær um haustid á Þíngeyra sande í Húnavatns-þínge eina undarlega skepnu edur sió-skrímsl, ad leingd og digurd sem mañs líkame. Þad var med sio haulum, og hvoreinn ad leingd vel tvær álner. Þeir halar voru med al-settum hnappa-myndum, og hnapparnir voru ad siá, sem í serhvorre myndinne være sem augu-steinn, og í kríngum augu-steinana sem augna-hvarmar, þeir hvarmar voru ad siá, sem være þeir forgylltir. A því sió-skrímsle var heradauke einn hale, er út var vaxenn fyrer ofan hina halana, sá var ofurlangur, 4 edur 5 fadmar. Eckert bein edur brióst var í þess corpore, helldur allt ad siá og finna sem grásleppu-hvelju-kvidur, og eingin mynd sáz til hofudsins, utan þad eina hol edur tvø, sem voru aptur vid halana edur skamt frá haulunum. Þessa saumu skepnu skodudu marger ærleger menn, og einn halinn af því skrímsle var hafdur til sýnis heim til Þíngeyra. Þesse sió-fiskur er líkast til ad heite Ygull, og hafe nafn af þeim maurgu og faugru hvarma-augum, sem á hanns haulum edur sund-fiaudrum eru. Hvors fisks Ygull nafn nefnt er í Eddu-bók med audrum fiska naufnum. Fordeck kaupskip í Grindavík, skemdiz og góts, meirn helldur líke. Vantade Keblavíkur skip framhyfer alþíng, kom þá síðar. Kom sid-sumars aptur annad skip í Grindavík, og annad í Hafnarfiord ad sækia skreid og annad góts. Um vorid brotnade



annad

annad kaup-far í Grindavík þridia í Hvíta-sunnu, rak uppá griótid fyrer framan Hópid med aullum farme af sunnan=vedre. Sídan lagdiz haufnin af, enn teken upp aptur Bátusenda haufn, ádur leinge aflaugd. Af þeim 4 skipum, sem fóru í Geir-fugla-sker, og hrepptu nordan-vedur vid skerid, komuz 2 uppá Reykianes, epter miked sió-volk og hrakníng, menn yferkomner af húngre og þorsta, voru úte ellefu dægur. Dó einn madur af þeim þá í land kom. Eitt af þessum skipum var frá Stad í Grindavík, og annad frá Hvalsnese. Hid þridia sem var frá Stafnese forgeck, og fiórda frá Mássbúdum. Á þeim fóruz 32 menn D. E. S.]

Benedict Páls son feck Modruvalla klaustur, lagde frá ser Hóla-stadar umbods rádsmennsku. Afhýddur sá strákur Sanda Oddur á alþínge, fyrer ill-yrde og hindur-vitnis bland, sem á haunum funduz á Þínginu. Voru þav blada-tetrar brend fyrer hanns naufsum. Heyrdiz alldrei til hanns góð ne gudleg ord, edur sáz nein ydrun, audruvís enn þá ad svæluna lagde í hañs naser, talade hann þessa hiegóma mál-leysu: **Þad veit Kreis-tur minn! eg þole þadecke.**

Um havstid hafde Kóngurinn af Spanien sendt og útgiort móte Hollendskum 67 orlaug skip. Þar af voru 30 Galiót-skip, sum uppá 1000, sum uppá 900 og sum uppá 800 lest-er. Haufdu hvor þesse skip uppá meir enn 100 manns, og sum 70 fallstycke, sum 68, 66 edur 60. Í þessum mek-tuga skipa=flota voru 6 skip af Dúnkark kostulega utbúen, sum med 40, sum med 38, sum med 30 styckium. Item voru í þessum flota nærre 30 skip af hinum og audrum borgum í

Þýd=

Þýdskalande, Hamborg, Lúbeck ꝛc. Hafde sá Spanske Kóngur teked skip þesse til þiónustu positive, er þeir kalla. Hvort þessara skipa hafde uppá 20 fall-byssur edur meir, vel útbúen ad fólke. So voru nú þesse ádur-greind skip so mektug og merkelega útbúen, ad menn meintu þad munde óyfervinnanlegur flote vera, og þvílíkur hefde alldrei í Nordur-sió komed. Voru þau stóru Spaunsku skip so útbúen, ad ei orkudu á þau fall-byssur edur þeirra skot. Sem nú þesse mektuge skipa-flote var enn ei komenn í Nordur-sióinn á mille Franka-ríkis og Englands, fann þá Admiralen af Hollande á 12 skipum, og feck sídan til sín í saumu viku Admirala á 5 skipum. Þesse med sínum 17 skipum lagde til orustu vid þann Spanska flota, og helldt slag vid hann í heila tvo daga. Í þeirre orustu tók sá Hollendske eitt skip af þeim Spanska flota og skaut í sió; eñ siálfur miste hañ eitt af sínum skipum, hvort er fariz hafde af sínu egen púdre, og upp-sprúnged. Um síder þravt Hollendska púdur, og urdu því ad sigla til Colis epter púdre. Í þeim svifum komu eñ 12 Hollendsk strídsskip til þeirra, so þeir Spaunsku vogudu ei nú ad strída vid þá leingur, og sigldu til Englands í haufn eina, sem heiter Dunis. Hefur Englands Kóngur þar 3 litla kastala til ad veria haufnina, þá vid þarf. Í haufninne láu fyrer 14 Engelsk strídsskip. Þangad sigldu Hollendsker, og letu atkere sín þar falla út frá þeim Spaunsku og Engelsku, og helldu þeim Spaunsku þar nær sem 3 vikur, og fengu so á medan fleire skip, so þau urdu umsíder nær 100, vel útbúen strídsskip. Nú fyrerbýdur Englands Kóngur þeim á báðar sídur bæde Spaunskum og Hollendskum þar fyrer sínu lande sláz, og heitadiz vid ad falla med sínum stirk uppá hvorn, sem fyrre vekte þar bardaga. Hollendsker haufdu tilbúed eitt skip med ellds-

 virkium

virkium, sem allt brenner, sem nærre kemur. Þetta beid so til þess einn dag, er vindur stód á land. Þar til skickudu Hollendsker 30 skip til ad gegna skipum Kóngsins af Englande, ef þeir sneruz í lid med Spaunskum, enn med hin 70 skip sín sóktu þeir Hollendsku ad Spaunskum med soddan grimmdar æde þar strax í haufninne, ad þeir brenndu og skutu í sió mest allann þann Spanska flota. Suma, sem ad lande undan hleyptu, brendu þeir upp vid landid, hvorsu sem þeir af kaustulunum vildu þess varna med stór-re skot-hríd, þá hafde þad ei ad segiá. Þar til varade þesse hríd, ad af aullum þeim Spanska flota komuz ecke óskemd úr haufnińe utan ein 16 skip, epter hvorium þó ad Hollendsker sigldu, og tóku þar af sum, brendu sum, enn skutu sum í sió, so ei komuz lofsins undan utan ein 6 skip, sem best gátu siglt, af þeim mektuga og mikla Skipa-flota. Voru so á litlum tíma so mektug og maurg skip eydelaugd, teken og skoten, hvílíks sigurs valla finnaz dæme. Hvarfyrer í aullum borgum í Hollande halden er þackargiordar dagur í slíka sigur vinníng med stórum triumph og feuer-verkum.

Anno 1640. Vetur jard-bannsamur fyrer nordan land frá Jólum, fellu miog peníngar, savd-fe og færleikar, einnen allvída navt-peníngur af hey-leyse. Hardinda vor, biargleyse fyrer almúganum. Hluter mikler á Sudurnesum og einnen fyrer Jokle. Afbragds gódur vetur til Jóla, lagde ís á vautn med fyrsta, tók af sídan med þíd-vidrum. Tveir skip-tapar urdu á Eyrarbacka Auskudaginn. Drucknun 4 manna á Vatnsleysustraund. Einn af þeim var Gudmundur Jóns son, logréttumadur frá Brunnastaudum. Drucknun Hallgríms Jóns sonar Sigurds sonar logmanns um vorid í Grafará í Skagafirde. Drucknun Símonar Gísla sonar í Blaundu um snió-brú. Drucknun Jóns Haldors sonar í Hellis-á í Nordurárdal. Item Druck-

nade

nade einn madur í Laugá á Skards heide, item einn madur í Heradsvautnum í Skagafirde. Og enn þá sídar um sumarid druckmudu tveir menn í Heradsvautnum, Jón Jónsson Olafssonar Orms sonar, er med ófraṁsŷne og galenskap reid úti ófæra vad=leysu, og Erlendur Þórfinnsson Sigurdssonar, er hlióp til og vilde hiálpa Jóne, náde til hauns, og dróuz so báder frá lande í vatnanna diúp=hyl, og tíndu so báder sínu lífe. Þann 23iá Martii mánadar, um adra stund epter middege og þar fyrer og epter, sáz einn mikell hríngur rett um há=loptid, og geck hann um midia sólina og hinar tvær, ulfinn og gíliun, hvoriar allar gloggt sáuz. Í kríngum adal=sólina var einn annar hríngur minne, sá geck í gegnum hinar ulf og gíl og so ad hálfu uppí þann mikla hríng, og geck eitt belte gegnum hinn nedre, fyrer nedan sólina, enn uppfrá ulfinum og gŷlnum. Voru sólar=hvítur miklar. Einnen uppfrá sólunne, þar er hríngurinn minne geck leingst upp, geck og eitt bellte íboged med faugrum hvítum lit, og horfde bugtin nidur. Og rett í há=lopte í þeim mikla hríng voru og hvítur margvíslegar, so og í þeim mikla hríng gegnt sólunne voru hvít=bleiker sólar=hrínger 5. Þeir saugdu, sem allt loptid sáu, og ecke meinudu fiaull, ad saumu mynder, sem voru fyrer ofan sólina, hefdu vered fyrer nedan einnen og ofanundan henne, og hálfs regnboga mynder hvoriu megen frá henne og bugarner ad sólunne. Vard slúlka brádkvaudd á Sandhólaferiú. Sofnade í Gude Erlendur Ásmundsson sŷsslumadur í Árness sŷsslu. Sáz vígahnottur og vígabrandur á Maríumessu seinne, hvorttveggia sama kvolld, ad sagt var. Tók Jón Halldórsson rádsmannsdæme í Skálhollte siálfann Nŷ=árs=dag. Storm=vidre mikel adfara nótt hinns 4. Decembris, hrosladiz ylda um hús og hey, brotnude 30 skip fyrer nordan land, tók

upp

upp úr hrófum og naúſtum. Einnen brotnudu þá 18 ſkip um Sudurnes. Þá tók upp og brotnade allt í ſundur þad litla hvolfda tre-virkis hús fyrer Reineſtadar kyrkiu, ſem vered hafde Sancta Sanctorum þeirrar miklu tre-kyrkiu, ſem fordum var á Reyneſtad, og Jón Jónsſon logmadur hafde láted ofan taka þá nær fyrer 70 árum, er hann hielt Reyneſtadar klauſtur.

Hirdſtióre var hinn ſame. 1.) Kom út kóngs bref um ſtadfeſtu logmannsdæmis Hr. Magnúſar Biorns ſonar. 2.) Annad bref um þad, ei hækkiz forlénıngarnar, epter því ſem fyrra árs ſuppliceran Gudmundar Hákonarſonar óſkad hafde. 3.) Item kom út Kóngel. Majſts bref, ſtadfeſtíng uppá Kópavogs dóm. Hann hlýder um kaupſkap vid Danſka og ſkulda reidur og ſaker þará, hardur og óþarfur Iſlande. 4.) Einnen kom bref, ad blód-dálkur takiz úr fiſkinum þá ſlattur er. Þeſſu komu Iſlands reidarar af ſtad. Sendu þeir Iſlands reidarar þad ſkip á Bátsenda haufn, ſem í Grindavíkur haufn ſkylde liggia, vildu yfergefa ſkipa-legur þar, ſaker ſlisfara ſkipanna fyrere. Þetta miſlíkade Grindavíkur búendum. Magnús logmadur reid af alþínge til Beſſaſtada, og þadan í Skálhollt á ſamt umbodsmanninum Jens epter ſkickun haufudmannſins med fleirum valldsmannnum, ad ſemia edur dæma millum M. Briniólfs biſkups [ſem hann badz á alþínge] og erfíngia ſál. Gíſla Oddsſonar biſkups, ſem voru, Hr. Arne logmadur, Sira Sigurdur, Eyríkur og Margret, um peninga Skálhollts ſtadar, gylldleika á þeim og þaurfnum, um útſiglíngar tillag og á-vaurt á ſtadarins gótſe þad ár, um ſkilríke fyrer ſtadnum og ſtadarins egnum, og um fyrnd og laſleika Skálhollts kyrkiu, med því fleira, er þad bref innehelt, er Mag. Briniólfur upplas á

alþínge

alþínge, og leidrettíngar á beiddiz. Þetta allt var samed og sett nidur í Skálhollte. Skyldu þeir Arne lögmadur og brædur hanns fá Mag. Briniólfe 1 hundr. hundr. í jaurdu, hvad þeir og giordu, enn hann vera þá í borgun um Skálhollts reikníng sídarmeir.

Hallded handsals öl Mag. Briniólfs biskups og Margretar Halldórs dóttur lögmanns á Skridu í Horgárdal 9. Augusti. Þar var biskup Þorlákur og Magnús lögmadur, Vigfús Gíslason sýsslumann, hvor er kom ad sunnan med biskupinum, og margt annad gódra manna. Item hallded brúdkaup biskupsins M. Brinjólfs Sveinns sonar í Skridu 30. Augusti med mikelle rögsemd og kostnade. Þar var enn þá Þorlákur Hóla biskup, Magnús lögmadur og margt annad frómra manna. Reid husfrúin Halldóra Jóns dótter þadan med Hr. biskupinum og dóttur sinne Margretu, ásamt audrum sínum þreimur dætrum til veru og vistar í Skálhollte. [Deyde Jón Magnús son elldre sýsslumadur á Haga á Bardastraund dag 15. Növembris, og á sama áre litlu fyrre hanns kvinna Astrídur Gísla dótter. Skiptapar tveir á Breidafirde, annad farma-skip úr eyiunum, hitt var frá Helgafelle, ætlade út í eyar, fannz skipid med 2 mannunum orendum, hinn þridie fannz ei. Á Þorláks-messu um sumarid í Selvoge vellte pilltur nockur steine ofan fyrer hól edur brecku óvart, kom steinninn í hofud á stúlku, er svaf under hólnum. Hún lifde epter tvær nætur, enn pillturinn stravk burt. O. E. S.]

Miked strid utanlands í aullum áttum á sió og lande, tan í Danmork horfdiz hellst fridsamlega til. Þó voru um

allt hid fyrra sumarid aull Kóngsins skip ferdug og tilbúen; þarmed hafde hann til reidubúen 20000 lands=soldata, og sókte þó ei á neina, og adrer ecke á hann. I Hollande var þá í annad sinn forbod af Danmork, ad eingen skip úr aullu lande mættu sigla í neinar Danskar hafnar, og ecke til Norvegs, og ei helldur til Eyrarsunds. Hvad þeirra meining þarum var vissu menn ecke. I Svíarike voru og aull skip til nærre 80. Var og ei vitanlegt hvad þeir þarmed meintu. Einn legate af Danmork reiste til Svíarikis, og var þar vel tekenn, ferdadiz sídan aptur til síns herra Kóngsins til Kolding, hvar hann um veturinn sat. Annars var kyrrt í Danmork. I Þýdskalande var enn samt stríd um allt landid í aullum áttum. Franser voru þar í tveim hópum, so og Land-greifinn af Hessen med sinn her, þaradauke hertoginn af Lyneborg med sinn her, sem hafde lagdz um Wolffenbüttel, hofudstadinn í Brunsvíkur lande, sem Keysarinn hafde leinge haft. Þesser aller halda eitt med Svenskum í móte Keysaranum og Spaunskum, so og ímót hertoga af Sachsen og Brandenborg, sem med Keysaranum eru. Og eru nú Svenser aptur innkomner í Böhmen og þar um allt Þýdskaland, og hafa innteked margann sterkann stad, og umhleypt þá borg, sem Keysarinn siálfur var inne med sína Keysarinnu og flesta Þýdska ríkis-herra. Sú borg heiter Regenspurg. Þar hielt Keysarinn ríkis-dag, og komu so Svíar á mótid, og baud hann þá Svíum frid og forlíkun. Hvørnen þad tilgeck, spurdiz ei þad sama ár. Kóngurinn af Spanien hafde og margt óvina, þvíad eitt kóngs-ríke áfast vid Spanien, sem heiter Portugal, var aldeilis frá honum falled, og haufdu útvaled ser annann kóng, og hafa so stríd vid þann Spanska Kónginn. Þaradauke eitt megtugt land Catalonien var og so falled frá þeim Spaunsku,

og

og eru forlíkader vid Frankarike, og strída so uppá Spanska. Þarmed hertoginn af Lotharingen var og fállenn frá Spaunskum til þeirra Fraunsku. Kónguriñn af Frankarike stríder og einnen uppá hann (Kónginn af Spanien) í aullum áttum, og náde af haunum þad fyrra sumarid tveimur mektugum borgum. Med Engelskum og Skotrum var og so miked stríd hid fyrra sumarid, so ad Skottar fellu inní England, og tóku þar 9 kastala og fleire smá-borger, og eru þar ennu, þó (ad saugn) forlíkadiz þad, og eru þeir nú í búnínge til heimferdar í Skotland. Drottenn vor herra gefe oss frid og samþycke.

Anno 1641. Þá var hardur vetur frá Jólum, og frameptir aullu um vorid miog hardt, enn serdeilis vóru jardbaunnin á Þorranum, og anndverdlega á Góinne, enn frost þess meir sem áleid meir, þó batnade 4da dag í Páskum, og var gott vor. Þá tókuz mikler hluter med aullu Sudur-lande, serdeilis í Þorláks-haufn, þar vard lestar-hlutur. Þá vard skip-tape á Hravne í Grindavík. Þad sumar brotnudu 2 kaup-skip fyrer nordan á sama skere fyrer Slettu, sigldu uppá þad, brutu skipin, enn mistu gótsid mest-allt, menn komuz af, átte annad ad liggia í Húsavík, enn annad í Spákonu-fells-haufdá. Þad sumar var madur rettadur á alþínge, Helge Þorgeirs son ad nafne, sem fallid hafde í hórdóma og stocked af Vestfiordum í skip med Engelskum, í Englande sig gift, ad sinne konu lifande her á lande, kom sídan aptur híngad í land, og lá her epter um veturinn, sídan tekenn og med dóme til alþíngis hafdur. Þetta sumar miked gras, enn úthey nyttuz ei vel. Geck landfar-sótt um haustid, í hvorre sofnudu marger menn. Deyde sá fróme og vellærde kennemann, Síra Sigurdur Odds son í Arnarbæle Stephans sonar prests frá Gavlverigbæ í Flóa, 11. Novembris, sem er Marteins-

teinūs messa. Item deyde Jón Magnús son elldre sýsslumadur í Dala sýsslu þann 15da dag sama mánadar, einn vitur og vel skynsamur madur. Item deyde hanns kvinna Ástrídur Gísla dótter sama árs í Augusti mánude, ein fróm og gudhrædd kvinna. Item deyde sá gudhrædde og heidurlege kennemann Síra Oddur Stephans son, prófastur í Arness-sýsslu, þann 3ia Decembris í Gaulveriabæ í Flóa, einn medal lærdustu manna*) í þann tíd her í lande, hafde ádur skólameistare vered í Skálhollte maurg ár, og leinge utanlands studerad. Þetta haust á Allra heilagra messu siálfa sofnade Jón Odds son í Reykiavík á Seltiarnarnese. Margra presta lát spurdiz ad nordan og leikmanna. [Hvarf madur úr Mosfells-sveit, ætlade yfer Svínaskard ad leita ad saudum. Færleikurin kom heim um kvöldid, enn madurinn hefur ei sez sídan. O. E. S.] Þad sumar urdu umbodsmanna skipte á Bessastaudum, siglde Jens, enn kom aptur Laurentz. Þad haust vard skip-tape millum lands og eya fyrer Eyasande. Þetta haust var gód vedur-átt fram ad Jólum.

Þá sáuz undarleger og serleger hvalfiskar í Borgarfirde og Hvalfirde, voru al-hvíter á lit, sem stór út-selur ad vexte. Sá í Hvalfirde sáz, var þar frá Kross-messu um vorid fram ad Jóla-faustu, þad menn vissu. Þeir fóru so grunnt, ad menn máttu giorla siá þá af þurru lande. [Um haustid sáz ormurinn í Lagarfliótе. Reid M. Brinióllfur Sveins son sína visitatiu-reid um Austfirdínga fiórdúng, og er hann reid frá Eydaulum í Breiddal, fell hesturinn under haunum, þar hann var nær komen Berunese yfer Fagradals-skard, so hægre haundin vatz um lidinn, var aptur í lid kippt af Birne Þorvalds syne smá-

*) Al. Kennemanna.

sinásveine, og komz so til Berunesß, og lá biskup þár hálfa adra viku, medan verkinn dró úr. Skede þetta þridiudag, sem var pridiè Bartholomæi. Enn komuz heim í Skálhollt daginn fyrer Michaelis-messu. Fædd í Skálhollte Ragnheidur Brinjólfs dótter siálfa Mariu-messu sídare in Septembri die 8, sem var midvikudag, nær fyrstu kluckustund epter middag, eda þridiúnge eyktar epter hádege. Var sá dagur fædíngar-dagur sællrar meyar Mariæ. Gud gefe lucku og blessan! Er Ragnheidur heiten epter biskupsins módur Ragnheide Páls dóttur, enn hún var heiten epter sinne faudur-módur Ragnheide Peturs dóttur, sem átte Jón Magnús son á Svalbarde, dottur Peturs Lopts sonar og Sigrídar systur Ecceliu, sem átte Síra Sigurdur Jóns son á Greniadastad, sonur biskups Jóns. M. B. S. S.]

Anno 1642. Þá var gódur vetur, optast voru hagar, á álidnum Þorra og anndverdre Góe kom ískast líted. Druckmade madur í Hvítá Einar Narfa son 3ia Januarii um kvoldtíma, reid heiman frá Skálhollts stad med preste frá Olafsvollum og útí ár-vaukina, enn allt lá annad. Nádiz hesturinn, enn hann ei. Deyde sá fróme og gudhrædde kennemann Síra Páll Erasmus son frá Skúmstaudum í Landeyum á sinne egen jaurdu 14. Januarii. Skiptape under Eyafiaullum, og 4 hrauktuz til eya undereins. Þá vard og skiptape í Grindavík í Járngerdastada-sunde teinærkngur, komuz af 2 lamader, enn 9 druckuudu. [Skip-tape á Borgarfirde sex æríngur. O. E. S.] Þann 20. Februarii hlióp snió flód á Reynevollum í Kiós, sem burttók hey mestaull úr gardinum, og bravt hlauduna og fiósid, og drap 13 navt, enn 2 komuz af, og bar griót

á túnin og skemde þad, mannnum sem í fiósinu voru, vard naumlega hiálpad. Á sama dege hlióp og so á Þorláksstade, so flytia vard bæinn um vorid. Einnen hlióp á Hurdarbak, so peninge vard hætt. Item hlióp enn miog hætt snióflód á Tindastade á Kialarnese, hvort flód ad burttók heyin og fiósid, so ei komuz undan nema 3 naut og menninner med miklum harmkvælum, því ad af bænum tók nockur hús þarmed. Drucknade madur í Þiórsá um vorid á Ferin, ætlade ad sækia egg í Olmódsey. Um vorid í vertídar-lok sáz vlgabrandurinn á Stafnese. Um haustid feck madur vitfyrding á Skeidum búande á Hlemmeskeide Ásmundur ad nafne, og var so þann vetur.

Um veturinn drucknade madur á grandanum, sem ligur úr Hólminum, Sigurdur Sigvatsson ad nafne, sá er lenge bió á Hvaleyre.

[Reid Torfe Jónsson af alþinge med fadur sínum, og skilde vid biskupinn, og vestur til Núps í Dýrafirde, og siglde med Dönskum á Þíngeyre til Kaupenhafn, studerade þar so vid academied 4 ár, kom so út á Eyrarbacka, reid heim í Skálhollt, og sagde biskupinn M. Brinjólfur hann gude velkomenn. Reid hann sídan vestur, fann fadur sinn og módur, og so aptur um haustid í Skálhollt, var þann vetur locator þar, reid so um sumarid epter med biskupe, er hann visiterade yfer Vestfirdínga fiórdúng. Enn um haustid, er biskup kom í Skálhollt, og

og Sira. Finnur veik frá dóm=kyrkiu, vígdiz Torfe ad forláge biskups, og vard þar kyrkiu=prestur. Skrifadiz þá datum 1647. Var hann þá 30 ára.*] Um hanns giftíng stendur fyrr skrifad. Gud gefe haunum lucku og blessan.

(Annann dag Páska fór skip úr Vestmannaeyum til Engelskra, kom á stormur, sleit frá skipinu, hrauktuz um nóttina og fram̃ á daginn, nádu navmlega Þorlákshaufn miaug máttdregner, vard hiálpad skipe og maunnum. Madur frá Bessastaudum hvarf á Grindar=skaurdum um vorid, annar fyrer nordan, funduz ei aptur. Þann 24.*) Martii urdu 2 men̄ fyrer snióflóde avstur á Kolmúla, nádiz annar aptur, enn annar ei, því snióflódid fleygde haunum fram̃ á sió. Kona drucknade í Brúará á Bemódstada vade, enn mádur hennar med barne komz af. O. E. S.]

(Deyde Ragnheidur Eggerts dótter vestur í Patrix=firde í Savdlavksdal þann 6. Augusti, hafde alldur 93 ár, sem var fróm og gudhrædd hofdíngs=kvinna, og vel avdug vered hafde, var hennar mále epter Magnús Jóns son med hennar tilgiauf 9 hyndrud hundrada í jardagótse, fáum hundrudum fátt í.

Fæddur í Skálhollte Haldór Brinióls son 8. dag Decembris, fim̃tudag í daugun siálfa, sem munde um dagmál, var tvíbure, enn annad andádiz ádur skýrn hlavt. Reid M. Briniólfur um Sudurnes og fyrer Jokul sína visitatiu=reid, kom heim

*) Undangangande parenthesi hefur vidbætt Sira Torfe Jóns son.
*] Al. 25ta.

heim aptur epter Kross-messu. Annnur yferreid M. Briniólfs yfer Vestfirdínga fiórdúng kyrkiur ad visitera. Reid hann þá í Trekillisvík og Adalvík, hvar ei hafde ad saugn meir enn 100 ár visiterad vered, og ei af biskup Ogmunde. Og reid so þadan og ferdadiz yfer Isafiardar diúp, og so til Hollts í Onundarfiord, og sat þar kaupol Biorns Snæbiorns sonar skólameistara, er sídar feck Stadastad á Aulduhrigg epter Síra Gudmund Einars son, til Þórunnar Jóns dóttur prests Sveinns sonar bródur biskupsins. Tók hann so þá sídustu blessan síns alldrada fodurs, sem þá enn var á daugum karlægur. Hann lifde 84 ár. Sídan reid biskupinn heim í Skálhollt. M. B. S. S.]

Anno 1643. Var vetur gódur. Forgeck skip í Grindavík í Stadar-sunde teinæríngur, komuz af menn nockrer, annad á Midnese sexæríngur. Þá var fiske-ár gott. Þenna vetur andadiz sá virdulege mann Hákon Biorns son í Nese á Seltiarnarnese faustudaginn langa. Hanns fader var Síra Biorn Gísla son, bróder Arna Gísla sonar á Hlídarenda. Þá var gott vor og grassamt sumar, enn nýttiz misjafnt. Um sumarid á slætte vard madur og kona og sonur þeirra brádkvaudd á einum dege á Steinvade í Utmanna-sveit í Fliótsdals herade avstur. Þriú ungbaurn lifdu epter. Meintu menn þad tilferle sked hafe af silúngs áte, hvor kalladur er ofug-ugge. Um havstid vard og skiptape í Króksfirde fyrer vestan. Þeir fóru útt í ey nockra ad sækia laumb, hlódu of-frekt skipid, enn ákom fiúk og stormur, dóu menn tveir, enn einn komz af. Á Grímslæk í Olvese stack madur sig óviliande í kvidinn á brodd staf, og dó so. Sáz vígabrandurinn á Mariu-messu á Jóla-faustu.

Þann

Þann sama dag andadiz Séra Sigurdur Olafs son, Séra Olafs Brands sonar Einars sonar, var sóktur til Hamarenda frá Snóksdal ad þiónusta vinnustúlku þar, fór fylgdarlaust heim yfer hálsinn í snió og siúke, hrapade ofan fyrer biaurgin fyrer vestan Hamarenda 20 fadma hæd, og fannz þar ad morgne orendur. Enn hestur hanns sette heim til Hamarenda um kvoldid, og var tavmurinn nidre. J Húnavatns sýsslu átte madur barn vid stiúp-dóttur sinne. Kom hálfs-mánadar skorpa fyrer Jólin, batnade med Ymbredaugum. Vard jard-skiálfte Jóla-nóttina.

Haust þetta fellu Svensker inn í Danmork, og inntóku miked fyrer Kóngel. Mayst, ræntu, brenndu og drápu fólk, konu óvart, og fóru leynelega. Hvarepter ad byriadiz ógnarlegt stríd med blóds-úthellíngu mikille á bádar sídur.

Anno 1644. Var vetur gódur, enn vorid hardt. Fiskeár sydra. Dag 14. Februarii forgeck sexæríngur á Utskálum í Garde med 7 maunnum. Þad skip var frá Gaurdum á Akranese. Hiá Narvakote sudur vard skiptape, fóru med fiskefarm í Keblavík. Þann 18. Maij komu tvo skip í Hafnarfiord, sem meintuz Hollendsk, vildu fá ad kavpa. Enn Umbodsmadurinn sende epter logmanninum Arna Odds syne, rediz þad af, ad Jslendskum var fyrerboded ad kavpa. Sigldu þeir

 sídan

sídan ad vikú freste under Jökul, og vïxludu þar. Druck=
nade pilltur hiá Arnarbæle. Seinnt í Augusto brotnade Hofs=
óss kavp=far vestur vid Strander, komuz menn af, enn góts nád=
iz líted.

Þetta sumar kom sótt út á Eyrarbacka, þá óveniuleg her
í lande, hvoria Danster kalla **Misling**, og geck yfer allt land=
id, og vard miog mannskæd. Brann hús í Vídernese fyrer
nordan, og þar inne til 30 hundrada í bókum og klædum, átte
Síra Sigfús Eigils son, er ádur var skólameistare á Hólum.

Þann 23ia Octobris tók sá Svenske edur Hollendske Ad=
miral fyrer Kónginum af Danmork þesse epterfylgiande skip.
Þad Ita het *Patientia*, med 48 styckium, drápu Admiralenn herfe=
lega, sem var Pros Mundt, hvor her í lande var þá hofuds=
madur. 2ad het **Trelovir** med 36 styckium. 3ia **Ol=
denborg**, med 36 styckium. 4da **Stormaren**, med 28
styckium. 5ta **Fides** med 28 styckium. 6ta **Toloivir.**
7da **Netelbladt.** 8da **Lamb.** 9da **Roben.** 10da
**Tre=Kroner.** Þesse 5 med 108 styckium. 11ta **Pellí=
can.** 12ta **Lyndvorm.** Þesse bæde med 64 styckium
voru uppbrennd. 13da **Blodeyleve.** 14da **Delmen=
horst.** Þesse bæde voru jaugud uppá gryñíngar. **Mar=
chatt** og **Selhundt**, og eirn Galiot komuz undan. Kóngs=
sins son Hans Ulderich var skoteñ til davds, sem var Admiral
yfer 60 styckium. [Fæddur Sveinn Briniólfs son í Skálhollte
19. Septembris, festo Januarii Episcopi, fim̃tudag viku, nær
jafnær dagmálum og hádege, heitenn epter Biskupsins faudur, þá
enn lifanda. Og andadiz barnid siálfa Michaelis=messu under em=
bætte, cum caneretur Symbolum Ambrosii: *Te Deum* &c.

Hall=

